# Almanak

fyrir árið

# 1917

Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

---

TUTTUGASTA OG ÞRIÐJA ÁR.

WINNIPEG
Útgefandi og Prentari Ólafur S. Thorgeirsson.
1916

Á þessu ári teljast liðin vera:
frá Krists fæðingu.. ...................1917 ár

Árið 1917 sunnudagsbókstafur G.
Gyllintal: 18.

Myrkvar.

Árið 1917 verða 7 myrkvar, 4 á sólu og 3 á tungli.
1. Almyrkvi á tungli 7. jan., byrjar kl. 11.36 að kveldi og endar kl. 3.29 að morgni þess 8.
2. Sólmyrkvi 23. jan.; ekki sýnilegur í Vesturálfu.
3. Sólmyrkvi 19. júní. Sýnilegur í British Columbia, norðvestur hluta Canada og Alaska
4. Almyrkvi á tungli 4. júlí. Ósýnilegur í Norður-Ameríku.
5. Sólmyrkvi 18. júlí, mjög lítill og ósýnilegur hér í álfu.
6. Sólmyrkvi 14. des.; hér eigi sýnilegur.
7. Almyrkvi á tungli 28. desember. Byrjar kl. 1.54 f. m. og endar kl. 4.55 f. m.

Tunglið.

Fylgisrjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar,en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af klertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir— sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætið haldin vera hinn fyrsta sunnudag eftir fyrsta tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, netnil. 25. apríl. Það kom fyrir síðast árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | |
|---|---|
| 1 7 ........... | 8. April |
| 1918 ............ | 31. Marz |
| 1919 ............ | 20. April |
| 1920 ............ | 4. April |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínutur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árínu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

TÍMINN er í þessu almanaki viðaður við 90. hádegisbaug. Till þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# VEDURFRÆDI HERSCHEL'S,

er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni, er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nkvæmum athugunum aðdrttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina

Það er auðvelt að sj af töflu þessari, hvers konar veðurtta eða veðrabreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl. fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður........ ........ | Frost, nema sunnanvindur sé. |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum............. | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 og 6 " " .... | Regn .......... .......... | Regn. |
| " " 6 og 8 " " . .. | Vindur og regn ............. | Stormasamt. |
| " " 8 og10 " " .... | Breytilegt verður............. | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri |
| " "10 og 12 " " .... | Tíðar skúrir.................. | Kalt og hvast veður |
| " "12 og 2 e. m......... | Mjög rigningasamt........... | Snjór og regn. |
| " " 2 og 4 " ..... .... | Breytilegt veður ............ | Fagurt veður og hlýtt |
| " " 4 og 6 " ......... | Fagurt veður................. | Fagurt verður. |
| " " 6 og 8 " ......... | Fagurt, sé vindur af norðvestri.. | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n. a. |
| " " 8 og10 " ......... | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " "10 og miðnættis........ | Fagurt ..................... | Fagurt veður með frosti. |

### Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða sláiir. hann grænum eða gul-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sóla-a lag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

### Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta, er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

### Kórónа.

Með kórónu meinum vér smáa hringi, er sjást oft um sólina eða tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stækki hún, er fagurt veður í vændum.

### Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er álitinn boða regn ; regnbogi að kveldi, fagurt veður.

### Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skýjað loft, boðar það fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

### Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

### kafheiður himinn.

Þegar gufuhvolfið er óvanalega skírt, og mjög stjörnubert er og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

### Skýin.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hreyfast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau, er menn oft nefna ,,hestatögl" köllum vér þráðaský (Cirri). Einkenni þeirra er, að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnast fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar, reglulega myndaðar þyrpingar af skýum þessum sjást oft fyrir stöðugu blíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm, eru þau vanalaga þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvítleitum, löngum skýbakka. Ský þau er alment eru kölluð ,,baðmullar-sekkir", eða "þrumuhöfuð ', köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins, en hverfa með kvöldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga hægt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regnt Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast via skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggjð marflöt og taka yfir mikið svæði, boða fagurt veður. Lítil svör, vindaský eru fyrirboði regns.

### Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að

hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann „fellur" flótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur—smábreytist ekki —, verður sama fallega veðrið, þótt búast mætti við þykku lofti. Ef hann stendur lágt og er að "falla", er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hannn ',stigur" eða „fellur" skyndilega (meira en 0,01 úr þumlungi á kl., stund) bendur það á óstöðugt veður og storm.

— —

## Ártöl nokkura merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1183 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamingarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

———

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritum talinn bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gussursson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.

Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.

Svarti dauði geysaði, 1402.

Seinni plágan 1495.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.

Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.

Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.

Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.

Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).

Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.

Stórabóla geisaði 1707.

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Islandi á 17. öld.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslandi 1760.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.

Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.

Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.

Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.

Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.

Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.

Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.

Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju, 1800.

Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.

Landið gjört að biskupsdæmi 1801.

Haldinn fyrsti yfirréttur frá Reykjavík 1801.

Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.

Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.

Hið íslenzka Bókmentafélag stofnað 1816

Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau koma út 1796—1808.

Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 181?

Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsts blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélgið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.
Settur háskóli í Reykjavík 1911.

---

**Stærð úthafanna.**

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er | um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | " | " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " | " | 17,084,000 | " | " | " |
| Atlandshafið | " | " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " | " | 50,309,000 | " | " | " |

---

**Lengstur dagur.**

| | kl. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 36 |
| Endinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| París | 16 05 |
| Victoria B.C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

**Þegar klukkan er 12**

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinburgh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indland | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.64 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád |

---

## JANUAR hefir 31 dag 1917

MÖRSUGUR

*Umskurn Krists, Lúk. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Nýársdagur | |
| Þ | 2 | | |
| M | 3 | su. 7.52, sl. 4.54 | |
| F | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 | |
| F | 5 | Stjórnarskrá Íslands 1874 | |
| L | 6 | Þréttándi (jóladagurinn gamli) | 11. v. vetrar |

*Barnamorðið í Betlehem, Matt. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 7 | 1. s. e. þrett.—Knútsdagur—Eldbjargarmessa | |
| M | 8 | | ☺Fullt 2.42 f.m. |
| Þ | 9 | Napóleon 3. d. 1873 | |
| M | 10 | s.u.7.50,sl.5.01 | |
| F | 11 | | |
| F | 12 | Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268 | |
| L | 13 | Geisladagur | 12. vika vetrar |

*Þegar Jesús var 12 ára, Lúk. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 2. s. e. þr.—Magnús lögmaður Ólafsson d. 1800 | |
| M | 15 | Hilmar Finsen d. 1886 | |
| Þ | 16 | British Museum opnað 1759. | ☽S.kv.6.42 f.m. |
| M | 17 | s.u. 7.47, sl.5.09—Benjamín Franklin f. 1706 | |
| F | 18 | B. Lytton d. 1873 | |
| F | 19 | Gull fundið í Californíu 1848 | |
| L | 20 | Bræðramessa | 13.v. vetrar |

*Brúðkaupið í Kana, Jóh. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 21 | 3. s. e þr.—Agnesarmessa | |
| M | 22 | | |
| Þ | 23 | Gustav Doré d.1882 | ●Nýtt 2.40.f.m. |
| M | 24 | su.7.43,sl.5.17—Friðrik mikli f. 1712 | |
| F | 25 | Pálsm.—Kirkjufélag Ísl. í Vesturh. stofnað 1885 | |
| F | 26 | | —ÞORRI |
| L | 27 | Mózart f. 1756 | 14.v.vetrar |

*Jesús gekk ofan af fjallinu, Matt. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 4. s. e. þrett.—Holberg danska skáldið d. 1754 | |
| M | 29 | | ☾F kv. 8.02 e.m. |
| Þ | 30 | | |
| M | 31 | su.7.37,sl.5.27 —Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889 | |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1917

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÞORRI |
| F | 1 | Brigildarmessa—Ráðherrastjórn Íslands 1904 | |
| F | 2 | Kynndilmessa—Heitdagur Norðlendinga 1365 | |
| L | 3 | Mendelsshon Bartholdy f. 1809 | 15. v. vetrar |
| | | *Verkamenn í víngarði, Matt. 20* | |
| S | 4 | Níuviknafasta | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | | ◯ Fullt 10.28 e.m. |
| M | 7 | su.7.28, sl.5.36—Charles Dickens f. 1812 | |
| F | 8 | Pétur mikli d. 1725 | |
| F | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 | |
| L | 10 | Canada afh. Englendingum 1763 | 16 v. vetrar |
| | | *Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8* | |
| S | 11 | 2. s. í níuv. föstu—Bellman tónfræð. d. 1795 | |
| M | 12 | Abraham Lincoln f. 1809 | |
| Þ | 13 | | |
| M | 14 | su. 7.18, sl. 5.46 | ☽ Sið. kv 8.53 e m |
| F | 15 | | |
| F | 16 | Melankton fæddur 1497 | |
| L | 17 | Michael Angeló d. 1563 | 17. v. vetrar |
| | | *Skírn Krists, Matt. 3* | |
| S | 18 | Langafasta—Lúter dáinn 1546 | |
| M | 19 | N. Kópernikus f. 1473 | |
| Þ | 20 | Sprengikvöld | |
| M | 21 | Öskudagur—su. 7.08, sl. 5.55— | ● N. 1.1.09 e.m. |
| F | 22 | Washington f. 1732—Pétursmessa | |
| F | 23 | | |
| L | 24 | Þorraþræll | 18. v. vetrar |
| | | *Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4* | |
| | | | GÓA |
| S | 25 | 1. s. í föstu | |
| M | 26 | | |
| Þ | 27 | | |
| M | 28 | su. 6.57, sl. 6.04 | ☾ F. kv. 11.44 f.m. |

# MARZ hefir 31 dag 1917

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | GÓA |
| F | 1 | | |
| F | 2 | John Wesley dáinn 1791 | |
| L | 3 | Jónsmessa (h. f.) | 19. v. vetrar |

*Kanverska konan, Matt. 15.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | 2. s. í föstu | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | | |
| M | 7 | su. 6.45 sl. 6.13 | |
| F | 8 | Jón Thoroddsen dáinn 1868. | |
| F | 9 | Bard. m. Merr. og Mon. 1862 — | ☺F. 4.58 e. m. |
| L | 10 | | 20. v. vetrar |

*Jesús rak ut djöful, Lúk. 11.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 3. s. í föstu | |
| M | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 | |
| Þ | 13 | Dr. Guðbr. Vigfússon f. 1827 | |
| M | 14 | su. 6. 33, sl. 6. 22 | |
| F | 15 | | |
| F | 16 | Gvöndard. (Guðm. góði H. d. 1237)-- | ☽S. k. 7. 33 f. m. |
| L | 17 | Björn Gunnlögsson d. 1876 | 21. v. vetr. |

*Jesús mettar 5000 manna, Jóh. 6.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | Miðfasta | |
| M | 19 | | |
| Þ | 20 | | |
| M | 21 | su. 6.21, sl. 6.30—Benediktsmessa—Jafndægur | |
| F | 22 | Göthe d. 1832 | ●Nýtt 11.05 e. m. |
| F | 23 | Riels uppr. í Canada hefst 1885 | |
| L | 24 | Albert Thorvaldssen d. 1844 | 22. v. vetrar |

*Gabríel engill sendur, Lúk. 1.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 5. s. í föstu—Boðunardagur Maríu—Góuþæll | |
| M | 26 | | EINMÁNUDUR |
| Þ | 27 | John Bright d. 1889 | |
| M | 28 | su. 6.07, sl. 6.39 | |
| F | 29 | Jón Eiríksson, konferensráð d. 1787 | |
| F | 30 | | ☾F. kv. 5.36 f. m. |
| L | 31 | | 23. v. vetrar |

# APRÍL hefir 30 daga 1917

Einmánuður

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | Pálmasunnudagur—Bismarck f. 1815 |
| M | 2 | Gambetta f. 1838 |
| Þ | 3 | |
| M | 4 | su. 5.54, sl. 6.48 |
| F | 5 | Skírdagur |
| F | 6 | Föstd. langi |
| L | 7 | ☺F.t. 8.49 f.m.—24.v.vetrar |

*Krists upprisa, Mark. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | Páskadagur—Kristján IX. f. 1818 |
| M | 9 | |
| Þ | 10 | Þórður Sturlson d. 1237 |
| M | 11 | su. 5.42, sl. 6.56 |
| F | 12 | |
| F | 13 | |
| L | 14 | ☽Síð.kv. 3.32 f.m.—25. v. vetrar |

*Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 1. s. e. páska—Abraham Lincoln skotinn 1865 |
| M | 16 | Magnúsmessa (Eyjajarls h. f.) |
| Þ | 17 | Franklín d. 1790 |
| M | 18 | su. 5.30, sl. 7.05 |
| F | 19 | Melankton dáinn 1560—Darwin d. 1882 |
| F | 20 | |
| L | 21 | ●N. 9.01 f. m.— Sumarmál af 26. v.v. |

*Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 2 s.í páska |
| M | 23 | Jónsmessa (Hólab. h. s. d. 1121) |
| Þ | 24 | Daníel Defoe d. 1731 |
| M | 25 | su. 5.19, sl. 7.13 Harpa |
| F | 26 | Björnstjerne d. 1910—Sumard. fyrsti 1. v. s. |
| F | 27 | Herbert Spence f. 1820 |
| L | 28 | |

*Burtför Krists til föðursins, Jóh. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 3. s. e. páska ☾F. kv. 0.22 f. m. |
| M | 30 | |

# MAÍ hefir 31 dag 1917

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HARPA |
| Þ | 1 | Tveggja postulamessa—D. Livingstone d. 1878 | |
| M | 2 | su. 5.09, sl. 7.21 | |
| F | 3 | | 2. v. sumars |
| F | 4 | | |
| L | 5 | Napóleon Bonaparte d. 1821 | |
| | | *Sending heilags anda, Jóh. 16.* | |
| S | 6 | 4. s. e. páska | Fullt 9.43 f.m. |
| M | 7 | | |
| Þ | 8 | John Stuart Mill d. 1873 | |
| M | 9 | su.4.59,sl.7.30 | |
| F | 10 | Eldaskildagi | 3. v. sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | J. Herschel d. 1871 | |
| | | *Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.* | |
| S | 13 | 5. s. e. páska | Síð.kv.8.48 e.m. |
| M | 14 | Vinnuhjúaskildagi á Íslandi | |
| Þ | 15 | Hallvarðsmessa--Pétur biskup d. 1891 | |
| M | 16 | su.4.51,sl.7.37 | |
| F | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841 | 4. v. sumars |
| F | 18 | Magnús prest. Jónsson, Grenjaðarst. d. 1889 | |
| L | 19 | Gladstone d. 1898 | |
| | | *Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.* | |
| S | 20 | 6.s.e.páska—Chr.Col.d.1506 — | Nýtt 7.45 e.m. |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | Sæm. fróði d. 1133 | |
| M | 23 | su. 4.45, sl. 7.44 | |
| F | 24 | Kopernicus d. 1543 | 5. v. sumars |
| F | 25 | Urbanusmessa | SKREFLA |
| L | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 | |
| | | *Sá, sem elskar mig, Jóh. 14.* | |
| S | 27 | Hvítasunnudagur | F. kv. 6.34 e.m. |
| M | 28 | Gissur biskup Ísleifsson d. 1118 | |
| Þ | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| M | 30 | su. 4.40,sl.7.50—Eggert Ólafsson d. 1768 | |
| F | 31 | Jón Guðmundsson, ritstj. d. 1875 | 6. v. sumars |

## JÚNÍ hefir 30 daga 1917

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | SKERPLA |
| F | 1 | Garibaldi d. 1883 | |
| L | 2 | | |

*Kristur og Nikódemus, Jóh. 3.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 3 | Trínitatis—Síra Jón Bjarnason, D.D., d. 1914 | |
| M | 4 | Vísi.Gísli d. 1696 | |
| Þ | 5 | su. 4.38 sl. 7.55 | Fullt 8.07 e.m. |
| M | 6 | Alexander mikli d. 365 f. Kr. | |
| F | 7 | Tómas Sæmundsson f. 1807 | 7. v. sumars |
| F | 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1882 | |
| L | 9 | Charles Dickens d. 1870 | |

*Hinn auðugi maður, Lúk. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 10 | 1. s. e. trín. | |
| M | 11 | | |
| Þ | 12 | su. 4.36, sl. 7.59 | Síð kv.1.39 f.m. |
| M | 13 | Jón Sveinsson, landlæknir d. 1803 | |
| F | 14 | Stgr. biskup Jónsson d. 1845 | 8. v. sumars |
| F | 15 | | |
| L | 16 | | |

*Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 17 | 2. s. e. trín.—Jón Sigurðsson f. 1811 | |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | Björn Jónsson ritstj. Norðanf. d.1816 | |
| M | 20 | su. 4.36, sl. 8.02 | Nýtt 8.02 f.m. |
| F | 21 | Kristján Jónsson, skáld. f. 1842 | 9. v. sumars |
| F | 22 | Sólstöður; lengstur dagur | |
| L | 23 | | SÓLMANUDUR |

*Hinn týndi sauður, Lúk. 15.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 24 | 3. s. e. trín.—Jónsm.—Kristni lögt. á Ísl. 1000 | |
| M | 25 | | |
| Þ | 26 | Jón alþm. á Gautl. d. 1889 | |
| M | 27 | su. 4.37, sl. 8.03 | F. kv. 11.08 f. m. |
| F | 28 | Björn á Skarðsá d. 1655 | 10.v.sumars |
| F | 29 | Pétursmessa og Páls. | |
| L | 30 | Jón biskup Vigfússon d.1690 | |

# JULÍ hefir 31 dag 1917

SÓLMANUDUR

*Verið miskunsamir, Lúk. 6.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 4.s.e.trín.—Dominion-dagur | |
| M | 2 | Þingmaríum. (vitjunard. Maríu) | |
| Þ | 3 | Konráð Gíslason f. 1808—Mag. Eiríksson d.1881 | |
| M | 4 | Þjóðm. Bandaríkja (1776) | ☺Fullt 4.41 e. m. |
| F | 5 | Ísleifur bisk. Gissursson d. 1080 | 11.v.sumars |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Jóhann Huss brendur 1415 | |

*Jesús kennir af skipi, Lúk. 5.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 5.s.e.trín. | |
| M | 9 | | |
| Þ | 10 | Jóhann Calvin f. 1509 | |
| M | 11 | su. 4.47,sl.7.59 | ☽Síð. kv. 9.12 f. m. |
| F | 12 | Julius Cæsar f. 100 f. Kr. | 12. v. sumars |
| F | 13 | Margrétarmessa | |
| L | 14 | | |

*Réttlœti Farríseanna, Matt. 5.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 6.s.e.trín.—Krossfarendur tóku Jerúsalem (1099) | |
| M | 16 | | |
| Þ | 17 | | |
| M | 18 | su.4.52,sl.7.55 | ●Nýtt 10.00 e. m. |
| E | 19 | | 13. v. sumars |
| F | 20 | Þorláksmessa (á sumri)—Guðbrandur bisk.d.1627 | |
| L | 21 | | |

*Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 7.s.e.trín. | |
| M | 23 | Hvamm-Sturla d.1183 | |
| Þ | 24 | Kanada fundin 1534 | |
| M | 25 | su.4.59,sl.7.50—Jakobsmessa | |
| F | 26 | | 14 v. sumars |
| F | 27 | Atlansh.ritsím. fullg. 1866 | ☾F.kv.1.40 f.m. |
| L | 28 | Kopavogseiðar 1662—Miðsumar | HEYANNIR |

*Um falsspámenn, Matt. 7.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 8.s.e.trín.—Ólafsmessa | |
| M | 30 | William Penn d.1718—Bismarck d.1898 | |
| Þ | 31 | Kolbeinn kaldaljós Árnórss. d.1246 | |

## ÁGÚST hefir 31 dag 1917

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Bandadagur—Jón Espólín d. 1836 | |
| F | 2 | Ben. Sveinsson, sýslum. d. 1899 | 15 v. sumars |
| F | 3 | Ólafsmessa (h. s.) | ☺Fullt 0.12 f. m. |
| L | 4 | | |

*Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | 9. s. e. trín.—Br. Sveinsson, biskup d. 1675 | |
| M | 6 | | |
| Þ | 7 | Spánska flotanum eytt 1588 | |
| M | 8 | su. 5.12, sl. 7.34—Canning d. 1827 | |
| F | 9 | Capt. Maryat d. 1818 | ☽S. kv. 2.56 e. m.—16 v. s. |
| F | 10 | Lárentiusarmessa—Veginn Didrik af Minden 1539 | |
| L | 11 | | |

*Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | 10. s. e. trín. | |
| M | 13 | Bólu-Hjálmar d. 1875 | |
| Þ | 14 | Þórður biskup Þorláksson f. 1637 | |
| M | 15 | su. 5.20, sl. 7.24—Maríumessa h. f. | |
| F | 16 | | 17. v. sumars |
| F | 17 | Sv. Egilsson d. 1852 | ●Nýtt 1.21 e. m |
| L | 18 | | |

*Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 11. s. e. trín.—Gestur Pálsson d. 1891 | |
| M | 20 | Wm Booth d. 1912 | |
| Þ | 21 | Njálsbrenna 1011 | |
| M | 22 | su. 5.29, sl. 7.13 | |
| F | 23 | | 18. v. sumars |
| F | 24 | Bjarni Thorarensen d. 1841 | |
| L | 25 | Pétur Guðjónss. d. 1877 | ☾F. kv. 2.08 e. m. |

*Daufi og málhalti maðurinn, Mark. 7.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | 12. s. e. trín. | |
| M | 27 | Ágústin d. 430 | TVÍMANUDUR |
| Þ | 28 | Leo Tolstoi f. 1828 | |
| M | 29 | su. 5.37, sl. 7.01—Hofuðd.—Jóh. skír. hálshögg. | |
| F | 30 | Jón biskup Vidalín d. 1720 | 19. v. sumars |
| F | 31 | Jón konferenzráð Eiríksson f. 1728 | |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1917

TVÍMANUÐUR

L 1 | ☺Fullt 7.29 f. m.

*Hinn miskunnsami samverji, Lúk. 10.*

S 2 | 13.s.e.trín.---Grundtvig d. 1872
M 3 | Cromwell d. 1658---Verkamannad. í Canada
Þ 4 | Franska lýðv. stofn. 1870
M 5 | su. 5.45, sl. 6.50
F 6 | McKinley forseti skotinn 1901 20. v. sumars
F 7 |
L 8 | Maríumessa ☽S.kv. 2.05 f.m.

*Tíu líkþráir, Lúk. 17.*

S 9 | 14. s. e. trín.---Svoldarorusta.---Fall Ólafs Trygg-
M 10 | [vasonar 1000
Þ 11 |
M 12 | su. 5.25 sl.6.37---Bard. við Quebec 1759
F 13 | Bretar taka Quebec 1759 21. v. sumars
F 14 | Wellington d. 1852
L 15 | Moscow-borg brend 1812

*Enginn kann tveimur herrum að þjóna, Matt. 6.*

S 16 | 15. s. e. trín. ●Nýtt 5.28 f.m.
M 17 | Willard Fiske d. 1904
Þ 18 | Fyrsti banki á Íslandi 1885
M 19 | su.6.00,sl.6·23
F 20 | Geir biskup Vídalín d.1823 22. v. sumars
F 21 | Mattheusmessa
L 22 |

*Sonur ekkjunnar af Nain, Lúk. 7.*

S 23 | 16. s.e. trín ---Snorri Sturluson veginn 1241
M 24 | Niels Finsen d. 1904--Jafndægur--☾F.kv.0.41 f.m
Þ 25 | Björn Gunn'augsson f. 1788
M 26 | su.6.09,sl.6.10-- Kristján X.f.1870- - HAUSTMAN.
F 27 | Fyrsta járnbraut á Englandi 1825. 23.v.sumars
F 28 | L. Pasteur d. 1895
L 29 | Mikaelsmessa

*Vatnssjúki maðurinn, Lúk. 14.*

S 30 | 17. s. e. trín. Fullt t. 3.31 e.m.

# OKTÓBER hefir 31 dag 1917

HAUSTMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | |
| Þ | 2 | |
| M | 3 | su. 6.18, sl.5.57---Pétur Pétursson biskup f. 1808 |
| F | 4 | 24. v. sumars |
| F | 5 | Jón Thoroddsen f. 1819 |
| L | 6 | Tennyson d. 1892---Eldadagur |
| | | *Hvers son er Kristur? Matt. 22.* |
| S | 7 | 18.s.e.trin.---Edgar Poe d.1849---☽S.kv.5.14 e.m. |
| M | 8 | |
| Þ | 9 | Diónýsíusmessa -Chicago brann 1871 |
| M | 10 | su. 6.26, sl. 5.44 |
| F | 11 | 25. v. sumars |
| F | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 |
| L | 13 | |
| | | *Limafallssjúki maðurinn, Matt. 9.* |
| S | 14 | 19. s. e. trín. |
| M | 15 | Gregoriska tímat. innleitt 1582 ●Nýtt 9.45 e.m. |
| P | 16 | |
| M | 17 | su. 6.35, 5.32 |
| F | 18 | Lúkasmessa 26. v. sumars |
| F | 19 | Einar Ásmundsson í Nesi d.1893 |
| L | 20 | |
| | | *Brúðkaupsklœðin, Matt. 22.* |
| S | 21 | 20 s e trín.—Sira Jón Þorláksson d. 1819 |
| M | 22 | Flugumýrarbrenna 1253---Jón Espólíu f. 1769 |
| Þ | 23 | W.Penn steig á land í Amer.1681--☾F.kv.9.38 f.m |
| M | 24 | su. 6.44, sl. 5.21 |
| F | 25 | Veturnætur af 27. v. sumars |
| F | 26 | Moltke hersh. f 1800 GORMANUDUR |
| L | 27 | Síra Hallgr Péturs.d.1674--- Vetrard.fyrsti---1.v.v. |
| | | *Konungsmaðurinn, Jóh. 4.* |
| S | 28 | 21 s e trín.---Howard-háskólinn stofnaður 1636 |
| M | 29 | Síra Arnljótur Ólafsson d 1904 |
| Þ | 30 | Gambetta f 1832 ○Fullt 1.19 f.m |
| M | 31 | su 6 53, sl 5 11 --Reformation Lút. 1517 |

## NÓVEMBER hefir 30 daga 1917

GORMANUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Allra-heilagra-messa--Jón Loptsson í Odda d 1197 | |
| F | 2 | Esaías Tegnér d 1846 | |
| L | 3 | | 2 v vetrar |

*Jesús prédikar um sœlu, Matt. 5.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | 22 s e trín. | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Fall Gustafs Adolfs 1632 | ☽S kv 0 04 e m |
| M | 7 | su 7 01, sl 5 03---Aftaka Jóns biskup Arasonar | |
| F | 8 | [og sona hans 1550 | |
| F | 9 | Ari fróði Þorgilsson d. 1148 | |
| L | 10 | | 3 v vetrar |

*Skattsins mynt, Matt. 22.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 23 s e trín.---Marteinsmessa---W. Fiske f 1831 | |
| M | 12 | | |
| Þ | 13 | | |
| M | 14 | su 7 10, sl 4 55 | ●Nýtt 1 29 e m |
| F | 15 | | |
| F | 16 | Jónas Hallgrimsson f 1807 | |
| L | 17 | | 4 v vetrar |

*Blóðfallssjúka konan, Matt. 9.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 24 s e trín. | |
| M | 19 | Albert Thorvaldsen f 1770 | |
| Þ | 20 | Vígð Hóladómkirkja 1763---L. Tolstoi d. 1910 | |
| M | 21 | su 7 19, sl 4 50---Maríumessa | ☾F kv 5 29 e m |
| F | 22 | Ceselíumessa | |
| F | 23 | Klemensmessa | |
| L | 24 | Björn ráðh. Jónsson d 1912 | 5 v vetrar |

*Viðurstygð eyðileggingarinnar, Matt. 24.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 25. s. e. trín.---Katrínarmessa | ÝLIR |
| M | 26 | Konráðsmessa | |
| Þ | 27 | Grímur Thomsen d. 1896 | |
| M | 28 | su 7 27, sl 4 46 | ○Fullt 1 41 e m |
| F | 29 | | |
| F | 30 | Andrésmessa | |

## DESEMBER hefir 30 daga 1917

| | | | Ýlir |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Eligiusmessa | 6 v vetrar |
| | | *Innreið Krists í Jerúsalem, Matt. 21.* | |
| S | 2 | 1 s í jólaföstu—Adventa | |
| M | 3 | Steinn biskup Jónsson d 1739 | |
| Þ | 4 | Helgi biskup Thorderson 1867 | |
| M | 5 | su 7 35, sl 4 42 | |
| F | 6 | Bened.próf.Kristjánss. d 1903 | ☽S kv 9.14 f m |
| F | 7 | Jón Sigurðsson d 1879 | |
| L | 8 | Maríumessa | 7 v vetrar |
| | | *Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.* | |
| S | 9 | 2 s í jólaföstu-- Milton f 1608 | |
| M | 10 | Alexander Dumas, sr d 1872 | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su 7 42, sl 4 42---Skúli fógeti f 1711 | |
| F | 13 | Lucíumessa | |
| F | 14 | George Washington d 1799 | ●Nýtt 4 17 f m |
| L | 15 | Dr. Niels Finsen f 1860 | 8 v vetrar |
| | | *Jóhannes í böndum, Matt. 11.* | |
| S | 16 | 3 s í jólaföstu---Beethoven f 1770 | |
| M | 17 | Páll amtm. Briem d 1904 | |
| Þ | 18 | | |
| M | 19 | su 7 54, sl 3 57---Björn próf. Halldórsson d 1882 | |
| F | 20 | Stefán amtm. Stephensen d 1820 | |
| F | 21 | Tómasmessa | ☾F kv 1 07 f m |
| L | 22 | Sólhvörf-skemsturdagur | 9 v vetrar |
| | | *Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.* | |
| S | 23 | 4 s í jólaföstu---Þorláksmessa | |
| M | 24 | Aðfangadagur jóla----Nóttin helga | |
| Þ | 25 | Jóladagur | Mörsugur |
| M | 26 | su 7 50, sl 4 47 | |
| F | 27 | Magnús konf. Stephensen f 1762 | |
| F | 28 | Oddur Einarsson biskup d 1630 | ○Fullt 4 52 f m |
| L | 29 | Gladstone f 1809 | 10 v vetrar |
| | | *Símon og Anna, Lúk. 2.* | |
| S | 30 | S. m. jóla og nýárs---Bjarni Thorarensen f 1786 | |
| M | 31 | Gamlársdagur | |



*Joffre, herforingi.*

# Almanak.

22. ár. WINNIPEG 1917

## MILLI HEIMS OG HELJAR.

**Þýzkaland.—England.—Frakkland.—Belgía.**
**Joffre, foringi Frakka.**

Í daglegum önnum nemur hugurinn ósjálfrátt hvað eftir annað staðar við stríðið mikla, sem nú geisar í heiminum. Það umhugsunarefni gnæfir svo hátt upp yfir öll önnur, að engis annars gætir. Um langan aldur, eftir að alt er komið aftur í samt lag jafnvel, ef það annars verður nokkuru sinni, verða vobrestirnir, sem nú naumast heyrist mannsmál fyrir, eins og þórdunur eða skrugguhljóð í eyrum komandi kynslóða. Um þessi áramót, er styrjaldar-ófögnuðurinn hefir þegar staðið yfir á þriðja ár, er ekki úr vegi að koma fram með dálitla hugleiðing um sumar þjóðirnar, er að stríðinu standa, eða fáein atriði í því sambandi, því meira getur það ekki orðið.

### 1.

Allur þorri þeirra bóka, er út koma í mentalöndunum, sem við stríðið eru riðin, eru um þann ferlega hildarleik. Í einni bókinni*), sem út kom á

*) Friedrich Wilhelm Foerster: Die deutsche Jugend und der Weltkrieg, 1915.

Þýzkalandi fyrir nokkuru, eftir þýzkan prófessor í Muenchen, sem betra er að geta en flestra annarra, þar sem þar kveður við nokkuð annan tón, standa þessi ummæli:

"Mannkynið hefir nú náð því þorskastigi, að þjóðunum eru gagnskifti lífsnauðsyn til samvinnu og mentunar. Engin þjóð er fær um að leysa úr sínum eigin úrlausnarefnum, án þess að styðjast við erfða-reynslu erlendra þjóða. Frakkland þarf á Þýzkalandi að halda, Þýzkaland á Frakklandi. Þýzkaland þarf á andastefnu slafnesku þjóðanna að halda og Slafar á andastefnu Þýzkalands. England fær eigi verið án Þýzkalands, Þýzkaland eigi án Englands. Hinar einstöku þjóðir eru hver annari ekkert síður nauðsynlegar, til þess að bæta hver aðra upp andlega, en kynin tvö. Bæði þjóðum og mannssálum er samfélagsleysið tortíming vegna einræningsskapar, sem það hefir í för með sér. Í sameining kynflokkanna fæðist alls herjar Kristsmyndin í oss."*)

Það eru spakleg orð og sönn. En einmitt þessar þjóðir, sem liggur svo mikið á að skilja hver aðra og læra hver af annari, berast nú á banaspjótum og keppast við að eyða helgidómunum hver fyrir annari. Misskilningur og hleypidómar þjóta nú upp, eins og gorkúlur á haugi, og verða við lýði, eftir að sú kynslóð, sem nú er uppi, er löngu lögst undir græna torfu. Mikið af því máli, sem blöðin flytja dagsdaglega, er þjóðarógur, og hann drekka menn í sig með áfergju. Bræðralagshugsjónin, sem var svo langt á leið komin, eða virtist vera, hefir orðið

---

*) Sbr. G. Lowes Dickinson (Cambridge): **A German on the War.** Hibbert Journal, okt. 1915, bls. 30—36. Og Henry T. Hodkin (London) **Christian Internationalism,** s. st. okt. 1916, bls. 140—149.

að fara í felur, og að líkindum langt þar til er hún dirfist að sýna sig aftur.

Fyrir því er gott að halda því á lofti, að velferð mannkynsins er sameiginleg velferð þjóðanna, að engin þeirra má án annara vera. Hver þessara stórþjóða á mikinn sjóð mannkosta í fari sínu, sem bezt hafa þrifist með henni og hinar þurfa að þekkja og tileinka sér. Þjóðverjar eiga marga slíka ágæta kosti í fari sínu, sem þeir eiga nú það að þakka, hve vel þeim hefir gengið og hve marga örðugleika þeir hafa bugað. Þeir eru allra manna mestir grúskarar. Grúskþoli þeirra er við brugðið. Stöðugt eru þeir að grafa eftir meiri fróðleik. Í þeim efnum er þjóðarhugsjónin sú, að tína saman allan þann fróðleik, sem unt er að afla sér, í sambandi við hvert einstakt atriði. Það kemur þeim að góðu haldi. Sökum fróðleiks og rannsókna hafa þeir orðið kennarar heimsins. En alkunnir eru þeir þá líka fyrir það, að vera heimsins mestu smásmyglismenn. Þekkingin verður einatt að ryki í höndum þeirra. Þeir bregða Ítölum um að þeir hafi lélegan **sitjanda**,*) og telja sér það þá líka sjálfum til gildis, hve duglegan þeir hafi sitjandann. Enda vita þeir allra manna bezt, hvílíkt fádæma vald heill bunki af innvitnunum hefir og eru allra manna þrautseigastir og þolnastir við að safna. En í þetta sinn brást sitjandinn þeim. Þeir lögðu út í þetta stríð af því þeir voru orðnir lúnir og sárir. Hve mikil hamingja það hefði verið fyrir þá og heim allan, ef sitjandinn hefði eigi í þetta skifti brugðist þeim og þeir setið kyrrir við grúsk sitt og vísindamensku.

En auk þess að eiga rannsóknarþol og djúphyggju á hærra stigi en aðrar þjóðir, eiga þeir annað þjóðernis-einkenni, sem hratt þeim upp af sitj-

*) Die Italiener haben kein Sitzfleisch.

andanum. En það er **hermenskan.** Frá fyrstu upptökum sögu sinnar eru þeir hermenn með afbrigðum. Og hermenskuna hafa þeir lagt meiri rækt við og varðveitt betur frá því á hermenskuöld mannkynsins, en nokkur Norðurálfu þjóð önnur. Enda hafa þeir lifað á ránum og gripdeildum, unz Prússar, sem mestur hermensku hugur er í, bera ægishjálm yfir Þjóðverjum öllum og hafa bæði tögl og hagldir í stjórnmálum. Hrottar í orði og hrottar á borði eru þeir með afbrigðum.*) Hermenskan hefir það í för með sér. Fyrir húsbóndanum og heimilisföðurnum skjálfa menn; og þó einkum embættismanninum. Hrottaskapur einkennir alla, sem yfir eitthvað eru settir, þó undantekningar sé vitanlega margar. Að stjórna og ógna er eitt í huga þeirra, frá lægsta valdsmanni til hins efsta. Það er runnið þeim í blóðið frá hermenskunni.

Þá er **löghlýðnin** eigi síður einkenni Þjóðverja. Hrottaskap yfirboðara sinna, hvort heldur húsbóndans eða foringjans, þola þeir möglunarlaust. Vita, sem er, að innan undir þessari hraunskorpu getur verið mikil viðkvæmni og göfuglyndi. Enda á yfirboðari að vita, og hinir að gegna. Hans er að skipa, mitt að hlýða. Engin stjórn á eins þæga þjóð við að eiga og hin þýzka. Jafnaðarmenn voru að færa sig upp á skaftið ofurlítið og eru fjölmennur flokkur á þingi. Það er þess vert að muna, að við alls herjar kosningar á Þýzkalandi 1912 greiddu fjórar miljónir og einn fjórði kjósenda, — eða 35 af hundraði allra kjósenda—atkvæði með flokki jafnaðarmanna. Í þeim hópi var fjöldi óánægðra manna, sem illa undu stjórnarháttum. Á Þýzkalandi er engin önnur leið fær til þess að láta í

*) Jafnvel Lúter reit tveim árum fyrir dauða sinn gegn "páfa-asnanum, með löngu asaneyrun og bannsettan lygakjaftinn."

ljós óánægju sína með ástandið í landinu eins og það er, en að greiða jafnaðarmannastefnunni atkvæði sitt.*) En þeir lögðu niður skottið um leið og stríðið hófst. Þá létu þeir alla gagnrýni niður falla og gerðu sér að góðu að heyra og hlýða. Alt tal um, að þjóðin muni gera uppreist þá og þegar, er óvit. Þjóðverjar eru allra manna bezt að sér. En uppreist kunna þeir ekki að gera og vita, að fara myndi í handaskolum. — Ósjaldan hefir því verið hreyft um Íslendinga, hve mikils þeir fari á mis, þar sem þeir læri aldrei neina herþjónustu. Og því verður ekki neitað, að hermenskan venur menn af leti og hóglífi, sinnuleysi og skorti á alvöru og hugrekki.

Danskur maður, prófessor í kirkjusögu við háskólann í Kaupmannahöfn, hefir ritað bók um þjóðirnar, sem nú liggja í stríði, og kannast við, að við allar þessar þjóðlífssyndir gæti Danir losast með því að leiða í lög hervald, í sama skilningi og Þjóðverjar, og segir: "Vitaskuld myndi kvillinn hverfa frá sjúklingnum, en hann myndi líka deyja sjálfur. Margt af hinu bezta, sem vér eigum, myndi deyja með oss: Frelsisþráin, réttlætistilfinningin, löngunin til að komast að rólegri og velgrundaðri niðurstöðu, og þetta hefir verið hið bezta, sem einkent hefir danskan hugsunarhátt. Að beygja kné fyrir þýzkri valdadýrkan, væri ekki einungis sama fyrir þjóðina og að fremja sjálfsmorð í útvortis skilningi — því sé valdið hið æðsta, þá er lítil smáþjóð dæmd til dauða—, heldur væri það að láta svifta sig hinu bezta, sem þjóðerni vort á til í eigu

*) Sbr. M. Epstein: German War Literature. Hibbert Journal, okt. 1915, bls. 29.

sinni."*) Löghlýðni og stjórnarfylgi eða drottinhollusta er í raun og veru fagurt einkenni í fari hverrar þjóðar. En með Þjóðverjum virðist það keyra fram úr hófi. Enda er ekki hægt að segja, að þjóðarsálin sé í stjórnarfarslegu tilliti enn fyllilega vöknuð. Óhætt er að segja, að reyna muni meira á löghlýðni þjóðarinnar nú en nokkuru sinni, áður þeir viðburðir eru til lykta leiddir, sem nú eru að gerast. Og þá er eftir að vita, hvort löghlýðnin ber eða brestur.

Enn er ónefnt það einkennið í lund Þjóðverja, sem virðist vera í beinni mótsögn við það, sem þegar hefir verið talið, en það er **ástúð** og **viðkvæmni.** Öllum kemur saman um, að af þessum göfugu einkennum sé þjóðin óvenju auðug. Í sambandi við þessa einkunn hennar stendur hljómlistin, sem hún þykir vera öllum þjóðum fremri í. Sálmum og sálmasöng Þjóðverja er viðbrugðið. Tilfinnngaríkt sálarlíf birtist þar, eigi síður en í lýriskum skáldskap, með víðfeðmi svo mikið, að nær frá dýpstu tónum til hinna hæstu. Á þingi þjóðanna finst oss nú, að Þjóðverjar hafi orðið vargar í véum. En án þeirra megum vér ekki vera. Þeir eiga eitt allra fullkomnasta hljóðfærið og kunna prýðilega með að fara, þó nú virðist atferli þeirra í orðum og gerðum ganga brjálsemi næst.

2.

Frá Þjóðverjum hverfum vér nú til þeirrar þjóðarinnar, sem þeir hata mest: Englendinga. Frakka fyrirlíta þeir, og kenna í brjósti um, í öðru veifinu að minsta kosti. En Englendinga hata þeir af öllum þeim ákafa, sem sá óvinur er hataður með,

---

*) Valdemar Ammundsen: **Krig og krigsförende Kristne.** Strejflys fra Tyskland, Frankrig og England, København, 1916, bls. 37—38.

er óttast er um, að bera kunni hærra hlut frá borði. Frændur eru frændum verstir, segir máltækið. En það er satt einungis þá, er hatrið losnar af bási og fær að leika lausum hala. Margt er ólíkt með Þjóðverjum og Englendingum, þó skyldir sé. Það er alt annar bragur á lífinu og svipur á Englandi en á Þýzkalandi. Þeir hafa töluvert ólíka hugmynd um manninn. Miðaldahöfðinginn, ægilegur útlits, hertoginn, sem öðrum stendur stuggur af í umgengni, ofurmennið, sem alt er leyfilegt, af því hann er ofurmenni, og allir skjálfa fyrir, af því enginn veit hvað koma kunni næst, er enn að miklu leyti hugsjón Þjóðverja. Forfeður vorir kölluðu konung **gram**, sökum þess sjálfsagt, að fullir gremju hafa þeir oft og tíðum verið, og grimmir um leið. En svo var líka konungur nefndur **mildingur**, oft vegna örlætis, en einkum sakir mildi og mannúðar. Sú hugmynd um manninn hefir sezt að á Englandi. Þeir mannkostir, sem gerðu manninn að mildingi með forfeðrum vorum, einkenna þann, sem Englendingar nefna **gentleman.** Að vera mildur og **gentle** er eitt og hið sama—ljúfmenni.

"Nokurum árum áður en stríðið brauzt út, átti Þjóðverji tal við danskan mann suður í Rómaborg um Englendinga. Þjóðverjinn, sem var góður, gamall læknir, var uppblásinn af gremju: "Það er einkennilegt, að það er eitt orð, sem einungis er unt að segja á ensku; það er **húmbúgg.**" Danski maðurinn svaraði. "Það getur verið. En það er nú samt líka annað orð, sem einungis er unt að segja á ensku: Það er **gentleman.**"*) Hugmynd Englendinga um manninn kemur fram í orðinu **gentleman.** Það er mildin, sem á að einkenna sannan mann, ekki gremjan né harkan. Enlendingar eru hægir menn

---

*) Ammundsen: Krig, bls. 200.

og stiltir í allri framkomu, og yfirlætislausir. Þeir eru fremur fálátir, tala ekki hátt, forðast allan hávaða. Þeir eiga annað orð, er þeir vilja bera konu vel söguna, og segja að hún sé **ladylike.** Beztu kostir manns og konu felast í þessum einkunnum eftir hugmyndum Englendinga. Aðrar þjóðir eiga naumast nokkur einkunnarorð, sem jafngilda þessum. Bæði hugtökin benda aðallega til hins innra manngildis. Þau sýna, að hugmyndin um sannan mann er björt og göfug með Englendingum. Hún blikar í huga karla og kvenna í daglegri hegðan.

Englendingum er óljúft að vera háðir stöðugu eftirliti og löggæzlu. Þeir vilja hafa sem minsta stjórn, en ekki sem mesta. Mörgum Englendingi er það áhugamál, að komast út í einhverja nýlendu eða óbygðir, til þess að vera laus við lög og reglur. Þeir una hag sínum bezt fyrir utan landslög og rétt.*) Hver einstaklingur á að vera sjálffær og sjálfstæður. Stjórnin á að búa í brjósti hvers einstaklings, en ekki að koma sem valdboð að utan og ofan. Fyrir því eru lýðveldis-hugmyndirnar komnar lang-lengst með enskum þjóðum. Þeim óar við stjórnarhugmyndum Þjóðverja, þar sem ekki er unt að hreyfa sig þvers fótar, nema með leyfi lögreglunnar. Eigi þarf neinn að furða, þó sagt verði eftir þetta stríð, þegar farið verður að rekja þess huldu rök, að það hafi verið stjórnarskipulagshugmyndirnar þýzku og ensku, sem baráttuna háðu. Fyrir því er hvað eftir annað tekið fram í enskum tímaritum, "að sigur Þjóðverjum til handa myndi fyr eða síðar hafa í för með sér dauða lýðveldishug-

---

*) Sbr. The Secret of English Character eftir **Cuthbert Spurling, Contemporary Review**, nóv. 1916.

myndanna í Norðurálfu."*) Sökum þess bíta Englendingar saman tönnum og segja: Við berjumst meðan auðið er. Þeir berjast með líku hugarfari og Rómverjar, þegar Hannibal sat um höfuðborg þeirra. Þá settu Rómverjar landið, þar sem her Kartagó-manna hafði herbúðir sínar, á opinbert uppboð, svo öllum mætti skiljast, að það skyldi ekki ganga þeim úr greipum. Enda er þrautseigja Englendinga dæmafá. Ítölsk blöð hafa að sögn hvað eftir annað tekið fram: "England ber sigur úr býtum einungis í einum bardaga, og það er sá síðasti."**) Þjóðverjar eru vondir yfir, að Englendingar tali um stríðið eins og einhvern leik eða sport, en taki það ekki jafn-alvarlega og Þjóðverjar. Viðureigninni líkja Englendingar við nábúakrit. Nágrannarnir eru Hans og Jón. Jóni kemur ekki sem bezt saman við konuna sína (Írland). Þau eiga í stöðugu þjarki og gera stundum allmikla háreysti. Þá leggur Hans eyrað við. Hann vill vita, hvað nágranna-pakkið er að segja. Hann er argur yfir því, hve Jón er ríkur. Hann hafi alt, en eigi ekkert skilið. Hans hafi ekkert, en eigi alt skilið; hann sé svo mikill dánumaður. Þegar háreystin er sem mest og orðasennan hvössust, þýtur Hans af stað og ætlar sér að sæta lagi og ná í reyturnar. En hann kemst aldrei lengra en á þröskuldinn. Alt í einu er alt dottið í dúnalogn og þau hjón orðin alsátt, kerling farin að hjálpa karli sínum og synirnir koma hlaupandi úr öllum áttum, svo Hans verður að hverfa heim aftur við svo búið og unir ver hag sínum eftir en áður. Jón er eins og fyrirhyggjulítill 17 ára drengur, sem ekki fæst til að lifa samkvæmt eilífum útreikningi.

---

*) Sir Joseph Campton-Rickett, M.P., The War, Today and To-morrow. Contemp. Rev. des. 1915, bls. 683.

**) England wins one battle only, and that is the last. Cont. Rev., 1916, bls. 630.

Hans er maður kominn á fertugs aldur og þungur af holdum. Þeir fara í kapphlaup og Hans þeytir út úr sér mesta fári af kokhljóðum og segist víst skula verða á undan þessum strák. En Jón hlær og segir: Þú verður sprunginn um það, Hans.*)

Eitt af lundareinkennum Engendinga er **lotningin (reverence).** Þeir hafa flestum dýpri lotningu fyrir gömlum siðvenjum og gamalli reynslu og gömlum formálum. En oft leyfa þeir sér að hafa formálann yfir í öðrum skilningi en forfeður þeirra. Ef til vill er það þess vegna, sem þeim er svo oft brugðið um hræsni. Þeir bera mikla lotningu fyrir konungi sínum, en hún er alls annars eðlis en keisara-dýrkanin þýzka. Á fundum og þingum bera þeir ávalt mikla lotningu fyrir þeim, sem situr í forsetastól. Slíkt forsæti skipar konungurinn. Hann er "in the chair."**) Konungurinn er gamall formáli frá einveldistímum, sem blásið hefir verið í lýðveldis-hugmyndum. Sökum þessarar miklu lotningar fyrir hinu liðna, eru þeir feikilega íhaldssamir. Þeir vilja finna hendur liðna tímans halda um sig, hvert sem þeir fara.

Um leið og lotningin einkennir lund þeirra, verður hagsýninnar vart. Sú tegund skynseminnar, sem þeir láta sér annast um og hafa í mestum hávegum, er heilbrigð skynsemi—**common sense.** Og heilbrigð skynsemi er umfram alt í huga Englendingsins "þau hyggindi, sem í hag koma." Hann kærir sig ekkert um, að vera neinn skýjaglópur, en hefir miku fremur skömm á því. Lífið og tilveran er honum ekki svo sérlega hulin ráðgáta, heldur fólgið í dugnaði og starfsemi. Hann er féglöggur

*) The Secret of English Character.

**) Sbr. Ammundsen: Krig og krigsförende, bls. 100.

og fésæll, en aldrei nirfill. Hann safnar eigi auðlegð til þess að hrúga saman aurum, heldur til þess að afla sér áhrifa á gang hlutanna. Oft og einatt ber þessi hagsýni aðra kosti ofurliði og verður einvalda. Hún gægist þá gegn um lotningu og ráðvendni, sem þá verður yfirskin eitt, og þá getur orðið **húmbúg** átt við. En lotningin og samvizkusemin er miklu oftar ofan á. Hún stendur í sambandi við hið dýpsta í eðli Englendingsins,—trúræknina. Þrátt fyrir alt þrýstir trúræknin hvergi eins innsigli sínu á þjóðháttu og með Engelndingum. Og sá, sem hyggur, að hann hafi fundið lykilinn að þessum leyndardómi í hræsninni einni, er afarlangt frá að hafa skilið ensku-mælandi þjóðir rétt. Yfirleitt er enskt fólk, hvort heldur á Englandi eða í Ameríku, trúhneigt og trúrækið fólk. Það er vegna lotningarinnar fyrir hinu liðna og lotningar fyrir röddu samvizkunnar. Hvergi hafa friðarhugmyndirnar náð traustari tökum á huga fólksins, en á Englandi og í Ameríku. Hvergi eru eins margir, sem trúa því statt og stöðugt, að sá tími komi, að stríð hætti. Á því er Lloyd George, en segir: "Að ætla sér að koma hugsjónunum í verklega framkvæmd of snemma, er að tefja fyrir sigri þeirra."*) — Sá göfugi stjórnmálamaður, sem af mörgum er álitinn sannur arftaki Gladstone's, heldur því fram, að laugardaginn 1. ágúst, þegar ófriðurinn á meginlandinu hafði brotist út, mundu 99 af hundraði hafa greitt atkvæði gegn hluttöku í honum, ef almenn atkvæðagreiðsla hefði farið fram á Englandi. En ef sama mál hefði verið borið undur atkvæðagreiðslu þjóðarinnar 4. ágúst, mundu 95

---

*) Through Terror to Triumph, 1915, bls. 50.

af hundraði hafa greitt atkvæði með að leggja út í ófriðinn. Þá var Belgía komin til sögunnar.*) Þá hafði Bethmann-Hollweg talað sitt ógætilega orð um þjóðasamninginn við Belgíu og kallað pappírssnepil. Á þeim pappírssnepli vissi þjóðin, að nafn Englands stóð, og nú var annaðhvort að svíkjast um að vera **gentleman**,—eða vera það, hvað sem kostaði. Og naumast sýndist þjóðin nokkurt augnablik í efa. En um leið verður þess að gæta, að heilbrigða skynsemin (**common sense**) hvíslaði um leið: Það er hagsmuna og velferðarmál fyrir England ekki síður en hitt, hve sjálfsagt það er að standa við orð sín.

Einn af allra helztu guðfræðingum Englands, William Sanday, prófessor í Oxford, sagði: "Aldrei hefi eg fundið til annars eins metnaðar — aldrei hefði eg trúað, að eg gæti orðið eins þóttafullur þjóðar minnar vegna, eins og eg var fyrstu vikuna eftir að hún var komin í stríðið. Mér fanst hún svo göfug: Stjórnmálamennirnir göfugir, parlamentið göfugt; hluttaka hennar í ófriðnum göfug, blaðamenskan göfug, fólk hennar göfugt."**)

3.

**Belgía** er lítið land og hefir eðlilega fremur lítið á henni borið þarna inn á milli stórveldanna. Síðasta áratug hefir **Maeterlinck** gert hana fræga. En nú hafa þessir síðustu viðburðir mannkynssögunnar breitt frægðarljóma yfir landið og þjóðina, er seint mun dvína. Hún hefir fórnað sér fyrir frelsið og mannréttindin: "Eg hefi öllu glatað, nema eigin sálu minni," er haft eftir Alberti konungi. Við vonum, að Belgía hafi bjargað sál Norðurálfunnar frá glötun, með ógleymanlegri fórn sinni.

---

*) Through Terror to Triumph, 1915, bls. 62.

**) Eftir Ammundsen: Krig, bls. 233.

Þjóðerni Belganna er í molum. Þjóðin mælir á tvær tungur. Í norður-Belgíu er að mestu leyti töluð flæmska. Í suður-Belgíu eru mállýzkur Vallúnanna tungumál fólksins; þær eru skyldar mállýzkunum á suður-Frakklandi og frakknesk tunga sameiginlegt mál. Annars er skiftingin ekki eftir héruðum, nema að nokkuru leyti. Fólk, sem talar þessum ólíku tungum, býr alt hvað innan um annað og hefir búið öldum saman. Margir einstaklingar tala báðum tungum nokkurn veginn jafn-liðugt.

Að eðlisfari eru Belgar fremur þunglamalegir. Þeir eru seinmæltir menn, en furðu sjálfstæðir í skoðunum og lífsstefnu. Staðfesta og kjarkur einkennir hugarstefnu þeirra, og mikið af heilbrigðri skynsemi. Þeir þykja seinir að ráða ráðum sínum og hræddir við að ráðast í það, sem þeir eru ekki búnir að þaulhugsa. Dugnaðar- og atorkumenn þykja þeir með afbrigðum, og gefast ekki upp þó illa gangi. Fremur hafa þeir ímugust á öllu drottinvaldi og engum hefir tekist að láta þá hlýða lögum, er þeir hafa eigi sjálfir samþykt. Mikla lotningu hafa þeir fyrir löglegum réttindum. Þeir verða æfir, þegar brotin eru lög á þeim, hver sem í hlut á. Harðstjórn þola þeir flestum lakar. Þeir vilja fá að ráða sér sjálfir. Félagsskapur þykir góður með þeim. Þegar þeir ganga í félag til einhverra framkvæmda, svíkja þeir þann félagsskap sjaldan, en reynast honum trúir á hverju sem gengur.

Háskóla þeirra í Löven hefir lengi þótt mikið til koma. Hann hefir verið til síðan á 15. öld. Árið 1798 var hann afnuminn, er Frakkar óðu yfir landið. En árið 1835 var hann aftur settur á stofn, sem frjáls háskóli. En síðan hefir hann verið sviftur öllum tekjulindum sínum, er hann áður var svo auð-

ugur af. Löven-bærinn hefir aldrei skilað honum aftur miklu af þeirri landspildu, er hann áður fekk að nota. Tekjur sínar hefir hann orðið að fá frá örlátum vinum, sem hafa haldið honum við lýði. Samt sem áður hefir honum tekist að fylla tölu hinna helztu háskóla Norðurálfu. Þegar ófriðurinn skall á og brotist var inn yfir landið, voru þar ekki færri en 3,000 nemendur og 125 kennarar.*)

Flokkadrættir allmiklir hafa átt sér stað með þjóðinni. Er það ekki furða, þar sem þjóðernið er svo sundurleitt. Og flokkarnir hafa legið í löngum og þrálátum deilum. Þegar er stríðið skall á, voru æsingar miklar í landinu og kosningar fyrir hendi. En er þeir sáu, að Þjóðverjar ætluðu sér að troða landið undir fót, rann þjóðin saman í eina órjúfanlega heild á fám klukkustundum, og margir spá, að ef þeir lifi af hörmungar stríðsins, muni sú eining haldast.

Katólskir í trú, en frjálslyndir í stjórnmálum hafa Belgar lengi verið. Ávalt hefir þjóðin risið upp eins og einn maður, þegar átt hefir að svifta hana frelsi og sjálfstæði. "Hin skelfilegu harmkvæli, sem þetta fagra land verður að líða, þegar þessi orð eru rituð, eiga fordæmi, að því skelfingarnar snertir, á voðatímum Alva hertoga."**) Síðan árið 1830 hafa Belgar stjórnarskrá, sem viðurkennir samvizkufrelsi, prentfrelsi kenningarfrelsi og frelsi til að mynda alls konar félagssakp. Háskólinn í Löven hefir lengi verið helzti frelsisvörður þjóðarinnar. Hann var grundvallaður á kenningarfrelsi og hefir haldið frelsishumyndunum sívakandi í huga hinna ungu námsmanna. Þrír aðrir

*) Abbé Noel: The Soul of Belgium. Hibbert Journal jan. 1915, bls. 238.

**) The Glory of Belgium, with Illustrations in Colour, by W. L. Bruckman. London, 1916 ,bls. 12.

háskólar hafa myndast við hlið háskólans í Löven: Háskólinn í Brussel og ríkis háskólarnir í Ghent og og Liége. Þeir hafa kepst hver við annan í rannsóknum og vísinda iðkunum. En háskólinn í Löven einlægt borið ægishjálm yfir.

Síðan 1830 hefir Belgía ávalt verið hlutlaust land og stórveldin staðið í ábyrgð fyrir hlutleysi þjóðarinnar með hátíðlega undirrituðum samningum. Belgar hafa verið varkárir mjög allan þennan tíma með að skifta kærleikum sínum sem jafnast með nágrannaþjóðunum og aldrei átt þátt í deilum þeirra. En áður þjóðin vissi af var hún nú komi inn í heimsófrið þennan til að halda uppi vörn fyrir rétti og sjálfstæði. Nú liggur landið laugað blóði og nú er verið að flytja fólkið unnvörpum burt úr landi og hneppa það í ánauð. Tuttugu sinnum áður hefir Belgía verið orustuvöllur Norðurálfunnar í mannkynssögunni. Tuttugu sinnum hefir Belgía endurreist borgir sínar og safnað nýjum auði. Skyldi henni ekki hepnast það enn? Skyldi ekki sál þjóðanna vera dauðleg eins og sálir einstaklinganna? Skyldi ekki heimurinn hvíla í svo réttlátum höndum, að sú þjóð, er saklaus hefir orðið að líða aðrar eins hörmungar, fái uppreisn mála sinna?

4.

**Frakkland** er um fram alt land fegurðarvits, smekkvísi og fágaðra siða. Fjör og fimi, andleg og líkamleg, hvílir yfir öllum stéttum þjóðarinnar. Frakkar eru allra manna háttprúðastir í umgengni, fullir samúðar og göfugrar nærgætni. Háttprýði þeirra í því einkum fólgin, hve undur þeir eru blátt áfram. Sérstaka náðargáfu virðast þeir hafa til að koma auga á kjarnann í hverjum hlut og viðfangsefni og sýna öðrum. Þeir hugsa öllum öðrum þjóð-

um ljósara og skarplegar. Lengi hefir það verið sagt, að til þess þýzk hugsan geti orðið heiminum skiljanleg og að fullum notum, verði hún fyrst að fara gegn um heila hinnar frönsku þjóðar. En á síðustu tímum hafa Þjóðverjar tekið feiknamiklum framförum í því að gera sig skiljanlega, eins og öðru. Stílfimi Frakka eignast þeir þó seint. Þessi skýrleiks gáfa í hugsan og máli kemur þeim að góðu haldi, þegar leysa skal úr ráðgátum og vandamálum. Frakland er land hinna óvæntu úrlausna. Aldrei er unt að vita, hvað þar kann að verða uppi á tening.

Hið spriklanda æskufjör þjóðarinnar, sem er ofarlega í fari hennar, snýst oft í léttúð. Og léttúðin hefir ósjaldan orðið ofan á á alvarlegustu tímamótum í sögu hennar. Með léttúð lögðu þeir út í ófriðinn við Þjóðverja 1870 og hrópuðu í barnslegum gáska: **á Berlin,** — til Berlínar. Á örfáum vikum var hersveitum þeirra sundrað eða þær teknar til fanga. Járnveggur þýzkra herdeilda umkringdi París. Þá steypti þjóðin sér mitt í örvæntingunni út í stjórnarbylting og sópaði keisaradæminu burt eins og sorpi. Mitt í mótlætinu hló þjóðin að hrakförum sínum. Þegar **Bazaine** gafst upp, var dregið dár að því á búlevörðunum og sagt: "Bazaine er þá loksins búinn að ná saman við **McMahon!**"*) Oft hafa þeir verið fífldjarfir. Stundum hefir það orðið til falls, stundum til sigurs.

Í sambandi við þessa léttúð standa eflaust ýms afturfararmerki, sem mönnum hafa fundist augljós í lífi hinnar frönsku þjóðar í síðustu tíð, og þeir hafa allir harmað, er ant láta sér um velferð hennar. Í stjórnmálum hefir hún verið reikul í

---

*) Bazaine a infin operé sá jonction avec Mac Mahoni— Sbr. A. G. Gardiner: War Lords, 1915, bls. 107.

ráði. Því miður hefir hvert hneykslið rekið annað í opinberu lífi hennar. Alla rekur minni til Panama-hneykslisins, Dreyfus-deilanna og **Caillaux**-málsins, hið síðasta tiltölulega skömmu fyrir þetta stríð. Áfengis-nautn voða-mikil. Fæðingar svo fáar, að fólksfjölgun hefir verið lítil. Sökum þess hefir þjóðin fundið sárt til þess, að henni væri um megn að halda í við keppinauta sína, einkum Þýzkaland. Árið 1870 voru Þjóðverjar 40 miljónir, en Frakkar 38; þegar Elsass og Lotringen er talið frá: 36 og hálf. Árið 1815 höfðu Fakkar 22 af hundraði af fólksfjölda allra stórveldanna sex. Nú hafa þeir að eins 10 af hundraði.*) Heilbrigði þjóðarinnar er augsýnilega í hættu, af því hún lætur nautn og fjárhag sitja í fyrirrúmi fyrir að bera þær byrðar, sem manneðlið sjálft heimtar að sé bornar. Vitaskuld nær þetta ekki til þjóðarinnar allrar. Miðstéttirnar eru orðlagðar fyrir dugnað og sparsemi, og það eru þær, er gert hafa Frakkland að einu allra auðugasta peningalandi Norðurálfunnar.

En á hinn bóginn hafa ný heilbrigði-einkenni komið fram með þjóðinni í síðustu tíð. Má einkum benda á heimspekina frönsku, sem haft hefir víðtæk áhrif á hugsunarháttinn á Frakklandi og um allan hinn mentaða heim. **Bergson,** sem fyrir nokkurum árum er orðinn heimsfrægur maður, sýnir fram á, hvernig menn og þjóðir komist inn í lífsveruleikans mikla straum með atorku og verklegum framkvæmdum. Með lífsskoðan hans er heilbrigðismót með afbrigðum. Við hlið hans stendur annar heimspekingur, **Boutroux,** með álíka heilbrigðar hugmyndir um lífið, og sameinar þær frjálslyndri katólskri trú. Um þessa heimspeki farast víðsýn-

---

*) Foi et Vie, nr. 17, 1915, bls. 221. Sbr. For Kirke og Kultur, 1916, bls. 104.

um guðfræðingi einum á Norðurlöndum (**Söderblom**) svo orð: "Ef við leitum í nútíðinni að kristilegri heimspeki.....hugsan, sem náð hefir hámarki nútímans, tekur fullkomið tillit til hinna siðferðilegu og andlegu úrlausnarefna, sem kristindómurinn fjallar um, ef spurt er, hvar slíkt hugsunarstarf sé unnið með afli og nákvæmni, með alls konar fjölbreytni, af sjálfstæðum djúphyggjumönnum, þá getur enginn efast um svarið: Það er í þeirri borg, sem hin opinbera þýzka mótmælendatrú nefnir Babýlon og sjálf kallar sig ljósborgina, París."*) Það er heimspeki nýrra frelsishugmynda, sem þeir flytja Bergson og Boutroux, og leitt hefir nútíðarkynslóðina út úr kvíum ákvæðiskenninga og efnishyggju.

Svo skellur stríðið á með öllum ógnunum þess. Dag eftir dag færist voðinn nær og nær París. Yfir stórfljótin Meuse og Sambre var vaðið eins og ekkert væri. Vígin miklu við landamærin urðu að engu. Öldur hersveitanna þýzku runnu yfir landið án þess að unt væri að stöðva. Þjóðin hafði trúað á herinn og trúað á virkin og vonað að alt myndi ganga vel. Nú sér hún, að ekkert ætlar að duga og um lífið sjálft er að tefla. Skothríðin heyrist til Parísar. Úlanarnir þýzku sjást í skógunum fyrir norðan borgina. Loftförin eru alls staðar á sveimi. Stjórnin verður að flýja úr höfuðborginni. Þá hverfur léttúðin með öllu. Aldrei hefir hún eins horfið áður, þegar líkt hefir verið ástatt. "Nú eru Frakkar alvarlegasta þjóð Norðurálfu."**) Nýr sjálfsfórnar og sjálfsafneitunarandi hefir risið upp með þjóðinni. Á þessari skelfilegu hættustund er

---

*) Ammundsen: Krig, bls. 144.

**) A. G. Gardiner: The War Lords, bls. 108.

eins og hún hafi endurfæðst og fundið sjálfa sig. Nú dáist allur heimurinn að Frökkum fyrir það þrekvirki og þann dæmalausa viljakraft, er þeir sýna. Allar leggja þjóðirnar, sem við stríðið eru riðnar, feikna-mikið á sig. En engin þeirra leggur annað eins í sölur og Frakkland. Um Frakkland er nú talað sem frelsara Norðurálfu. Lotningin fyrir Frökkum er nú meiri en nokkuru sinni áður.

Alt yfirlæti er horfið á svipstundu. Að þola og líða og leggja alt í sölur, fórna öllu, sem fórnað verður, til að frelsa ættjörðina frá voðanum. Það verður upp frá þessu ætlunarverkið. Nú er léttúðin horfin frá Frökkum yfir til Þýzkalands. Nú hefja Þjóðverjar þetta stríð með álíka léttúð og Frakkar 1870. Nú er það Þýzkaland, sem hrópar á **Paris**! Þögult bíður Frakkland úrslitanna, með fölva kinn ef til vill, en einbeittan vilja. Léttúðin er horfin. Þjóðarsálin frakkneska er vöknuð. Yfirlæti og ærsl hafa fluzt úr landi og eru komin til Þýzkalands. Þar ætlar nú alt af göflum að ganga yfir hverjum smásigri, eða út af því, að kafbátur kemst til Ameríku. Það er haft eftir **Hindenburg**, að sú hliðin vinni sigur í þessum hildarleik, þar sem sterkastar eru taugar. En ef fara skal eftir hávaða, stjórnlausu yfirlæti, vitstola sjálfsáliti og hamslausu óviti, sem gengur brjálsemi næst, þá hlýtur að vera meira en lítið af óstyrkum taugum á Þýzkalandi um þessar mundir, þrátt fyrir allar sigurvinningar. Engin þjóð hefir látið sér annað eins um munn fara og þeir. Um Englendinga tala þeir ávalt sem þjóðina "með Kains-merkið" á brá sér. Um Frakka sem guðlausa angurgapa—"skækjuna meðal þjóðanna". Um Rússland, sem þjóðina, er

"rétt sé að því komin að sogast niður foræði hjátrúarinnar." *)

Það er ekki neitt nýtt, að heyra talað um Frakka sem guðlausa þjóð. Oft kunna þeir að hafa gefið nokkurt tilefni til þess. Í baráttunni, sem ríkið hefir háð til að losast undan yfirráðum kirkjunnar, hefir fram komið mikið af þeirri offrekju, sem er ofarlega í fari þjóðarinnar. En Frakkar eru ekki eins trúlausir eins og þeir oft virðast. Til þess er manneðli þeirra of ríkmannlega úr garði gert af hálfu kærleiksríkrar forsjónar. Um leið og stríðið brauzt út og alvaran gagntók þjóðina, opnuðust uppsprettulindir trúarinnar og hljóðlausar bænir stigu yfir varir fjöldans. Katólska kirkjan tók þegar frá byrjan sterkan þátt í að vekja brennanda áhuga með þjóðinni fyrir verndan föðurlandsins. Hún hafði von um sigur og um viðreisn katólskrar kirkju upp úr þeim sigri. Hún leitaðist við af alefli að sannfæra hlutlausu löndin um, að þjóðin frakkneska væri höfð algerlega fyrir rangri sök, þegar staðhæft væri, að hún sé trúlaus þjóð. Trúboð katólskrar kirkju í heiðingjaheiminum er að langmestu leyti kostað frá Frakklandi. Og þar gerast **Lourdes**-kraftaverkin, sem fræg eru um heim allan. Stundum var svo langt gengið að sýna fram á, að stríð þetta væri í insta eðli trúarbragða stríð. Það væri þýzk mótmælenda trú, sem nú hefði sagt frakkneskri páfatrú stríð á hendur og ætlaði miskunnarlaust að ganga henni milli bols og höfuðs. Katólska kirkjan á Frakklandi hefir í stríði þessu með furðulegum fórnarfúsleik og kærleika viljað sannfæra þjóðina um, að án hennar má hún alls ekki vera.

*) Eftir Ammundsen: Krig, bls. 161.

Um leið og stríðið skall á voru herprestar settir alls staðar í frakkneska hernum og leystu hvarvetna verk sitt af hendi með hugrekki og samvizkusemi. Eru margar af hinum fegurstu sögum sagðar frá herstöðvunum af framkomu katólskra klerka.

Hins vegar stendur katólsk kirkja Frakklands ávalt í einhverju óheilla-sambandi við afturhaldið með þjóðinni. Kirkjuflokkurinn í stjórnmálum landsins tók að vona upp á nýtt, að stríðið myndi hafa fall lýðveldisins í för með sér. Herinn myndi verða ágætt og örugt vopn til að koma því til leiðar. Óvinir lýðveldisins vita, að gæti þeir náð hernum á sitt band og notað á sama hátt og keisarinn og junkararnir prússnesku, eru völdin um leið dregin úr höndum þingsins. Að Dreyfus-samsærinu var ljóstað upp, kom í veg fyrir fall lýðveldisins fyrir nærri tuttugu árum. Síðan hefir þeim tilraunum aldrei lint af hálfu klerkavaldsins, að leitast við að ná hernum á sitt vald, og mörg tákn hafa bent til þess, að þær tilraunir hafi hepnast býsna vel.

Það hefir verið sagt um Frakka, að síðan 1870-71 hafi hatrið til Þjóðverja étið sig inn í sál þeirra eins og banvænt átumein. Meira er eflaust úr því gert en rétt er. Frakkar voru jafnvel farnir að venja sig vio hugmyndina um, að Elsass og Lotringen fengi sem mesta sjálfstjórn undir forræði Þjóðverja. Og þegar um hatrið er talað, mætti minna á það, sem einn allra sanngjarnasti rithöfundur Frakka hefir sagt eftir að stríðið brauzt út: "Hatrið er óvinur minn miklu fremur en óvinir mínir."*)

Helzta einkennið á lund Frakka er drenglyndið, riddaraskapurinn, háttprýðin, glæsimenskan. Orðin frakknesku, sem fela í sér þessar þjóðareinkunnir

---

*) Romain Rolland. Eftir Eivind Breggrav Jensen: Krigsstudium. For Kirke Kultur, 1916, bls. 310.

og þjóðarhugsjónir, eru **la gloire** og **la grace.** Eitthvað af þessum mannkostum verður Frökkum samferða, hvar sem er og hvert sem viðfangsefnið kann að vera. Allar beztu lyndiseinkunnir þessarar göfugu þjóðar hafa risið við og birzt í hæsta veldi í þessu stríði. Frakkar eru nú sú þjóðin, sem langmestur ljómi stendur af fyrir hina afar-frækilegu vörn við Meuse og Verdun. Í voða og lífsháska, þegar neytt er allrar orku og um lífið er að tefla og það sem lífið gerir nokkurs virði, kemur það í ljós, sem með mönnum býr og þjóðum. Aldrei hafa menn skilið betur en nú, hvílík ógæfa það væri og ómetanlegt tjón, mönnunum í heild sinni, ef stigið væri þessari listfengu drengskapar-þjóð á háls, svo ekkert yrði eftir annað en skugginn. En einmitt þetta var hermdarverkið, sem átti að vinna. Í stað þess er nú þegar talað um Frakkland sem frelsara Norðurálfu. Bandaþjóðirnar krjúpa í lotningu og aðdáan berhöfðaðar kring um frakkneska fánann, — og með þeim allur hinn hlutlausi heimur.

5.

Miklir og örlagaþrungnir viðburðir þrýsta venjulega mikilmennum fram á sjónarsviðið. Þeir eru til á undan atburðunum. En þeir koma þá fyrst í ljós. Einn slíkra manna er yfirherforingi Frakka, **Joffre.** Hægur og seinfara smá-þokast hann fram á sjónarsviðið gegn um stormviðri og skruggur í stjórnmálaheiminum. Hann hafði verið maður, sem fáu gaf gaum nema stöðu sinni. Við stjórnmálum gaf hann sig ekki, en um það var kunnugt, að hann var eindreginn lýðveldissinni. Háa stöðu í hernum fekk hann fyrst, þegar André foringi hafði eytt klerkdóms-valdinu í hernum. 1911 var hann gerður höfðingi herráðsins, eftir að **Pau** foringi, sem er á bandi klerkavaldsins, var frá genginn. Það var ó-

umræðilega mikils vert, að eindreginn lýðveldisvinur var aðal-foringi frakkneska hersins, þegar stormurinn loks skall á.

Joffre er, eftir því sem honum er lýst, seinn hægfara, rólegur, yfirlætislaus, en einbeittur og ákveðinn og lætur ekkert aftra sér frá framkvæmdum þess, er hann álítur nauðsyn. Fimm herforingja svifti hann embættum, þegar hann komst að kunnáttuleysi þeirra í heræfingum, og voru þeir allir lýðveldissinnar. Urðu margir fokvondir og kendu áhrifum klerkavaldsins. En Joffre einum var um að kenna. Seinlætið er öllum hvumleitt, en meinlegt foringja, það sem hann sízt ætti að vera. En í sambandi við Joffre merkir það frábæra varasemi og fyrirhyggju. Sumum virðast þetta ókostir og víta hann fyrir. Öðrum virðast það kostir,—í fari hans að minsta kosti. Þegar fundið er að við hann, er haft eftir honum: "Látið þið mig vera. Eg er að narta í þá." *) Það orðtæki er frægt orðið. Í lund er hann alvörumaður mikill og gerir ekkert til að sýnast. Napóleon var sakaður um leikaraskap. Og með nútíðar kynslóð Frakklands og mentalandanna yfirleitt er leikaraskappurinn meira en lítið rótgróin synd. Henni er Joffre manna frábitnastur. Hann er fátalaður maður með afbrigðum; það er eðli hans. Hann fer aldrei með neitt rugl;. honum dettur aldrei neitt rugl í hug. Hann hugsar um stöðu sína algerlega frá sjónarmiði verkhygninnar. Frakkar hafa gaman af stríði, vegna æfintýranna. Prússar sökum þess, að hernaður er umsýsla í stórum stíl. Friðrik mikli hrósaði sér af að leggja út í hernað með 100 spæjara, um leið og óvinur hans lagði út á orustuvöllinn með 100 matgerðarsveina.

---

*) Laissez moi faire. Je les grignotte. Sbr. The War Lords, bls. 104.

En sízt af öllu þarf að bregða Napóleon um, að hann ekki kynni til þeirrar umsýslu. Og sá kunni að kveikja eldmóð með örfáum orðum.

Fáir foringjar hafa sjaldnar ávarpað her sinn en Joffre. Hann er ekki gefinn fyrir nein ræðuhöld. Það er sagt, að hann hafi gert það að eins eitt skifti. Það var þegar hann lét herinn frakkneska loks veita viðnám við Marne-fljótið. Sú ræða var blátt áfram og mælgislaus: "Þið verðið að vera undir það búnir að deyja, heldur en hörfa á bak aftur. Þrekleysi verður ekki þolað." Joffre er Napóleon eins ólíkur og mest má verða. Enda hefir nú margt breyzt síðan á dögum Napóleons, þó margt, sem hann lét gera í miklu smærri stíl og hafði sjálfur upp hugsað, eins og t.d. skotgrafirnar, sé hans herforingja hyggjuviti að þakka. Nú er ekki lengur unt að koma neinum á óvörum, sakir loftfaranna, þráðlausra skeyta og talsímans. Það er eigi unt að koma óvinum í opna skjöldu, eins og fyr á tímum. Nú er nær því óvinnanda verk, að koma fram nokkurum verulegum framkvæmdum á laun, nema annar herinn fái notað heilt járnbrautarnet að baki sér, sem lagt hefir verið beint í hernaðarskyni, eins og t.d. þýzki herinn á Póllandi. Englendingar reyndu að komast til Frakklands með djúphugsaðri launungar-viðleitni. En þeim tókst það ekki; Þjóðverjar voru komnir þangað jafnsnemma. Varnarvirki eru orðin ónýt, sakir feikna umbóta á skotvopnum. Aldrei hefir annar eins feikna herafli verið beggja megin. Fylkingarnar umspenna alla mið-Norðurálfu. Bardagavöllurinn við Waterloo er ekki stærri en svo, að ganga má yfir eina morgunstund í hægðum sínum. En sá sem ætlar að ganga um alt orustusvæðið á Frakklandi frá Vogesa-fjöllum til Yser, myndi verða margar

vikur á leiðinni. Við Waterloo lá bardagavöllurinn allur opinn fyrir framan Napóleon, þegar hann skipaði að leggja til orustu. Nú verður hugurinn að hvarfla yfir mörg hundruð mílur. Nú er foringinn ekki lengur sýnilega nálægur, til að skjóta hernum eldmóði í brjóst áður lagt er til orustu. En það er manns-hugur, sem starfar langar leiðir fyrir aftan herinn, með landabréf, talsíma, loftför og tæki til að senda þráðlaus skeyti. Sá, sem vera vill mikill herforingi nú á dögum, verður að færa sér öll þessi nýju skilyrði í nyt eins vel og honum er unt. Á því virðist Joffre hafa ágætt lag.

Það var jafnt á komið með þeim Joffre og Kitchener lávarði, að hermenskustörf þeirra hófust sama árið, 1870. Joffre var þá námspiltur að eins frá fjölfræðaskólanum í París. Hann tók þá þátt í vörninni, er Parísarorg var um setin af Þjóðverjum. Þeir miklu mótlætistímar hafa sett djúp mörk í lund þjóðarinnar. Í umbrotunum, sem nú eiga sér stað, koma þau eðlilega í ljós. Hvílíkur feiknamunur á háttalagi þjóðarinnar nú og þá. Þjóðin bar sig þá að í mörgu eins og kona, sem veik er af heilahviki. Nú ber ekki á neinum æsingi, né írafári. Nú ber þessi viðkvæma, æsingargjarna þjóð af öðrum í stillingu. Hún hefir eins og bitið saman tönnum og stendur með fölvan hlýr, til þess boðin og búin að verða lostin hverjum kinnhesti mótlætisins á fætur öðrum, í von um að lokum að vinna sigur og byrja nýtt líf. Þótt fagnað sé yfir einhverjum sigri á Frakklandi, ber mjög lítið á því. Engin fagnaðarlæti eiga sér stað. Aftur bendir hver höfundurinn á fætur öðrum á það, að háttalag fólks á Þýzkalandi beri allmikinn vott um óstyrkar taugar. Þar ætlar alt af göflum að ganga af kæti, hvað lítið sem gengur í vil. Þegar einn einasti kafbátur

kemst yfir Atlants-haf í kaupsýslu erindum, verða veizluhöld og fagnaðarærsl eins mikil og þó stríðið væri þegar unnið. Nú er það Þýzkaland, sem ber sig eins að eins og heilahviksveik kona. Um það ber svo margt ljósan vott. Með kveðjunni: "Guð hegni Englandi"*) heilsuðu menn hver öðrum, þegar í byrjan stríðsins á Þýzkalandi. Þess bera stríðsbókmentir Þjóðverja ljósan vott á öllum sviðum. Það er eins og þjóðarinnar beztu menn og vitrustu hafi tapað ráði og rænu. Hún virðist blinduð af barnalegu sjálfsáliti. Jafnvel prestarnir láta slíkt óskapa óvit út úr sér að firnum sætir í stólræðum sínum, eins og t.d.: "Réttlátri reiði þinni við England er Kristur ekki mótfallinn."**)

Ef til vill hefir Joffre hlegið léttúðarhlátri með Parísarbúum þenna rauna-vetur. Enginn kann frá að segja. En eitt er víst, og það er, að bæði hann og þjóðin í heild lærðu þá lexíu, sem nú kemur að góðu haldi. Nú er óláns-léttúðinni haldið í skefjum, eins og hefði hún brunnið í eldsvoða. Nú var það Þýzkaland, sem í ofsafengnu yfirlæti hrópaði á **Paris**. Engu líkara, en að þjóðirnar hafi skift hlutverkum í þessum ægilega hildarleik. Frakkland hefir fundið sálu sína.***)

Hvernig sem leikslok verða, er Joffre yfirherforingi skoðaður persónugerfing sigursins. Öllum kemur saman um, að með öllum þeim þjóðum, sem nú berast á banaspjótum, sé hugsjónir að fæðast á

*) Gott strafe England!

**) Deutscher Patriot, richt dich auf! Deinem gerechten Zorn gegen England steht Christus nicht entgegen. Theodor Birt. Was heisst "Liebet eure Feinde? Marburg, 1915. Eftir: J. P. Bang: The Root of the Matter. Hibbert Journal, okt. 1916, bls. 10.

***) The War Lords, bls. 108.

bak við hersveitirnar, nýjar vonir að springa út, ný dagrenning í aðsigi. En hver er kominn til að segja, hvað verður ofan á, hvaða kyndill það verður, sem sú nýja sólrás lætur bera á undan vagni sínum.

Gætinn, öruggur, jafn-ósnortinn af lofi og lasti, svona er maðurinn, sem nú virðist bera gæfu Frakklands í hendi sér, flestum fremur. Þrekleysið hefir hann ekki þolað hjá öðrum. Þreki og þrótti hefir maðurinn sjálfur safnað. Í byrjan beittu stjórnmálamennirnir hann alls konar brögðum. En hann tók þeim fyrir kverkar, sterkri hendi, unz hann varð einvaldur hersins. Hann lét herinn hörfa undan alla leið til Marne-fljótsins, án þess unt væri að bifa honum, hvað sem sagt var. Hann forðaðist misgripin frá 1870, að reiða sig á vígin og loka sig og herinn þar inni, en bar sig að eins og engin væri. Heldur kaus hann að láta alt norður-Frakkland troðast undir járnhæli óvinanna, heldur en að veita viðnám þar sem þeim kom bezt. Hann hörfaði undan, unz hans eigin stund og staður var kominn. Hann hefir í öllu fylgt uppteknum hætti, smám saman að eyða herafla óvinanna, bæði mönnum og búnaði, en forðast allar áhættu-hreyfingar, sem mörgum herforingja hafa komið á kaldan klaka. Stillingin yfirgefur hann aldrei; hann hefir ávalt jafn-mikið vald á sjálfum sér, er fjarsýnn með afbrigðum, og viljinn stáli sleginn. Herkænsku hans er viðbrugðið. Ávalt man hann, að Frakkar eru fámenn þjóð til móts við Þjóðverja. Sökum þess er viðleitnin ávalt sú, að fyrir hvern frakkneskan mann, sem fellur, verði tveir eða fleiri Þjóðverjar höfðunum styttri. Ósjaldan lætur Joffre gera þrjár atlögur í senn á þýzka herinn, og eru þá stundum 400 mílur á milli staðanna, sem barist er á syðst og nyrzt, og er þetta vitaskuld gert til þess Þjóðverjar skuli aldrei vita

fyrir fram, hvar aðal-atlagan á að verða.*) Allur heimur stóð furðu lostinn yfir hinni óviðjafnanlegu vörn Frakka við Verdun, þar sem Þjóðverjar reiddu til rots. Englendingar buðu að senda þangað herlið til hjálpar. Nei, sagði Joffre, þetta verðum við sjálfir að gera. Þar hrundi herlið Þjóðverja niður unnvörpum, eins og þegar gras fellur í múga fyrir sláttumanni á vel sprottnum velli. Og oft hefir Joffre orðið skeinuhættur endrarnær. Í bardaganum hjá **Les Eparges** á öskudag 1915 féllu svo margir, að Bæjaraland stóð alt á öndinni, eftir bréfum að dæma, sem fundist hafa á föngum.**) Engum er enn þá unt að skilja, hvað Joffre gekk til, að taka ekki bæinn St. Mehiel, þegar hann hafði raðað fallbyssunum miklu í mílu fjarlægð frá honum. Sú gáta verður aldrei ráðin, fyr en hann gefur þá úrlausn sjálfur. Ef til vill var tilgangurinn að gefa krónprinzinum þýzka, sem lengst tækifæri til að hamast við Verdun í þeirri von, að eitthvað kynni á að vinnast.

Og þessi maður var alls-óþektur að heita mátti áður stríðið hófst, að minsta kosti Parísarbúum. Sjálfsagt hafa þeir séð þennan þrekvaxna mann fara niður **Champs Elysées** í fylgd með tveim stjúpdætrum sínum, en allir haldið það vera heldri foringja, óþektan að nafni og tign. Ekkert orð hafði fallið af vörum hans, sem fleygt hafði orðið, engin saga hafði skapast um hann, sem menn hefði gaman af að segja, ekkert æfintýr, sem hægt var að hampa, hafði smíðast utan um hann. Og samt var það nú svo, að þessi beykissonur ofan úr Austur-Pýreneafjöllum hafði hafist til ábyrgðarmestu stöðunnar í

*) The Strategy of General Joffre. The Great War, lxxiii, 3. bindi, bls. 177.

**) Great War, III, 188.

mentuðum heimi. Þessi **Joseph Joffre**,—svo heitir hann fullu nafni—, sem lék feluleik innan um tunnurnar á verkstæði föður síns, þegar hann var lítill drengur, í sofandalega bæjarkrílinu **Rivesaltes**, hefir nú með höndum það feikna-ætlunarverk, að leitast við að bjarga öllu því, sem óþýzkir menn hafa í mestum hávegum og láta sér annast um. Svona furðulega fer forsjónin að ráði sínu. Hann var einn af ellefu systkinum, umkomulaus og án vina, svo langt frá París og því Frakklandi, sem þar birtist, að litlar líkur voru til að hann kæmi þar nokkuru sinni, því mállýzka hans var líkari máli Kataloníumanna á Spáni, hinum megin Pyrenea-fjalla. En brátt varð það ljóst, að hann hafði stærðfræði-gáfur með afbrigðum, og sökum þeirra fekk hann að tylla tá á neðsta þrep fjölfræðaskólans í París. Alla sína æfi hefir hann verið að klífa þann þrítuga hamar, unz hann er nú kominn upp á efsta þrepið, 63 ára gamall maður. Þegar dálítill drenghnokki varð hann fyrir það kunnur, að gefast aldrei upp við neitt, sem hann tók fyrir. Sú þrautseigja hefir komið honum að góðu haldi. Eitthvað á hann að hafa fengist við að yrkja, er hann var ungur. "Vonardraumar mínir og sú framtíðar sýn, sem eg elska mest, er að fá að líta skotmenn vora hefja hergöngu til Strassburg!" *) Þá framtíðar sýn æskudraumanna hefir hann nú fyrir sér.

Enginn glæsilegur atburður hefir komið fyrir á æfi hans. Að eins eitt skifti hafði hann verið í orustueldi og þá suður í Afríku, með litlum herflokk, að eins 400 manns, flest blökkumenn, og varð þá að fara 500 mílur gegn um eyðimörk og villilönd. Það er lítil æfing í að fara með miljónir manna.

---

*) The Saviour of Europe. A Character Study of Gen. Joffre.

Við manninn er ekkert glæsilegt, nema hvað hann er rumur vexti. Honum er stundum borið á brýn, að hann sé þunglamalegur og latur. Maðurinn er öllum þorranum þögul ráðgáta. Að eins fáir vita til hlítar, hve mikils virði maðurinn er inni fyrir. Heilbrigð skynsemi, róleg dómgreind, verklegt snilli, vísindaleg vissa, og óbifandi staðfesta, eru mannkostirnir, sem virðast gera hann að þeim afbúrðamanni, er hann hefir reynst.

Væri þessi helzti foringi bandaþjóðanna á annan veg en hann er, er óvíst hvort Kipling hefði nokkuru sinni látið sér þá frægu þversögn um munn fara: "Þjóðverjar munu vinna alla sigrana,—en bandaþjóðirnar munu vinna stríðið!"

Undir þann fáránlega spádóm mun mestur hluti mentaðs heims utan miðveldanna taka þann dag í dag, — að efni til, — hlutlausu þjóðirnar ekki sízt.

---

Nú hefir Joffre látið af yfirstjórn frakkneska hersins, en **Nivelle**, hetjan frá Verdun, tekið við. Flytja blöðin þá fregn, að gera eigi Joffre að marskálk Frakklands, sem er æðsta tign, er unt er að hefja herforingja til, og eiginlega lögð niður, og verður að endurreisa hana með nýjum lögum.

# Nýkvænti maðurinn.

*(Æfintýr eftir J. Magnús Bjarnason.)*

Einu sinni var ungur maður, sem var nýkvæntur. Hann gekk aldrei út á kvöldin eftir að hann kom heim frá vinnunni, og sat aldrei á "klúbbum" og í drykkjustofum, eins og nágrannar hans. Og hann fór heldur aldrei til kirkju á sunnudögum, en það gjörðu þeir.

Einhverju sinni kom presturinn til að húsvitja þar í nágrenninu.

"Hann nábúi ykkar, hinn nýkvænti, kvað vera útsláttarlaus og elskur að heimili sínu," sagði presturinn við nágranna hins unga manns, "og það svo mjög, að hann jafnvel sækir ekki kirkju á helgum dögum.—Hvað skyldi koma til þess?"

"Hann er hræddur um konuna," sögðu nágrannarnir.

"Sorglegt er það," sagði presturinn, "því afbrýðisemin er sá sjúkdómur, sem ilt er að lækna."

Hinn ungi maður frétti þetta. Hann fór að slá slöku við heimilið og kom seint heim á kvöldin, og gekk út sér til afþreyingar á sunnudögum.

Og presturinn kom aftur til að húsvitja þar í nágrenninu.

"Eg hefi frétt, að hann nábúi ykkar hafi tekið sinnaskiftum mjög snögglega," sagði presturinn við nágranna hins unga, nýkvænta manns; "og mér er

sagt að hann sé hættur að vera hræddur um konuna. Og hvað kemur til?"

Hann hefir fengið brennandi ást á annari konu," sögðu nágrannarnir; "og nú unir hann hvergi nema hjá henni."

"Það er hörmulegt," sagði presturinn, "því sá kvilli læknast ekki, nema með föstum og bænahaldi."

Hinn ungi maður fór að sækja kirkju alla helga daga.

"Nú sést það," sögðu nágrannar hans, "hvort hann var ekki sekur, því nú er hann farinn að sækja kirkju til þess að friða samvizkuna."

"Alt af versnar það!" sagði hinn ungi maður við sjálfan sig. "Og nú er ekki nema um tvent að velja:—annað hvort að flytjast burtu til fjarlægra landa, eða þá —."

Hann valdi hið síðara.

Og nágrannar hans grófu hann utangarðs, og settu tvo trékrossa á leiðið hans, annan til höfða, en hinn til fóta.

"Sá dauði hefir sinn dóm með sér," sögðu nágrannarnir og sugu upp í nefin.





# Safn til Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

## VATNABYGÐIR.

*Eftir FRIÐRIK GUÐMUNDSSON.*

Árið 1891, snemma um sumarið, fóru bændur tveir úr Þingvallanýlendu, Ingimundur Eiríksson og Kristján Helgason, fyrstir allra íslendinga í landaleit vestur að vötnunum Foam Lake og Fishing Lake. Fóru þeir keyrandi á hestum hér um bil 115 mílur vegar. Leizt þeim þar svo vel á sig, að þeir komu sigri hrósandi heim aftur til Þingvalla.

Lýsing þeirra á landinu vestur við vötnin hreif svo hugi nágranna þeirra, að seinna á sama sumri fluttu nokkrir þeirra alfarnir þangað vestur. Var Ingimundur fyrirrennari flokks þess, en það voru bændurnir Gísli Bíldfell, Bjarni Jasonson, Sveinn Halldórsson og Stefán ólafsson. Á þeim árum var C.P.R. járnbrautin, eða Manitoba Northwest, sem hún þá var kölluð, ekki komin lengra vestur en til

Yoıkton, svo það svaraði ekki fyrirhöfn og kostnaði að fara með henni það lítið áleiðis. Fluttu því bændur þessir sig á sínum eigin vinnudýrum, og gekk ferðin vel.

Á fleiri tugum mílna í allar áttir út frá heimkynnum þessara frumbyggja, sást varla hvítur maður. Hér voru þeir einir fyrir ríkjandi, sem kváðu ekki á um kosti landsins, svo sem Indíánar og allskonar dýr merkurinnar.

Þessir fyrstu landnámsmenn settust að við Fishing Lake, hver þeirra þar, sem honum leizt bezt á sig. Höfðu þeir nægan skóg til bygginga og eldiviðar, góðan haga og engi fyrir gripi sína. Fisk höfðu þeir úr vatninu og fugla og dýr á allar hliðar til réttafjölda.

Bjartar og hlýjar framtíðarvonir fyltu hugi þeirra og hjörtu, sem léttu þeim alla verklega viðleitni, og stíluðu fréttirnar til þeirra eldri heimkynna.

Það var líka fljótt og fremur öllum vonum, að þessum framtakssömu mönnum græddist fé og góðir nágrannar. Þó fór innflutningur Íslendinga fremur hægt fyrstu árin. Járnbrautin náði mörg ár ekki nema til Yorkton, en þaðan voru 80 mílur á tilkosnu stöðvarnar. Það var því ervitt að flytja búslóð og nauðþurftir alla þá leið.

Strax í upphafi sögu minnar hlýtur að geta þess manns, þó seinna verði frekar á hann minst, sem mest og bezt vann að landnámi hér, og var af Canadastjórn skipaður leiðsögumaður innflytjenda, hverrar þjóðar sem voru, en það er Tómas Pálsson.

Í desember 1898 flutti Tómas alfarinn á land sitt á vesturbakka Foam Lake, þar sem hann býr enn í dag. Fljótlega kynti hann sér legu og afstöðu landsins og fékk álit og trú á þessum stöðv-

um. Í byrjun ásetti hann sér að reyna að hafa áhrif á það, að samlandar hverrar þjóðar sem væri, gætu fengið afskekt svæði fyrir sig og þyrftu ekki að blandast hver innan um annan—að minsta kosti allir þeir, sem kysu það fremur. Enda varð og þessari hugmynd að miklu leyti náð.

Það mun sönnu næst, að telja landnámsár þessarar bygðar tímabilið frá 1891—1908, eða 17 ár. Eftir þann tíma var að vísu hægt að ná hér í heimilisréttarlönd, sem þá voru annað tveggja, mjög lítils virði eða þá að þau höfðu verið gefin inn aftur fyrir einhverja orsök, af mönnum, sem áður höfðu tekið þau.

Vatnabygðin er eflaust stærsta íslenzka bygðin, sem enn hefir verið stofnuð í Ameríku. Frá austri til vesturs er hún 48 mílna löng, frá Range 10-19 vestur af öðrum hádegisbaug. Frá suðri til norðurs er hún misjafnlega breið, frá 12—24 mílur, eða frá Township 29-34. Eftir þeim nákvæmustu upplýsingum, sem eg hefi getað aflað mér, mun hún liggja 1810 fet yfir sjávarflöt, eða rúmum 800 fetum hærra en Hólsfjöll og efstu bæir á Jöuldal á Íslandi.

Sá hluti nýlendu þessarar, sem að miklum meiri hluta er skipaður íslenzkum landnemum, mun vera til jafnaðar 10 mílur á breidd og 48 mílur á lengd, eða 480 ferhyrningsmílur.

Regluleg heimilisréttarlönd á þessu svæði eru 866. Þegar taldar eru allar ferhyrningsmílur (Sections) með jöfnum tölum, og að fráskildum Hudsons Bay löndum (Quarters). Fyrir nokkrum árum síðan gaf sambandsstjórnin heimilisrétt á talsvert mörgum oddalöndum (Section 1-3-5 o.s.frv.) á þessu sama svæði. Og hér fyrir utan hafa bygðarmenn keypt mörg járnbrautarlönd, eins og líka

lönd annara félaga og einstakra manna, sem áður höfðu keypt þau. Að öllu þessu yfirveguðu mun ekki of mikið í lagt, að telja 1200 ábúðarlönd á þessu 480 ferhyrningsmílna svæði.

Ef eg svo dreg ályktun af nágrenni mínu og þeim hluta bygðarinnar, sem eg þekki bezt til, þá þykir mér eigi ólíklegt, að tveir-þriðju hlutar ábúendanna séu íslendingar. Með öðrum orðum, að um 800 íslenzkir bændur byggi þessa nýlendu.

Æði mikið öruggari þori eg að tilfæra þessa tölu, þenna mjög svo álitlega bændaflokk, af því það kemur að mestu leyti heim við það, sem hinn athuguli eftirlitsmaður innflytjendanna, Tómas Pálsson, sagði mér, áður en eg fór að grenslast eftir ástæðum hér að lútandi.

Í íslenzkum landshagsskýrslum frá 1860 hafa tvær fjölbygðustu sýslurnar á íslandi, Árnessýsla og Þingeyjarsýsla, saman lagt 750 lögbýli. Það er ekki líklegt, að nokkur veruleg breyting sé orðin á því, til þessa tíma. Má af þessu sjá, að álíka mörg íslenzk heimili eru í þessari íslenzku nýlendu, eins og í tveimur hinum áminstu sýslum heima.

Ef eg hins vegar vildi gera grein fyrir, hvað margir landar eru hér alls, ungir og gamlir, þá er örðugt við það að eiga, því eigi hefir verið tekið hér manntal íslendinga, enn sem komið er.

Það hefir að vísu komið til orða, að prestar safnaðanna í þessari bygð, með aðstoð góðra manna, skrifuðu niður íslenzku heimilin, hver innan sinna takmarka, og fólksfjölda á hverju þeirra fyrir sig, og mun jafnvel talsvert vera byrjað á þessu, þó það sé ekki svo vel á veg komið, að það verði lagt hér til grundvallar.

Hins vegar er engri áreiðanegri tölu hægt að ná, nema margir telji og allir sama daginn, þar sem

menn eru stöðugt að fara og koma í atvinnuleit og verzlunarerindum.

Eg álít það sanni næst, að íslenzku heimilin séu til jafnaðar álíka mannmörg austast og vestast og hvar sem er þar á mili í bygð þessari. Eg hefi talið íslenzk heimili í þremur Townshippum hér, og fólk alt á þessum heimilum. Í einu Townshippi komu 4 menn á hvert heimili til jafnaðar. Í öðru komu 4⅔ manns til jafnaðar á hvert heimili. Í hinu þriðja komu 4¾ manns til jafnaðar á hvert heimili.

Þótt þetta sé engan veginn áreiðanlegur mælikvarði til að byggja fólkstal á, þá verður þó naumast hægt að fara nær sanni, meðan ekki er reglulega talið.

Ef eg því byggi á þessum grundvelli og geri ráð fyrir að 4½ maður komi til jafnaðar á hvert íslenzkt heimili í þessari bygð, þá ættu að vera um 3,600 heimilisfastir Íslendingar hér, fyrir utan alla þá verkamenn, sem hvarfla til og frá, og marga þá menn, sem í bæjunum búa, reka þar atvinnu, en hafa aldrei tekið hér land, eða búið úti í sveitinni. Mér þykir því mjög líklegt, að Íslendingar séu í raun og veru fleiri í þessari bygð, en eg hér geri ráð fyrir.

Þegar eg nú þannig hefi gengið frá manntalinu, þá verður mönnum líklega ósjálfrátt að hugsa sem svo: Hver er hvalur sá, er dregur menn á þessa fjöru? Og hvað hefir þetta mikla þjóðarbrot vort fyrir stafni?

Ekki þurftum vér að setja lög og rétt í landi voru, eins og þá forfeður vorir numdu Ísland forðum daga og byrjuðu þar að búa um sig fyrir framtíð sína og afkomendanna.

Undir vernd og veldi hinnar brezku krúnu gátu

menn strax ókvíðnir og áhyggjulausir lagt sig alla og óskifta að yfirdrotnun jarðarinnar og náttúrunnar auðæfa. Það var ekki um að villast, jarðvegurinn bar það með sér, að hann væri frjósamur. Það hlaut því að vera sameiginlegt áhugamál og kappsmál allra, að geta sem fyrst og mest unnið jarðveginn fyrir kornræktina.

Á flestöllum löndunum var talsverður skógur, björk og víðir, en þó víðast hvar meira og minna skóglausir flákar á milli, sem buðu sig fram til að byrja með, og var það vel þegið. Nokkur voru þau lönd að vísu, sem heita máttu skóglaus hornanna á milli, og voru þau sjálfsagðir kjörstaðir þeirra, sem fyrstir komu.

Á þessari landnámstíð var það dómgreind mannanna, fljótandi á bylgjum fégirni og meiri þekkingar, sem svaraði til öndvegissúlnanna fornu og hafði aðal úrskurðarvaldið með höndum um það, hvar framtíðarheimilin skyldu standa, og þó eg ekki gjöri lítið úr yfirburðum menningarinnar, þá get eg ekki stilt mig um, að láta þá skoðun mína í ljós, að margur hafi lengi liðið og líði enn fyrir það, að hafa álitið kvikfjárræktina of seinstíga á framfarabrautinni, og þar af leiðandi lagt of bráða áherzlu á akuryrkjuna með öllum hennar kostnaði, og valið löndin eftir því.

Eins og geta má nærri, þá verður ekkert um það sagt með fullri vissu, hvað margar ferhyrningsmílur það eru, sem nú þegar er búið að breyta í kornakra meðal Íslendinga hér, enda tekur það stórum breytingum árlega, en þó mun láta nærri, að það sé helmingur hins numda lands, eða um 100 ferhyrningsmílur. En það er sama og 64,000 ekrur. Á ísenzkan mælikvarða er það 8,000 vallardagsláttur.

Þegar eg kom fyrst út í þessa bygð haustið 1905, þá sáust hér ekki akrar nema svo litlir blettir á stöku stað með margra mílna millibili. Þessi akuryrkja er því að mestu leyti framkvæmd af löndum hér á 10 árum, ásamt því að byggja yfir sig og afla sér fóðurs og hirða gripi sína ásamt öðrum búpeningi, sem flestir hafa meira og minna af.

Til jafnaðar hefir þá hverju íslenzku heimili áunnist að breyta 8 ekrum eða 10½ dagsláttu í akur á hverju ári, síðan byrjað var á akuryrkju svo teljandi sé. Er það lofsverð framkvæmdarsemi að mínu áliti.

Á næstliðnu hausti, 1915, hefir hver ekra gefið af sér til jafnaðar að minsta kosti 20 mæla af hveiti eða 50 mæla af höfrum.

Gangi eg út frá því verði, sem heimsþörfin skapar á kornvöruna, og taki fullmikið tillit til flokkaskipunar á hveitinu, og geri hins vegar ráð fyrir hóflegum hlutföllum korntegundanna, þá er uppskera Íslendinga í þessari bygð næstl. haust (1915) tvær miljónir dollara virði.

Auðvitað kemur ekki nema helmingur þessarar upphæðar bændunum sjálfum eða framleiðandanum til vegsauka, því að á sama tíma sem hveitið var $2.00 á heimsmarkaðinum, þá fengu bændur ekki nema $1.00. Auðvaldið og eigendur flutningstækjanna höfðu þannig lag á að njóta góðs af öðrum helming eftirtekjunnar.

Margir hinna íslenzku bænda hér eru fluttir hingað frá eldri nýlendum og komu sumir þeirra með talsverðar eignir og mikla verklega þekkingu, sem hefir haft ómetanlega góð og mikil áhrf; verið kostnaðarlaus og uppbyggilegur skóli, fyrir alla hina, sem enga reynslu höfðu, hvorki með jarðveginn eða áhöldin, en keptu þekkingarlausir áfram,

eins og lífsnauðsynin útheimti. Þegar þetta er tekið með í reikninginn, þá verður framkvæmdarsemi manna skiljanlegri.

Í fljótu bragði getur nú virzt, sem landar allir hljóti að baða hér í rósum nú þegar, eða vera orðnir flugríkir menn. En svo er þó ekki, langt frá því. Nokkrir eru þeir, sem riða á röndinni, eða standa á því takmarki, að falla fyrir ofurvaldi skuldanna, eða ná efnalegu jafnvægi, ef betur vill til.

Það er sjálfsögð og óhjákvæmileg fylgja akuryrkjunnar, að kaupa verður mörg og mjög dýr áhöld og vinnudýr, alt í skuldum hjá okurfélögum og með háum vöxtum, einungis í von um að akrarnir borgi, fyrir alla þá, sem eignalausir byrja eða því sem næst. Hins vegar gera hinir skæðu óvinir akuryrkjunnar, hagl og frost, ekki boð á undan sér.

Mörg árin hafa næturfrostin stórskemt uppskeruna alment yfir, rétt um það leyti sem menn voru að byrja að slá akrana. Haglið kemur misjafnara niður, en árlega skemmir það og eyðileggur hjá einhverjum.

Hin tvö næstliðnu ár hafa áföll á uppskerunni orðið lítil, og verðið hefir verið nokkuð hátt. Menn hafa getað plægt og undirbúið akrana svo að haustinu, að menn hafa þar fyrir komið korninu fyr í jörðina á vorin, og nær þá næturfrostið síður til að skemma, seinni part sumars.

Af frásögnum þeirra manna, sem lengst eru búnir að vera í þessu landi, er svo að heyra, sem næturfrostin hafi minkað í hinum eldri nýlendum, eftir því sem meira af landinu var breytt í akurlendi, og að lokum horfið úr sögunni, þegar mestalt var orðið plægt. Eru margir bygðarmanna hér að vona það, að einnig þessari sveit renni upp sú tíð, að næturfrostin hætti að skemma uppskeruna.

Margir hafa orðið að kosta hér miklu til að fá nægilegt vatn fyrir menn og skepnur, og er það víða ófengið enn þá svo fullnægjandi sé.

Yfirleitt eru byggingar bænda ófullkomnar enn sem komið er. Fjós eru að vísu orðin viðunanleg og góð hjá mörgum, en víða eru íbúðarhúsin enn þá þau sömu og byrjað var með, bæði lítil og köld. Á landnámsárum þurfti ekki að spara eldiviðinn, var hann hvorttveggja: nógur og nærtækur, en víðast hvar í Íslendingabygðinni er nú orðið mjög langt að sækja við og sumstaðar jafnvel ókleift, svo byrjað er að brenna kolum.

Á árunum 1908 og 1909 bygði C.P.R. félagið járnbraut frá austri til vesturs í gegn um bygð þessa, eða með öðrum orðum, lengdi járnbraut þá vestur í gegn um þessa bygð, sem áður er getið um að var komin til Yorkton. Búa Íslendingar á báðar hliðar við brautina og eiga því allflestir mjög skamt að kauptúni.

Brautarstöðvar þær eða kauptún meðfram brautinni, sem Íslendingar skifta við, eru 7, með hér um bil 8 mílna millibili. Frá austri til vesturs heita kauptún þessi: Foam Lake, Leslie, Elfros, Mozart, Wynyard, Kandahar og Defoe. Stærstur þessara kaupstaða er Wynyard, með 600 íbúa. Þar hefir járnbrautarfélagið bækistöð sína, byggingar talsvert miklar og kolabyrgðir fyrir gufukatla sína. Er þar ávalt skift um katla og þeir fægðir þar, smurðir og endurbættir eftir þörfum. Mikil umferð er um braut þessa með menn og vörur. Að morgni hvers dags fer fólksflutningalest vestur um, og að kveldi austur um. Í hverri lest eru 7 til 9 vagnar, meira og minna þéttskipaðir ferðamönnum á leið frá hafi til hafs og allra staða þar á milli.

Í kauptúnunum eru Íslendingar í öllum stöðum

viðskiftalífsins, jafnt við annara þjóða menn, og reynast þeir jafn fjölhæfir og færir, og koma sér í hvívetna vel. Flestir verzla þeir fyrir eigin reikning, en nokkrir starfrækja vandasöm og ábyrgðarmikil embætti til félagsþarfa, svo sem kornhlöðustjórn, skriftsofustjórn, sveitarstjórn, ritstjórn, læknisstörf, o.s.frv.

Meðal Íslendinga í bygð þessari hafa nú þegar myndast 9 söfnuðir, eða kirkjusóknir, sem það var kallað heima á Íslandi. Söfnuðir þessir heita: Foam Lake söfnuður, Kristnessöfnuður, Hallgrímssöfnuður, Sléttusöfnuður, Sólheimasöfnuður, Quill Lake söfnuður, Immanúelssöfnuður, Vatnasöfnuður og Ágústínussöfnuður.

Þessir mörgu söfnuðir benda eindregið og hiklaust á lofsvert og áhugaríkt trúarlíf, að minsta kosti fyrir alla þá, sem ekki þekkja til. Líkast er það því, að hér hafi trúmála-áhuginn verið svo ríkur og kröfuharður, að honum hafi ekki orðið fullnægt í færri deildum. En því miður hafa ýmsar aðrar ástæður haft áhrif á þessa niðurröðun.

Eins og gefur að skilja og allstaðar við gengst, þá hlýtur landslag og staðhættir manna á meðal alt af nokkru að ráða um takmörkun slíkra félagshópa. Þá má og á það minnast, að hin víðtæka og áhrifamikla trúmáladeila Vestur-Íslendinga, sem á barndómsárum þessarar bygðar var hvað háværust, hafði að sjálfsögðu ekki lítil áhrif á myndun safnaðanna. Kom það fljótt í ljós, að menn skiftust nokkuð jafnt á báðar hliðar með gömlu og nýju stefnunni, og er því að lokum svo varið, að sínir fjórir söfnuðirnir tilheyra hvorri hlið, og einn söfnuðurinn telur sig óháðan. Hefir hann þegið þjónustu af kirkjufélagspresti, en jafnframt neitað að ganga í kirkjufélagið.

Tveir söfnuðirnir: Immanúelssöfnuður í Wynyard og Ágústínusarsöfnuður í Kandahar, hafa þegar bygt sér mjög laglegar kirkjur.

Eins og gefur að skilja af því, sem að framan er sagt, þá útheimtast alt af tveir prestar í þessa bygð, sem sé kirkjufélagsprestur og nýguðfræðingur, sem það er alment kallað. Sem kirkjufélagsprestur þjónaði hér fyrstur séra Runólfur Fjeldsted, ættaður úr Hnappadalssýslu. (Sjá æfisögu hans í júlí-hefti Sameiningarinnar 1908). Var hann fremur heilsulítill. Hann sagði því af sér prestsembættinu og tók að stunda nám að nýju, því hann var maður mjög vel gefinn. Hafa ísl. vikublöðin getið þess, að hann væri orðinn prófessor við háskóla suður í Bandaríkjum.

Var þá kallaður hingað til kirkjufélagssafnanna séra Haraldur Sigmar. Er hann sonur Sigmars bónda Sigurjónssonar frá Einarsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, og konu hans Guðrúnar Kristjánsdóttur frá Hólum í sömu sveit. Er hann hér þjónandi prestur síðan. Séra Sigmar er kvongaður Margrétu dóttur séra Steingríms Thorlákssonar í Selkirk.

Söfnuðir hinnar yngri trúmálaskoðunar hafa fengið presta sína heiman af ættjörðinni, unga nýútskrifaða guðfræðinga. Fyrstur þeirra var cand. theol. Jakob Lárusson, sonur Lárusar læknis Pálssonar á Sjónarhóli. Annar í röðinni var cand. theol. Ásmundur Guðmundsson, sonur séra Guðmundar Helgasonar, sem var í Reykholti. Hinn þriðji og nú þjónandi prestur er séra Jakob Kristinsson, bónda á Hrísum í Eyjafirði.

Félagslyndi bygðarmanna og samvinnu áhugi, mun vera í fremur góðu lagi. Ekkert er þó algengara en að heyra umkvartanir um alvöruskort og þol-

leysi í félagsmálum, en ekki er það ógrigðull mælikvarði. Oftast er það samanburðurinn, sem gefur ótvíræðastan úrskurð , þegar um vandamál er að ræða. Þegar eg lít eftir samvinnuframkvæmdum landa hér, samanborið við innlenda og annara þjóða menn, þá get eg ekki betur séð, en að íslendingar standi öðrum þjóðflokkum framar að félagslyndi.

Samkomuhús eru fyrir nokkrum árum bygð í flestum bæjunum meðfram járnbrautinni. Helmingur þeirra er eingöngu eign íslendinga, og mér er kunnugt um, að sum þau samkomuhúsin, sem eru sameign fleiri þjóða manna, eru þó bygð og uppkomin fyrir framtakssemi og forystu íslendinga. Langoftast eru það íslendngar, sem gangast fyrir samkomum í húsum þessum. Raunar býst eg við, að all-margir mundu halda því fram, að lítt sé það uppbyggilegt, sem margar þessar samkomur hafi í sér fólgið, og skal því ekki neitað, að dansfýsn unga fólksins gengur langt úr hófi; en samt sem áður hafa samkomurnar flestar eitthvað uppbyggilegt að flytja, einhver góð áform á bak við sig. Þannig hafa margar samkomur verið haldnar að tilhlutun Goodtemplara og kvenfélaganna, en eins og allir vita, er tilgangur þeirra félaga að lækna meinsemdir mannflagsins og. hlúa að vorgróðri siðgæðis og kristilegrar alvöru.

Hér hafa verið stofnaðar þrjár íslenzkar Goodtemplara stúkur. Eru tvær af þeim liðnar undir lok, en ein þeirra mun enn þá vera við lýði. Auðséð bendir þetta á óþolinn samvinnuhug. Að mínu áliti er þó réttast að dæma það vægt.

Markmið Goodtemplara reglunnar er stórgöfugt, eins og öllum er kunnugt. Starf það er hugsað og hafið fyrir allan heiminn, og er ekkert áhlaupaverk. Og eðlilega leiðir þar af, að lífsglöð-

um unglingum er ofraun að halda uppi slíkum félagsskap nema með yfirráðum hinna eldri. En úti á landsbygðinni hefir annríkið og þreytan oftast undirtökin á fullorðna fólkinu og veldur fjörleysinu og deyfðinni í félagsmálunum.

Kvenfélög eru hér stofnuð og starfrækt í flestum bæjunum meðfram brautinni. Flest eru þau íslenzk. Það mun vera sameiginlegt með öllum slíkum kvenfélögum, að tilgangur þeirra er að hjúkra olnbogabörnunum, gleðja þá sem bágt eiga, samfara hinu, að byggja upp kristinn félagsskap. Mér virðist reynslan benda til þess, að konur séu samvinnuþolnari en karlmenn. Er þó ekki því að leyna, að þeim getur sýnst sitt hverri. En ekkert er það til í þeirra eðli, sem gleðst af andvörpum föðurleysingjanna, eins og "kalda karlmannslundin," sem Jónas Hallgrímsson kvað um.

Regluleg sveitarstjórnarhéruð eru fyrir löngu mynduð í þessari nýlendu. Héruð þessi eru fjögur og eru heimili þeirra í Foam Lake, Elfros, Wynyard og Kandahar. Í sveitarstjórninni sitja Íslendingar að fullri tiltölu við annara þjóða menn.

Það getur verið álitamál, hvort það er ekki utan við takmörk míns verkahrings, að minnast á stjórnmál, enda skal eg vera fáorður um þau. Þó þessi íslenzka bygð sé stór, samanborið við aðrar íslenzkar bygðir hér í landi, þá er hún þó að eins lítill hluti af kjördæmi því, er leggur einn fulltrúa til löggjafarmálanna á fylkisþingið í Regina. En það rekur eftir mér, að kjördæmis-fulltrúinn, þingmaðurinn sjálfur, er ram-íslenzkur, Mr. W. H. Paulson í Leslie, sem flestum Íslendingum vestan hafs er kunnur.

Sannfæring mín er sú, að mikill meiri hluti Ís-

lendinga hér séu frjáls-sinnaðir í stjórnmálaskoðunum sínum.

Ýms eru þau smá-æfintýri frá fyrstu árum Íslendinga hér, sem ættu hvergi betur við á prenti, en í landnámssögubroti þessu. En eg hefi ekki enn þá komið því við, að safna slíkum sögum, enda eins gott að kæmu í eftirmála. Og margt er það fleira, sem hefir sögulega og fræðandi þýðingu af bygð þessari, sem verður að bíða seinni tíma.



Gísli Bíldfell og Valgerður Eiríksdóttir.

**Gísli Bíldfell** Jónsson bónda á Bíldsfelli í Grafningi, Ögmundarsonar á Bíldsfelli, Jónssonar, Sig-

urðssonar frá Ásgarði í Grímsnesi. Þjóðbjörg hét móðir Gísla, Ingimundardóttir bónda á Króki í Grafningi, Gíslasonar bónda á Ölversvatni.

Kona Gísla heitir Valgerður Eiríksdóttir, þess er bjó á Hrauni í Skeiðahreppi, Ingimundarsonar bónda á Efstadal í Laugardal.

Til Ameríku kom Gísli árið 1887. Vann fyrst við járnbraut og skógarhögg, en hafði heimili í Þingvalla, þar til árið 1892 að hann futti í þessa bygð. Heimilisféttarland hans er norðaustur ¼ af S. 24, Tsp. 31, R. 12.

Þau hjón eiga 9 börn á lífi, 2 syni og 7 dætur. Elzta barnið, Jón að nafni, giftur Guðrúnu Torfadóttur bónda hér í sveit. Kristbjörg, gift manni þeim er Vigfús heitir Sveinsson. Ágústína, gift Otte Hrapsted. Hin önnur börn þeirra heita: Ólafur, Elín, Guðrún, Karólína, Gíslína og Ástríður.

Því miður þekki eg hjón þessi ekkert persónulega, þó eg geti af eigin reynslu borið um það, að viðmót þeirra kemur manni ósjálfrátt til að grenslast eftir því í huganum, hvort maður eigi ekkert erindi til þeirra aftur. — Jón sonur Gísla hefir numið land á norðv. ¼ S. 5, Tsp. 32, R. 11. Hafa þau hjón eignast einn dreng, sem heitir Gísli.



Bjarni Jasonsson og Guðrún Eiríksdóttir.

**Bjarni Jasonsson,** Eiríkssonar bónda í Árnessýslu. Bjarni var frá barnæsku uppalinn hjá séra Stefáni Stephensen á Ólafsvöllum í Skeiðahreppi. Frá honum fór Bjarni 24 ára til Ameríku árið 1887. Hér vestan hafs giftist hann 1888 konu sinni Guðrúnu Eiríksdóttur bónda á Árhrauni í Skeiðahreppi. Voru þau hjón, Bjarni og Guðrún, ein af 8 brúðhjónum, er séra Jón heitinn Bjarnason gifti á einum og sama degi í einni ferð sinni til Þingvalanýlendu. Bjarni kom alfarinn út í þessa nýlendu árið 1892. Heimilisréttarland hans er suðaustur ¼ S. 36, Tsp. 31, R. 12.

Hjón þessi hafa eignast 8 börn. Eru 3 þeirra

á lífi: Jakobína Gróa, gift sveitarstjórnaroddvita Narfa G. Narfasyni, er seinna verður getið. Jóhanna Helga og Þórður Guðbjörn, bæði heima.

Á ferð minni meðal hinna fyrstu landnámsmanna þessarar bygðar, gisti eg hjá Bjarna. Er hann skýr maður og skemtilega ræðinn. Sagði hann mér sögu þá, er hér fer á eftir: "Það er ekki því að leyna, að þessir frumbyggjar hugðu á herferðir gegn víkingum þeim, sem hér sátu fyrir, og höfðu eignarrétt manna að athægi. Þá var það í eitt sinn, er bygðarmenn risu á fætur árla dags, að einhver þeirra kom auga á feikna mikinn og illúðlegan skógarbjörn, sem var að grenslast eftir um sauðfé bænda í eyju skamt af landi fram í Foam Lake. Það sáu menn þegar, að hann mundi svaðilförum vanur á sjó og landi, enda gaf hann ekki langan umhugsunartíma eftir að honum höfðu brugðist beztu vonir í eynni, heldur stefndi hann á land upp og réri fast á bæði borð. Skipuðu menn sér þá í fylkingar með hæfilegu millibili á báðar hliðar frá nausti kappans, og höfðu hlaðna riffla af nýjustu gerð. En Banksi var ókvíðinn og treysti sér eigi síður en Vilhjálmur keisari. Þegar að landi kom varð fát um kveðjur. Eldur brann úr augum bjarnarins, og svöruðu rifflarnir í sömu mynt.. Svo endaði þó orusta þessi, að björninn varð ekki í fangelsi hneptur. En það höfðu menn fyrir satt, að eignarréttur frumbyggja væri metinn meira eftir en áður."



Ingimundur Eiríksson og Steinunn Jónsdóttir.

**Ingimundur Eiríksson**, bónda á Árhrauni á Skeiðum, Ingimundarsonar bónda á Efstadal í Laugardal, Tómassonar. Móðir Ingimundar hét Gróa Ásbjarnardóttir, dáin 1899, sæmdarkona mesta. Var hún fyrsti íslendingur er tók land með heimilisrétti í þessari bygð í S. 32, Tsp. 32, R. 11.

Kona Ingimundar er Steinunn Jónsdóttir bónda á Syðstu Grund í Blönduhlíð í Skagafirði, Jónssonar bónda á Jaðri í Seiluhreppi, Jónssonar hreppstjóra á Silfrarstöðum Erlendssonar í Málmey í Skagafirði. Ingimundur kom til Ameríku árið 1886. Alfarinn kom hann í þessa bygð 1892 og nam land hér nokkru seinna, s.a. ¼ S. 14, Tsp. 32, R. 12. — Hjón þessi hafa eignast 9 börn, og heita þau: Ingibjörg, gift John Seyrup; Lilja, Yong Edison, Málfríður, Björg Sigurjóna, Gróa Engilráð,

Eiríkur Jónas, Þórunn Guðfinna, Anna Margrét.—Mér varð snöggvast bylt við, er eg frétti að Ingim. var að þreskja og því ekki heima, er mig bar þar að garði, en eg sannfærðist fjótt um það, að heimilið er ekki forsvarslaust, þar sem kona hans er. Greind er hún vel og greinileg í svörum, og þykir í nágrenninu mikið til þeirra hjóna koma.



Sveinn Halldórsson og Guðfinna Kristín Eiríksdóttir.

**Sveinn Halldórsson,** bónda á Kálfhóli í Skeiðahreppi í Árnessýslu, Sveinssonar, og var hann ættaður úr Biskupstungum. Móðir Sveins hét Guðrún Narfadóttir, ættuð úr Laugardal.

Kona Sveins hét Guðfinna Kristín Eiríksdóttir bónda á Árhrauni, Ingimundarsonar.—Sveinn þessi bjó á Kálfhóli á Skeiðum í nokkur ár. Til Ameríku fór hann árið 1887. Settist fyrst að í Þingvalla, en

fluttist í þessa bygð árið 1892. Heimilisréttarland hans er norðaustur ¼ af S. 12, Tsp. 32, R. 12.

Börn Sveins eru 9 á lífi: Guðrún, gift Sigurði Guttormssyni bónda hér í sveit; Stefanía, gift Hans Gillis, Eiríkur, Vilhjálmur, Pétur, Sylvía, Marta gift Einari Hafstein, Kristólína og Magnúsína.

**Stefán Ólafsson**, ættaður úr Árnessýslu. Kona hans hét Guðrún Hinriksdóttir húsmanns af Seltjarnarnesi, Gíslasonar.—Þau hjón eignuðust 7 börn, 5 sonu og 2 dætur. Tveir synir þeirra, Magnús og Gísli, eru gengnir í herþjónustu. Hinir 3 eru hér í bygðinni og hefir einn þeirra, Sigurgeir að nafni, numið land, (s.v. ¼ 9-32-11-), og er hann giftur Kristínu dóttur Torfa Jónssonar bónda hér.

Stefán kom til Ameríku árið 1889 og settist að í Þingvalla-nýlendu. Hingað kom hann árið 1892. Heimilisréttarland tók hann í Þingvalla, en seldi það, er hann flutti hingað, en hér keypti hann suðvestur fjórðung af Sect. 16, Tsp. 32, R. 11. — Ingunn dóttir Stefáns er gift manni þeim, er Abraham Larson heitir; hin dóttir hans heitir Þórdís.

Þessir fimm bændur, sem nú eru taldir, voru fyrstir allra Íslendinga sem hingað fluttust, og eru því taldir merkastir landnámsmanna bygðarinnar. Það er engin tilviljun, að þeir verðskulda þann heiður. Mennirnir sjálfir og heimkynni þeirra bera það með sér, að þeir eru hygnir, hugdjarfir og þolgóðir brautryðjendur. Allir komu þeir fátækir hingað, en hafa nú orðið stór bú og eru góðum efnum búnir.

Á þessu ári (1916) eru þeir búnir að vera hér 25 ár.



Tómas Paulson og Þórunn Jóhannesdóttir.

**Tómas Paulson,** sá er áður er getið sem leiðsögumanns innflytjenda. Hann er ættaður úr Eyjafjarðarsýslu. Þórður Pálsson hét faðir Tómasar, bjó lengst á Hólum í Öxnadal. Seinast bjó hann á Gili í Skagafirði, skamt frá Sauðárkróki, og andaðist hann þar. Páll faðir Þórðar var Þórðarson frá Kjarna í Eyjafirði.

Móðir Tómasar var Guðrún Magnúsdóttir, ættuð úr Eyjafirði.

Til Ameríku fór Tómas sumarið 1883, einn síns liðs. Fyrsta vetur sinn í Ameríku var hann í Norður - Dakota, en sumarið 1884 fór hann

til Winnipeg og stundaði þar handiðn sína, trésmíði. Í Winnipeg vann hann að húsasmíði í 3 ár. Fór þá aftur suður til Dakota og var þar 2 ár, til þess veturinn 1889, að hann flutti til Þingvallanýlendu. Í desember 1898 futti Tómas alfarinn út í þessa bygð, og nam hér land. Heimilisréttarland þeirra hjóna er í Sec. 4, Tsp. 32, Range 12, 2¾ mílu vegar norðaustur af bænum Leslie.

Kona Tómasar er Þórunn Jóhannesdóttir, Bjarnasonar frá Stóradal í Saurbæjarhreppi í Eyjafirði. En móðir Þórunnar hét Lilja Daníelsdóttir frá Skáldstöðum í sömu sveit.

Flestum landnemum voru allar leiðir kunnar að og frá því heimili hér á fyrstu árum, því alir þurftu að finna Tómas. Var þá stundum "setinn Svarfaðardalur", þegar margir þörfnuðust gistingar í einu í frumbýlings-húsakynnunum; en enginn heyrði húsbændurna kvarta um plássleysi eða matarskort. Varð þó hörgull á hvorttveggja þessu hjá Guðmundi ríka á Möðruvöllum, þegar Ófeigur í Skörðum heimsókti hann með héraðsbúum sínum.

Þau hjón, Tómas og Þórunn, eru öllum að góðu kunn.

Um mörg ár hefir Tómas rekið akuryrkjuverkfæraverzlun í bænum Leslie jafnframt búskapnum.



Kristján Helgason og Halldóra Jóhannesdóttir.

**Kristján Helgason**, bónda á Vatnsenda í Saurbæjarhreppi í Eyjafirði, Sigurðsonar á Vatnsenda. Móðir Kristjáns hét Guðbjörg Sveinsdóttir bónda á Hólakoti í Saurbæjarhreppi. Kona Kristjáns er Halldóra Jóhannesdóttir, bónda frá Stóradal, og er hans getið á öðrum stað í kafla þessum.

Kristján kom ungur til Ameríku með foreldrum sínum, er settust að í Nýja Íslandi. Var hann þar í 10 ár, flutti þaðan til Þingvalla-nýlendu og var einn af þeim fyrstu, sem settust þar að. Þar nam hann land og bjó á því í sex ár, en féll ekki að vera þar, fremur en mörgum öðrum; gaf hann þá land sitt inn aftur til stjórnarinnar og hélt heimilisrétti sínum. Frá Þingvalla fluttist Kristján til White Sands. Þar bjó hann önnur sex ár. Þaðan fluttist hann hingað árið 1897. Heimilisréttarland hans er

suðv. hornið af S. 24, Tsp. 31, R. 12.—Hafa þau hjón eignast 9 börn, 4 sonu og 5 dætur. Sonur þeirra, Helgi, er giftur Helgu dóttur Guðbrandar heitins Narfasonar, sem um er getið á öðrum stað. Hinir synir hans heita: Óskar Pálmi, og hefir hann tekið land (S. E. ¼ S. 24, Tsp. 31, R. 12), Kristján Normann og Jóhannes Daníel, báðir ógiftir heima. Dætur þeirra heita: Lilja Guðbjörg, gift Henry Björnssyni bónda í þessari bygð; Þóra Aðalbjörg, Guðrún Kristjana, Jónína Rósa og Þórunn Halldóra.

Kristján hefir mörg lönd undir og mikið og ríkmannlegt heimili. Hann á á annað hundrað nautgripa, og er það mikil og verðmæt eign; minti sú hjörð mig á sauðahjarðirnar heima á Íslandi. — Þau hjón eru mikils metin og vel látin í sínu nágrenni.

**Jón Thorlacíus** Sigfússon, bónda á Núpufelli í Eyjafirði, Einarssonar prests Thorlacíusar á Saurbæ. Heima á Íslandi giftist Jón árið 1887 Rósu Jóhannesdóttir, Bjarnasonar frá Stóradal í Saurbæjarhreppi. Til Ameríku fluttist Jón árið 1889. Settist hann fyrst að í Þingvalla-nýlendu í bænum Churchbridge, og vann þar við verzlun í 2 ár. Þaðan fluttist hann til Yorkton og gegndi þar ýmsum störfum nokkur ár, fór þaðan til White Sands og bjó þar um hríð. Árið 1903 fluttist hann í þessa bygð og nam land, suðv. fjórðung af S. 16, Tsp. 32, R. 12.



Þau hjón, Jón og Rósa, eiga tvo sonu á lífi; eru þeir orðnir fulltíða menn. Hinn eldri þeirra, Bjarni, hefir numið hér land (N.E. ¼ 17-32-12). Sá yngri heitir Sigfús Daníel. —Fyrsta pósthúsið, sem stofnsett var í þessari bygð, var sett niður hjá Jóni árið 1904, og kallað á Kristnesi, og var hann þar póstafgreiðslumaður um mörg ár. Hann hefir og haft umboð til að taka eiða (Commissioner of Oaths) síðan 1904. Jón er prýðilega vel greindur, prúðmenni mikið og vandaður maður mjög.



Jóhannes Bjarnason og Lilja Daníelsdóttir.

**Jóhannes Bjarnason,** þess er bjó á Þverá á Staðarbygð í Eyjafirði, Jóhannessonar bónda á Ytra Hóli í Öngulstaðahreppi, Halldórssonar. Móðir Jóhannesar hét Halldóra Randversdóttir bónda á Syðri Villingadal í Saurbæjarhreppi, Þórðarsonar bónda í Litladal í Miklagarðssókn. Kona Jóhannesar var Lilja Daníelsdóttir bónda á Skálkstöðum í Saurbæjarhreppi, Pálssonar skálds á Jökli í sömu sveit.

Jóhannes giftist vorið 1860. Eignuðust þau hjón 8 börn, 4 sonu og 4 dætur. Drengirnir dóu allir ungir, en dætur hans eru: Rósa, kona Jóns Thorlacíus bónda hér við Leslie. Halldóra, kona

Kristjáns Helgasonar að Foam Lake. Þórunn. kona Tómasar Paulson, innflutninga-umsjónarmanns manns í þessari bygð, og Aðalbjörg, kona Sigurðar Sigurðssonar við Foam Lake.

Til Ameríku flutti Jóhannes sumarið 1883, og byrjaði búskap í Nýja íslandi. Eftir eitt ár fluttist hann til Winnipeg, var þar 1½ ár, flutti þaðan til Þingvalla, og tók þar land og bjó á því í 6 ár. Þá gaf hann landið inn aftur og fluttist hingað út og nam norðv. ¼ af S. 4, Tsp. 32, R. 12.

**Kristján Gabríelsson** bónda á Efstahóli í Önundarfirði, Jónssonar bónda á Efstahóli, Guðlögssonar á Mosvöllum í sömu sveit.

Móðir Kristjáns var Soffía Bjarnadóttir, bónda á Tungu í Önundarfirði.

Halldóra kona Kristjáns er Bjarnadóttir bónda í Hnífsdal í Skutulsfirði, Halldórssonar á Gili í Bolungarvík Bjarnasonar.

Þau hjón, Kristján og Halldóra, eiga 6 börn, og heita þau: Bjarni, Soffonías, Kristján, Anna, Magnús og Kristinn.

Til Ameríku fluttust þau árið 1887. Kristján vann hjá bændum á ýmsum stöðum í 2 ár. Þá tók hann land í Wallace og bjó þar 7 ár, seldi síðan landið og fluttist hingað árið 1897 og nam suðvestur ¼ af S. 17, Tsp. 32, R. 12. — Kristján er greindur og viðfeldinn maður og góður bóndi.



Þorsteinn Þorsteinsson og Anna Ingibjörg Jónsdóttir.

**Þorsteinn Þorsteinsson** bónda á Mýrum í Austur-Skaftafellssýslu, Ketilssonar.

Kona Þorsteins heitir Anna Ingibjörg Jónsdóttir, bónda á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá, Torfasonar á Sandbrekku í sömu sveit.

Til Ameríku fluttist Þorsteinn árið 1892, settist að í Þingvalla-nýlendu 2 ár, fór þaðan til White Sands og bjó þar í 4 ár. Árið 1898 futtust þau hjón í þessa bygð. Heimilisréttarland þeirra er norðv. ¼ af S. 32, Tsp. 30, R. 12.

Börn þeirra Þorsteins og Önnu eru 10 á lífi, og heita þau: Jónína Guðbjörg, gift Karli Clark; Stefanía, gift Jack Overtone: Signý, gift Elmwood Ar-

mour; Ketilbjörg, Þorsteinn (í herþjónustu), Jóhanna Guðrún, Einar, Jóhann Torfi, Guðný og Bjarnína Guðfríður, öll heima.

Þorsteinn er talinn að vera ríkur maður. Heim til Íslands ferðaðist hann árið 1912, og naut mikillar ánægju af ferð þeirri. Þau Þorsteinn og Anna eru valinkunn sæmdarhjón.



Guðbrandur Narfason og Anna Margrét Eiríksdóttir.

**Guðbrandur Narfason,** bónda á Hákoti á Álftanesi, Halldórssonar bónda á Kálfhóli. Kona hans hét Anna Margrét Eiríksdóttir. Þau komu til Ameríku 1883 og settust fyrst að í Norður-Dakota,

voru þar eitt ár, fóru þá til Winnipeg og voru þar í 2 ár. Þann tíma vann Guðbrandur mest á járnbraut. Árið 1886 flutti Guðbrandur sig til Þingvalla og tók þar land. Seinna skilaði hann því aftur. Út í þessa bygð komu þau hjón árið 1899, og er heimilisréttarland þeirra norðvestur ¼ af S. 10, Tsp. 32, R. 12. Þau Guðbrandur og Anna dóu bæði með litlu millibili á sama ári, 1913. Var þeirra sárt saknað að verðleikum í þeirra nágrenni. Þau áttu 8 börn á lífi, 3 sonu og 5 dætur.



Narfi Narfason og Jakobína Bjarnadóttir.

Elzti sonur þeirra, Narfi að nafni, er giftur Jakobínu dóttur Bjarna Jasonssonar, sem fyr er

getið. Hann hefir numið hér land (s.a. ¼ 1-32-12). Narfi er merkur maður og er nú sveitarstjórnar-oddviti í Foam Lake sveit. Bræður Narfa heita Guðjón og Haraldur. Systir hans Ástríður er gift Pétri Howe bónda hér í grend, og Helga systir Narfa er gift Helga Kristjánssyni Helgasonar, sem fyr er getið. Teódóra er skólakennari, Viktoría og Margrét heima.



Jónas Samsonarson og Sigríður Pálsdóttir Ísfelds.

**Jónas Samsonarson,** bónda á Hávarðsstöðum, Björnssonar, ættuðum úr Hróarstungu. Móðir Samsonar föður Jónasar var Margrét Þorsteinsdóttir, systir Jóns Þorsteinssonar landlæknis.

Móðir Jónasar hét Kristbjörg Þorsteinsdóttir bónda í Tunguseli á Langanesi, Illugasonar bónda á Ytri-Brekku á Langanesi, Einarsonar sterka í Sköruvík.

Fyrri kona Jónasar hét Katrín Ásmundsdóttir; var Ásmundur sá ættaður af Héraði. Börn á Jónas 5 á lífi, og eru þau sem hér segir: Kristján lögmaður í Norður-Dakota, og er hann nú genginn í herþjónustu. Samson, einnig í herþjónustu. Kristlögur, ógiftur suður í Dakota. Elísabet, skólakennari suður í Dakota.

Jónas fluttist til Ameríku árið 1890, og settist að í Norður-Dakota. Þar bjó hann í 13 ár. Árið 1903 fluttist hann út í þessa bygð og nam land við Kristnes-pósthús, norðv. ¼ af S. 34, Tsp. 32, R. 12. Jónas er póstafgreiðslumaður á Kristnesi og hefir hann þar jafnframt talsverða verzlun, sem hann rekur fyrir eigin reikning.

Seinni kona Jónasar er Sigríður Pálsdóttir Ísfelds á Eyvindará í Eiðaþinghá, Eyjólfssonar Ísfelds, þess er nafnkendastur var heima á Íslandi með nafninu Óli Ísfeld. Gróa hét móðir Sigríðar konu Jónasar, var hún Eiríksdóttir Jónssonar prests í Vallanesi. Jónas Samson er af góðum hagyrðingum kominn í báðar ættir, og sjálfur var Jónas góður hagyrðingur í æsku, en það er eins og hugsjónaflug andans lækki hjá mörgum eftir að líkaminn fer að lýjast, og er það eðlilegt einkum þegar fátækt, þungar áhyggjur og lamandi andstreymi er það foss-afl, sem flytur manninn fram yfir hádegi æfidagsins.

**Bernharður Jónsson** gullsmiðs í Reykjavík, Bernharðssonar úr Mosfellssveitinni. Kona Bernharðar heitir Valgerður Eiríksdóttir bónda á Miðbýli á Skeiðum. — Til Ameríku fluttist Bernharður

árið 1883 og til þessarar bygðar árið 1896, og nam hann hér suðvestur ¼ af S. 30, Tsp. 31, R. 11.

**Jón Janusson,** prests að Holti í Vestur-Ísafjarðarsýslu, Jónssonar, Þórðarsonar bónda á Kjarna í Eyjafirði. Kona hans er Salóme Bjarnadóttir bónda í Hnífsdal í Ísafirði, Halldórssonar í Tungu í sömu Sveit. — Þau hjón, Jón og Salóme, eiga 8 börn á lífi, 4 sonu og 4 dætur. Í þessa bygð komu þau árið 1903 og námu landið norðv. ¼ af S. 20, Tsp. 31, R. 11. Jón er sveitarskrifari í Foam Lake sveit.

**Hallgrímur Guttormsson,** bónda á Galtastöðum í Hróarstungu, Sigurðssonar. Móðir Hallgríms hét Ólöf Sölvadóttir bónda á Hrappsgerði í Fellum, Jónssonar. Með foreldrum sínum kom Hallgrímur til Ameríku árið 1883. Settust þau að í Norður-Dakota og bjuggu þar nálægt Hallson í 10 ár; vann Hallgrímur í búi þeirra. Frá Hallson fluttu þau sig til Minnesota; þar tók Hallgrímur land og bjó þar 8 ár. Hingað fluttist Hallgrímur árið 1903 og tók suðv. ¼ af S. 36, Tsp. 32, R. 13. Kona hans er Sigríður, dóttir Nikulásar Jónssonar, þess er bjó í Odda í Seyðisfirði, hálfbróður séra Jóns sál. Bjarnasonar. Nú hefir Hallgrímur verzlun í bænum Leslie og selur þar járnvöru.

**Þorvaldur Þorvaldsson,** bónda í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Stígssonar. Móðir Þorvaldar var Vilborg Jónsdóttir bónda á Berufjarðarströnd. Þorvaldur er giftur Gróu Eymundsdóttur, systur Sigfúsar heitins Eymundssonar í Reykjavík. Til Ameríku kom Þorvaldur árið 1883. Var í Norður-Dakota og víðar í Bandaríkjunum nokkur ár. Í Minnesota tók hann land og bjó þar 6 ár. Hingað fluttist hann árið 1903 og nam suðv. ¼ af S. 28, Tsp.

32, R. 12. Hann hefir matvöru-, dúka- og munaðarvöruverzlun í bænum Leslie.

**Hjálmar Helgason,** Ásmundssonar, Helgasonar bónda á Skútustöðum við Mývatn. Móðir Hjálmars var Guðfinna Guðlögsdóttir frá Álftagerði við Mývatn. Kona Hjálmars er Ingibjörg Sigmundsdóttir frá Vestdal í Seyðisfirði. Þau Hjálmar og Ingibjörg eiga 9 börn, sjö sonu og tvær dætur, og heita þau: Ingibjörg, Helgi, Ásmundur, Kristján, Þorgeir, Páll, Sigmundur, Guðfinna, Stefán Pálmi. Öll eru þau heima, nema Ásmundur, sem genginn er í herþjónustu. Heimilisréttarland Hjálmars er norðvestur ¼ af S. 2, Tsp. 32, R. 13.

**Páll Magnússon,** Jónssonar; var Magnús hafnsögumaður á Akureyri, bróðir Friðriks skipasmiðs á Ytribakka á Árskógsströnd og Þorleifs frá Reykjum á Reykjaströnd. Kona Páls er Guðný Friðbjarnardóttir, bókbindara á Akureyri. Til Ameríku fluttust þau árið 1901, en komu í þessa bygð árið 1904 og námu hér land, norðv. ¼ af S. 20, Tsp. 31, R. 12.

Þau hjón hafa eignast 6 börn, 5 sonu og 1 dóttur. Magnús elzti sonur þeirra, sem nú er genginn í herinn, hefir numið hér land (n.a. ¼ 32-31-12).

Páll er söngmaður góður og hefir hann stofnsett og stjórnað hornleikaraflokk um mörg ár í bænum Leslie.

**Þorlákur Björnsson.**—Faðir Þorláks var Friðbjörn Björnsson frá Fornhaga í Eyjafirði. Móðir hans hét Anna Sigríður Árnadóttir. Kona Þorláks heitir Ingibjörg Stefánsdóttir bónda á Eyhildarholti í Skagafirði, Hafliðasonar bónda á Hofdölum.

Til Ameríku kom Þorlákur með foreldrum sínum árið 1873, og settust þau fyrst að í Nýja Íslandi.

Til Norður-Dakota fluttist Þorákur með foreldrum sínum árið 1880, og þaðan kom hann í þessa bygð árið 1905. Hann tók norðv. ¼ af S. 14, Tsp. 32, R. 12. Þau hjón eiga 3 börn, 2 sonu og 1 dóttur, og heita þau: Magnús Páll, Jóhannes Þórður og Lilja Anna.

**Lárus Nordal** Rafnsson, Guðmundsonar bónda á Akranesi. Móðir Lárusar er Anna Þorgrímsdóttir prests í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd. Lárus fluttist til Ameríku árið 1900, var fyrst í Winnipeg fjögur ár við húsasmíði og málningu og fluttist síðan hingað árið 1905. Hann giftist árið 1902 Rósu Davíðsdóttur Kristjánssonar bónda á Jódísarstöðum í Öngulstaðahreppi í Eyjafirði. Þau hjón eiga eitt barn, stúlku er Anna heitir. Heimilisréttarland þeirra er norðaustur ¼ af S. 34, Esp. 30, R. 12.

**Jóhannes Davíðsson,** bónda á Jódísarstöðum í Öngulstaðahreppi, Kristjánssonar bónda í Öxnafellskoti í Saurbæjarhreppi. Móðir Jóhannesar hét Sigríður Bjarnadóttir bónda á Þverá í Öngulstaðahrepp. Kona Jóhannesar heitir Jónína Daníelsdóttir Oddssonar frá Dagverðareyri við Eyjafjörð.

Jóhannes giftist á Íslandi árið 1898 og bjó eitt ár á Syðri Tjörnum í Öngulstaðahreppi. Til Ameríku fluttu þau hjón árið 1900, settust að í Winnipeg og voru þar 5 ár. Árið 1905 tóku þau hér land, suðaustur ¼ af S. 28, Tsp. 30, R. 12; á þessu landi bjuggu þau í 7 ár, og þá seldu þau landið og ferðuðust heim til Íslands. Eftir eitt ár komu þau aftur og settust að í bænum Leslie. Nú hefir Jóhannes keypt norðaustur ¼ af S. 9, Tsp. 32, R. 12. og býr á því landi.

**Eiríkur Davíðsson,** Kristjánsonar (bróðir Jóhannesar þess er næst á undan er getið). Kona

hans er Þorgerður Benediktsdóttir Jóelssonar, af Akureyri. Þau hjón hafa eignast 5 börn, 3 sonu og 2 dætur. Til Ameríku fluttust þau árið 1900. Vann hann við fiskveiðar á vetrum og hélt til við Manitoba-vatn. Fluttust þau hjón í þessa bygð árið 1905 og tóku hér norðaustur ¼ af S. 28, Tsp. 30, R. 12.

**Sigurður Stefánsson** Jóhannessonar í Fífilgerði í Öngulstaðahreppi í Eyjafirði. Kona hans er Helga Guðmundsdóttir frá Uppsölum í sömu sveit. Þau hjón eiga 5 börn, sem heita: Guðmundur, Stefán, Kristín, Anna og Emma. Árið 1905 fluttust þau í þessa bygð, en höfðu áður búið nokkur ár bæði í Dakota og við Winnipegosis. Heimilisréttarland Sigurðar er suðaustur ¼ af S. 34, Tsp. 32, R. 12.

**Grímur Laxdal** Jónsson, skipstjóra og hafnsögumanns á Akureyri, Guðmundssonar bónda á Læk í Viðvíkurhreppi í Skagafirði, Þorkelssonar. Móðir Gríms var Guðrún Grímsdóttir Laxdal, bókbindara á Akureyri, Grímssonar. Kona Gríms Laxdal er Sveinbjörg Torfadóttir snikkara á Sandbrekku í Hjaltastaðaþinghá. Móðir Sveinbjargar var María Björnsdóttir úr sömu sveit.

Þau Grímur og Sveinbjörg eiga 8 börn á lífi, og eru þau þessi: Ragnheiður, kona Maríusar Lund á Raufarhöfn í Norður-Þingeyjarsýslu. María, kona Sveins Björnsonar læknis á Gimli í Nýja Íslandi. Þórður Eggert heima. Jóna Katrín skólakennari í Young í Saskatchewan. Ólafur Stefán, skólapiltur á Wesley College. María Guðjohnsen, á Gimli hjá systur sinni. Jón Kristján og Kristín, bæði heima hjá foreldrum sínum.

Grímur Laxdal kom til þessa lands sumarið 1907, og í þessa bygð sama haust og tók með heimilisrétti norðaustur fjórðung af S. 10, Tsp. 33, R. 12.

Árið 1913 seldi Grímur heimilisréttarland sitt og keypti þá norðaustur ¼ af, S. 20, Tsp. 32, R. 12. fast hjá skóla og 5 mílum nær kaupstað.

Grímur Laxdal er alinn upp við verzlunarstörf þar til hann var fullorðinn og tók sjálfur við verzlunarstjórn fyrir stórkaupmann Louis Zöllner í New Castle. Seinna verzlaði Grímur fyrir eigin reikning og hafði allstóra verzlun á Vopnafirði, en tapaði á henni og varð víst hér um bil eignalaus. En þá brá hann sér til Ameríku og nær hér strax öllum tökum á búskap eins og alvanur bóndi. Nágrannar hans bregða því við hvað hann er duglegur, og hefir hann nú myndarlegt og vel umgengið bú, innan húss og utan.

**Ragúel Jhannsson,** ættaður úr Húnavatnssýslu. Fæddur á Hólabaki í Sveinsstaðahreppi. Faðir hans var Jóhann Guðmundsson frá Vatnsdalshólum. Móðir Ragúels var Medónía Guðmundsdóttir Ketilssonar þess er bjó á Illhugastöðum á Vatnsnesi. Dó hún hjá syni sínum Ragúel næstl. ár. Jóhann faðir Ragúels var síðustu árin heima á Torfastöðum í Miðfirði í sömu sýslu, og flutti þaðan til Ameríku 1887. Settist að í Winnipeg og dó þar. Kona Ragúels er Soffía Hansína Guðmundsdóttir Ólafssonar prests á Hjaltabakka. Móðir Soffíu var Halldóra Sveinsdóttir frá Steinstöðum í Skagafirði, en móðir Halldóru hét Sigríður, dóttir séra Skúla í Múla í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu.

Ungur var Ragúel, þegar hjá honum vaknaði löngun til að hnýsast eftir hvað gerðist utar-frá í heiminum, en peningana vantaði algerlega. Samt sem áður lagði hann á stað suður til Reykjavíkur og vistaði sig kauplaust til þriggja ára hjá trésmíðameistara Jóni Gunnlögssyni. Á þeim tíma lauk hann fullnaðarnámi í trésmíði með góðum vitnisburði.

Nokkru síðar kvongaðist Ragúel, en leizt ekki á að fara að búa efnalaus heima á Íslandi og réð því af að fara til Ameríku. Settist fyrst að í Garðarbygð í Dakota, var þar 3 ár; þaðan fluttist hann til Grafton, hvar hann bygði sér hús og var þar í 14 ár, og vann allan þann tíma að húsasmíði. Sumarið 1904 flutti Ragúel hingað og tók með heimilisrétti norðv. fjórðung af S. 6, Tsp. 33, R. 14. Hefir hann búið þar síðan. Hann hefir nú orðið myndarlegt heimili, nýbygt íveruhús og pengingshús.

Þeir sem bezt þekkja Ragúel, munu kannast við, að hann hefir þá hygni til að bera, sem í hag kemur, er trygglyndur og skemtilega gamansamur með vinum sínum, en fámáll ella.

**Hósías Björnsson,** Jósefssonar, þess er eitt sinn bjó á Kifshaga í Axarfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Kona Hósíasar var Guðbjörg Gísladóttir Þorvarðssonar bónda á Höskuldsstöðum í Breiðdal. Guðbjörg dó að heimili sínu í þessari bygð veturinn 1910. Hósías flutti hingað út vorið 1905 ásamt syni sínum, Hósíasi yngra. Hann nam hér suðaust. ¼ af S. 16, Tsp. 33, R. 14. Til Ameríku kom hann sumarið 1903 frá Höskuldsstöðum í Breiðdal, þá orðinn gamall maður. Áður bjó hann mörg ár á Jórvík í sömu sveit rausnarbúi, og munu margir minnast hans frá þeim tímum með þakklátri endurminningu.

Hósías var frá barnæsku fóstraður upp af séra Hósíasi á Skeggjastöðum á Strönd í Norður-Múlasýslu, og hafði hann þess vegna hlotið meiri mentun en alment gerðist á þeim árum, enda ber öll framkoma hans þann hreinleiks þokka, sem einkennir vandaða og mentaða menn.

**Hósías Hósíasson** Björnssonar, þess er hér á

undan er getið. Kona Hósíasar er Stefanía Jónsdóttir, Jónssonar bónda á Kolmúla, og konu hans Sólveigar Stefánsdóttur Magnússonar í Vík í Fáskrúðsfirði.

Hósías kom til Ameríku sumarið 1903, settist að í Argyle og var þar 1½ ár. Flutti hingað vestur vorið 1905 og nam hér suðv. fjórðung af S. 16, Tsp. 33, R. 14.

Hósías er fjörmaður mikill og framkvæmdarsamur. Ungur lærði hann trésmíði; vann að húsabyggingum hjá dönskum smíðameistara, Baldt að nafni, og sigldi Hósías með honum til Kaupmannahafnar og vann þar að byggingum. Þeir munu færri vera í þessari bygð, sem hafa komist í betri kringumstæður en Hósías á jafnstuttum tíma, þrátt fyrir mikla ómegð.

**Jón S. Laxdal** Sigurðsson, bónda í Þverárdal í Laxárdal í Húnavatnssýslu, áður á Geitaskarði í sömu sveit, og enn áður á Krossastöðum á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu. Langafi Jóns var séra Sigurður á Auðkúlu. Móðir Jóns var María Guðmundsdóttir bónda á Moldhaugum í Kræklingahlíð í Eyjafjarðarsýslu.

Foreldrar Jóns fluttust til Ameríku sumarið 1888, og settust þau að í Garðar-bygð í Norður-Dakota. Jón var þá 18 ára gamall, hraustur og framgjarn. Fór hann víða. Var 2 ár vestur við haf, en settist síðan að í Morden-bygð í Manitoba. Tók hann þar land með heimilisrétti, en seldi það eftir 4 ár og flutti þá hingað vestur. Hann keypti hér hálfa fermílu af landi, vesturhelming af S. 3, Tsp. 33, R. 14, og hefir búið þar síðan. Veturinn 1906 rétt fyrir jólin gekk Jón að eiga Rut Jónsdóttir, bónda á Köldukinn í Torfalækjarhreppi í

Húnavatnssýslu. Búa þau góðu búi. Er hann maður greindur vel og afkastamikill.

**Ólafur Ólafsson,** Jóhannssonar bónda á Framnesi í Skagafirði. Móðir Ólafs var Sigríður Bjarnadóttir úr sömu sveit. Fluttu þau hjón til Ameríku ásamt börnum sínum árið 1884 og settust að í Akra-bygð í N.-Dakota. Ólafur flutti suður til Minnesota, nam þar land og var þar nokkur ár. Haustið 1903 flutti hann út í þessa bygð og tók hér land, norðaustur ¼ af S. 30, Tsp. 32, R. 13. Þegar járnbrautin var lögð hér í gegn, bygði hann í félagi við annan mann verzlunarbúð á brautarstöðinni Elfros, og hefir rekið þar verzlun síðan. Ólafur er giftur sænskri konu, sem heitir Margrét Karolina.

**Jón Hallgrímsson Goodman,** ættaður úr Norður-Múlasýslu. Foreldrar hans, Hallgrímur Guðmundsson og Guðrún Margrét Guðmundsdóttir, bjuggu eitt sinn á Fremrihlíð í Vopnafirði. Þau fóru til Ameríku sumarið 1876 og settust að í Nýja Íslandi, og er Jón sonur þeirra fæddur þar árið 1878.

Jón Hallgrímsson Goodman fluttist út í þessa bygð sumarið 1903 og tók þá með heimilisrétti norðaustur ¼ af S. 32, Tsp. 32, R. 13. Hann er félagi Ólafs Ó. Jóhannssonar við stóra verzlun í bænum Elfros, síðan járnbrautin kom þar.

**Sigurður Jónasson** Sturlaugssonar bónda á Dunustöðum í Laxárdal í Dalasýslu, og konu hans Ásgerðar Björnsdóttur. Fluttust þau til Ameríku 1883 og settust að í Pembina County í Dakota, og eru þar enn. Sigurður sonur þeirra kom hingað út árið 1905 og numdi hér suðvestur ¼ af S. 4, Tsp. 32, R. 13. Sigurður er giftur konu þeirri er Helga heitir Bjarnadóttur Péturssonar. Hafa þau hjón

bygt og búið í seinni tíð í bænum Elfros og hefir Sigurður rekið þar járnvöruverzlun, en selt þá verzlun seinna og verið kornhlöðustjóri þar í bænum.

**Höskuldur Steinþórsson,** Bjarnarsonar bónda á Helluvaði við Mývatn. Móðir hans er Anna Jósefsdóttir, er heima á suður í Dakota. Höskuldur fluttist í þessa bygð árið 1905 og tók hér land, norðvestur ¼ af S. 24, Tsp. 32, R. 13. Landið seldi hann og bygði sér hús í bænum Elfros. Hann veitir forstöðu timburverzlun í bænum. Giftur er hann enskri konu.

**Tímóteus Guðmundsson.**—Foredrar hans, Guðmundur Hannesson og Anna Brandsdóttir, bjuggu á Lilta-Holti í Saurbæjarhreppi í Dalasýslu. Tímóteus fór til Ameríku 1887 og settist að í Garðarbygð í Dakota, og giftist þar Þorbjörgu Hallgrímsdóttur Guðmundssonar, þess er bjó á Fremrihlíð í Vopnafirði. Móðir Þorbjargar var Guðrún Guðmundsdóttir frá Brattagerði í Jökulsárhlíð. — Þau hjón, Tímóteus og Þorbjörg, fluttust í þessa bygð haustið 1907 og námu hér land, norðaustur ¼ af S. 22, Tsp. 32, R. 14, og hafa búið hér síðan. Þau eiga 9 mannvænleg börn, og er meiri hluti þeirra uppkominn. Það er engum vafa bundið, að hverju æfistarfið hefir lotið, þegar því er afkastað.



Nágranni minn, Árni Sigurðsson, sá er ritaði í Lögberg "Endurminningar úr Breiðdal fyrir 60 árum," var byrjaður á að skýra frá nokkrum landnemum hér, þegar honum brast sjón og hann gat ekki fengist við ritstörf lengur. Koma hér á eftir menn þeir, er hann getur um:

**Jónas og Páll Tómassynir.** — Tómas er maður nefndur Jóhannsson. Heima á Íslandi bjó hann seinast á Þúfnavöllum í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu á Íslandi. Kona hans er Guðrún Árnadóttir. Feður þeirra hjóna, Jóhann og Árni, voru bræður, synir séra Páls, er seinast var prestur á Bægisá, Árnasonar biskups á Hólum, Þórarinssonar prófasts í Hjarðarholti, Jónssonar prófasts sama staðar. Árni var bisupk í Hólastifti næstur á undan hinum seinasta biskupi er þar var, bókmentamaður og hinn lærðasti klerkur norðanlands á sínum tíma. Jóhann faðir Tómasar bjó lengi á Syðri-Bægisá í Öxnadal og var hreppstjóri um eitt skeið í Skriðuhrepp. Á Bægisá er Tómas fæddur 22. júlí 1838. Móðir hans hét Katrín Tómasdóttir bónda að Bægisá syðri, Egilssonar á Hjálmstöðum í Eyjafirði. Kona Tómasar eldri en móðir Katrínar hét Helga Daníelsdóttir, hálfsystir Þorsteins Daníelssonar að Skipalóni. Systkini Tómasar: Árni prestur í Glæsibæ og Jóhann bóndi þar; druknuðu þeir báðir haustið 1880. Páll, þriðji bróðirinn, bjó lengi í Fornhaga. Hann var hreppstjóri í Skriðuhreppi um mörg ár, og svo hreppsnefndaroddviti og sýslunefndarmaður, nú dáinn; Þórdís Helga, gift Jónasi Gunnlaugssyni, skagfirzkum manni; hún er dáin. Árni faðir Guðrúnar konu Tómasar bjó á Syðra-Holti í Svarfaðardal; var hann hreppstjóri alllengi og sæmdur heiðursmerki Dannebrogsmanna. Kona hans var Sigurbjörg, dóttir Þórðar bónda á Kjarna í Eyjafirði, Pálssonar. Kona Þórðar hét Björg; hún var dóttir Halldórs prófasts í Garði í Kelduhverfi og systir Bjarnar prófasts í Garði, föður séra Halldórs á Sauðanesi, föður séra Bjarnar í Laufási, föður Þórhalls biskups í Reykjavík. Þau Þórður bóndi og Björg áttu fjóra sonu og níu dætur, og er mikill

og fjölmennur ættbálkur frá þeim kominn, dreifður nærri um alt Ísland. Fjöldi af því fólki er komið vestur um haf til Ameríku. Kona séra Páls Árnasonar hét Þórdís, dóttir séra Stefáns í Presthólum. Árið 1888 fluttu þau hjónin Tómas og Guðrún vestur um haf til Ameríku og börn þeirra með þeim. Fyrsta veturinn voru þau til húsa hjá Þórdísi systur Guðrúnar, konu Þorláks Björnssonar frá Fornhaga, er bjó nálægt Mountain. Um vorið fluttu þau á land, er þau keyptu, þrjár mílur fyrir sunnan Garðar pósthús, og þar bjuggu þau átta ár. Land þetta var illa fallið til akuryrkju, jarðvegur sendinn og þur. Tómas seldi landið, bygði hús nálægt Garðar og var þar tvö ár. Vorið 1899 fluttu þau hjón norður til Manitoba; tók Tómas heimilisrétt á landi í Morden-nýlendunni og bjó á því í sjö ár og undi þar vel hag sínum. Börn þeirra hjóna eru: (a) Árni; hann tók land í Morden-nýlendunni og býr þar; kona hans heitir Ingunn, dóttir Jónatans Líndals Jónatanssonar frá Ásgeirsá í Húnavatnssýslu. (b) Jóhann bóndi í Garðar-bygð í Norður-Dakota; kona hans heitir Pálína, og er hún systir Gamalíels Þorleifssonar bónda í Garðar-bygð. (c) Katrín; hún er gift Gamalíel Þorleifssyni. (d) Sigurbjörg; hún er gift Ólafi Kristinssyni bónda að Garðar. (e) Páll. (f) Jónas og (g) Sigurrós (sjá um þau seinna. (h) Þórdís, kennir skóla suður í Dakota, ógift.

Árið 1903 tóku fjórir ungir menn í Morden-nýlendunni sig saman til að nema lönd í Vatnabygðinni norðaustur. Fór mikið orð af landkostum þar og landrými. Þessir fjórir félagar voru þeir Jónas Tómasson, Jóhann Pálsson (nýkominn frá Íslandi, bróðursonur Tómasar), Jón Egill Ágústsson og Axel Guðni Ágústsson.

Jón Laxal, ungur maður, framgjarn og ötull, var þar þá. Hann kom sunnan úr Garðar-bygð og tók land í Morden-nýlendunni, en var nú búinn að selja það. Jón hafði við orð að fara norðvestur í land í landskoðunarferð. Þeir félagarnir fjórir sömdu við Jón Laxdal og gáfu honum umboð til að taka fyrir þá alla heimilisréttarlönd þar norðvestur. Hann fór og tók fyrir þá Sect. 34, nokkru fyrir vestan Birkilæk, sinn fjórðunginn fyrir hvern. Jónas Tómasson og Jón og Axel Ágústssynir fóru norðvestur um vorið 1904 með 4 vinnu-uxa.

Þeir settust að á löndum sínum, bygðu fyrst loggakofa sinn á hverju landshorni í miðri sectioninni; svo brutu þeir í félagi á þremur löndunum alt hvað þeir gátu. Um haustið, þegar kornskera byrjaði, fóru þeir austur og unnu þar við uppskeru og þreskingu.

Veturinn 1905 á útmánuðum bjuggust þeir félagar norðvestur aftur og þá ætlaði Jóhann Pálsson með þeim til að byggja og vinna á sínu landi; en hann dó nokkru áður en förinni var heitið. Var þá skrifaði heim til Íslands, Páli Jóhannssyni föður hins látna, hann, sem einka erfingi sonar síns, beðinn að gera ráðstöfun fyrir landinu. Páll skrifaði aftur og gaf Páli Tómassyni bróðursyni sínum sinn rétt óskertan til lands þessa. En um þær mundir er þetta svar kom að heiman, var Páll svo bundinn við ýms störf og fyrirætlanir bæði í Morden-nýlendunni og suður í Dakota, að hann gat með engu móti farið norðvestur til að setjast þar að. Fól hann því Jónasi bróður sínum alla umsjá yfir landinu. Fórst honum það drengilega. Hann fékk menn til að brjóta og gera öll lögboðin skylduverk. Sumarið 1907 bygði hann á landinu hús með hallþaki og fjós úr loggum og inngyrti akurbletti þá, er þá var búið

að brjóta og sá í. Það voru lög hjá þeim þá, að gripir allir skyldu ganga lausir, en akrar friðaðir. Frá því fyrsta, er Jónas hafði uppskeru af landi sínu, leigði hann út akurinn og vinnu-uxa sína, en vann sjálfur út við heyskap, uppskeruvinnu og þreskingu. Lærði hann þá að stýra gufuvél við þreskingu. Árið 1910 bygði hann íbúðarhús úr timbri á landi sínu; fjós og kornhlöðu var hann búinn að byggja áður. 21. marz 1912 kvæntist hann Rannveigu Stefaníu Árnadóttur Sigurðssonar, keypti síðan búsáhöfn og 3 hesta, og settist að með konuna í húsi sínu og vinnur sjálfur landið.

Páll Tómasson flutti fyrst alfarinn á land það, er hann erfði eftir Jóhann frænda sinn, haustið 1907. Árið næsta áður kvæntist hann Guðnýju Ólafsdóttur bónda í Morden-bygð, Kristjánssonar bónda í Kelduhverfi, Guðmundssonar. Þau hjón hafa eignast 4 börn, þegar þetta er ritað, 2 drengi og 2 stúlkur. Páll er búinn að brjóta upp þvínær alt land sitt og byggja veglegt íbúðarhús með sementssteypukjallara undir. Hann lét bora til vatns nokkuð á annað hundrað fet; kom þá nægilegt vatn. Kostaði sú vinna með umbúningi öllum um 200 dollara. Þeir bræður keyptu sectionar-fjórðung, er liggur skamt fyrir austan þá, og hafa brotið þar um 50 ekrur.

**Jón og Axel Ágústssynir** — Ágúst faðir þeirra bræðra, Jóns og Axels, sem nefndir eru í næsta kafla á undan, er Jónasson, Egilssonar bónda á Bakka í Öxnadal, Tómassonar bónda á Bægisá, Egilssonar bónda á Hjálmsstöðum í Eyjafirði. Móðir Ágústs hét Elín Guðmundsdóttir. Egill á Bakka átti mörg börn. Dætur hans voru Helgur tvær, mæður þeirra Sigtryggs kafteins Jónassonar og B. L. Baldwinsonar, fyrrum ritstjóra Heimskringlu.

Ágúst Jónasson kvongaðist 1877 Björgu Guðnadóttur fráÞverbrekku í Öxnadal, Jónssonar frá Skriðulandi í Reykjahverfi í Þingeyjarsýslu. Ágúst og Björg bjuggu seinast á Íslandi að Þverá í Öxnadal. Til Ameríu fóru þau sumarið 1887 og settust að í Garðar-bygð hjá bróður Bjargar, Jóni Bergmann. Ágúst tók heimilisréttarland þar í bygð og bjó þar 12 ár. Árið 1899 flutti hann búferlum norður til Manitoba og seldi landið suður frá, en tók aftur heimilisréttarland í Morden-nýlendunni og bjó á því í sjö ár. — Börn þeirra hjóna eru: Axel Guðni, Jón Egill, og Ingibjörg; hún er gift Vigfúsi Magnússyni, ættuðum úr Sagafirði; búa þau á landi, er þau keyptu nokkuð fyrir austan Birkilæk. Eftir að þeir bræður festu sér heimilisréttarlönd þar norðvestur, var Jón heima hjá foreldrum sínum á veturna, sáði á vorin í akurinn, sem þeir voru búnir að rækta þar, fór svo norðvestur og vann þar fram að kornskurðartíma; þá fór hann austur aftur, sló akurinn, sá um þreskingu og flutti kornið til markaðar, en Axel hafði umsjá yfir öllu, sem þeir áttu norðvestur. Haustið 1906 seldu þeir feðgar land Ágústar í Morden-nýlendunni og fluttu alla búslóðina, dautt og lifandi, norðvestur, bygðu hús með hallþaki til að búa í fyrst í stað. Nú eru þeir bræður búnir að brjóta upp í akur heimilisréttarlönd sín og hafa keypt í félagi ¼-section fast við land Vigfúsar mágs þeirra, og hafa þegar brotið mikið þar. Jón hefir bygt gott íbúðarhús á landi sínu ogfjós með heylofti. Axel hefir og bygt íbúðarhús og fjós á sínu landi. Brunn grófu þeir og þurftu ekki djúpt að grafa, er þeir fengu gott vatn. Báðir eru þeir bræður ókvongaðir. Stóð móðir þeirra fyrir búverkum innan húss þar til hún lézt í ágúst 1913. Þess má geta um Axel, að hann ólst upp hjá afa

sínum Guðna, er þá var fluttur búferlum vestur í Skagafjörð, og er hann var fullorðinn, gekk hann tvo vetur á búnaðarskóla á Hólum og útskrifaðist þaðan með góðum vitnisburði. Hann kom til Ameríku árið 1900 og settist að hjá foreldrum sínum. Axel er bókfróður maður og á mikið af bókum.

**Þórður Árnason.** — Sigurður hét maður, Eiríksson, Sigurðssonar Ljettis. Hann bjó alllengi í Fagradal í Breiðdal í Suður-Múlasýslu á Íslandi og þar dó hann árið 1856. Kvinna Eiríks, móðir Sigurðar, hét Rannveig Árnadóttir, bónda í Berufirði, Jónssonar prests að Hálsi í Hvammsfirði, Gissurssonar. Kvinna Jóns prests, móðir Árna, hét Þóra. Hún var alsystir séra Sigurðar prests að Heydölum í Breiðdal, Sveinssonar frá Svínafelli í Skaptafellssýslu, Jónssonar, Einarssonar. Kvinna Sigurðar Eiríkssonar hét Elísabet Árnadóttir, Steingrímssonar frá Hlíð í Lóni í Skaptafellssýslu. Kvinna Árna Steingrímssonar, móðir Elísabetar, hét Lísibet Bessadóttir, hafnsögumanns og hreppstjóra á Berufjarðarströnd, Sighvatssonar. Bessi var mikilhæfur bóndi á sinni tíð; hann var þríkvongaður og átti mörg börn. Seinasta kona hans hét Katrín, ættuð af Langanesi. Hún var móðir Lísibetar. Öllum börnum sínum kom Bessi vel fram; á hans búskaparárum gekk yfir hallærið, er stafaði af Skaptáreldinum 1783. Út af Bessa er kominn fjölmennur ættbálkur.

Sigurður Eiríksson var maður fríður sýnum; hafði ljóst hár og skegg, hár vexti, skorti 2 þuml. á 3 álnir danskar, herðamikill og hinn karlmannlegasti á velli. Hann þótti lögfróður. Sóttu menn oft ráð til hans, er einhvern vanda bar að; þótti hann ómjúkur og harður í orðum við alla þá, er beita vildu slægð og undirferli, eða hafa í frammi

rangsleitni; hann var maður hreinskilinn og einarður. Sigurður var atorkumaður og búhöldur góður; búnaðist þeim hjónum vel frá fyrsta til seinasta. Kona hans Elísabet var nokkuru hærri en meðalkvenmaður, nokkuð gildvaxin og holdug, fríð kona álits, einkum voru augun fögur; hárið var ekki mikið, skolbrúnt að lit, en fór vel. Hún var vel viti borin, glaðlynd og fróð um margt. Þau hjón áttu fimm börn, er náðu fullorðins aldri: Rannveig elzt; hún er dáin. Dóttir hennar er Elísabet kona Friðriks Wathnes kaupmanns á Seyðisfirði. Eiríkur, druknaði um tvítugt. Daníel, góður maður og vinsæll, gerðist bóndi; hann er lifandi enn, er þetta er ritað, kominn yfir áttrætt. Árni Gestur, hann sigldi til Kaumannahafnar og lærði þar beykisiðn, og er hann kom heim til Íslands aftur settist hann að á Seyðisfirði og var þar til æfiloka. Fyrstu árin þar stundaði hann iðn sína, en á seinni árum stundaði hann mest húsasmíði. Gestur var fjölhæfur smiður og vandvirkur. Dó í ágúst 1911.

Árni Sigurðsson er fæddur 16. apríl 1839. Árið 1863 gerðist hann sýsluskrifari hjá dönskum sýslumanni, er hafði aðsetur á Eskifirði, og var hjá honum tvö ár; þá fór hann til Túliníusar kaupmanns á Eskifirði og var bókhaldari við verzlun hans um 3 ár; þá keypti hann veitingahús á Vopnafirði og giftist þar um haustið 1868, Kristjönu Soffíu Stefánsdóttur frá Akureyri. Hún er fædd 12. janúar 1838. Foreldrar hennar voru Stefán Vigfússon, er lengi bjó á Barði við Akureyri, og kona hans Guðrún Gísladóttir, bónda í Eyjafirði. Árna græddist fé nokkurt á veitingahúsinu; þó seldi hann það eftir 4 ár, keypti bús-áhöfn, fékk jörð til ábúðar og gerðist bóndi. Bjuggu þau hjón 17 ár í Vopnafirði. Börn eignuðust þau 5, er náðu fullorðinsaldri og

hétu: Sveinn, Andrés, Þórður, Gunnlaugur og Rannveig Stefanía. Sveinn og Þórður fóru til Ameríku árið 1889. Þá var Sveinn rétt 20 ára, en Þórður 16 ára, hann er fæddur 21. marz 1873. Fargjald höfðu þeir að eins til Winnipeg. Sveinn réðist í járnbrautarvinnu; þá var verið að byggja járnbrautina, sem liggur um Baldur í Argyle. Hann veiktist af mislingum og var sendur aftur til Winnipeg; lá hann þar á spítala þar til hann varð heill heilsu aftur; þá fór hann suður til Dakota. Þórður réðist til hérlends bónda, alllangt austan Winnipegbæjar, mállaus og fákunnandi til vinnu; þar var hann fram eftir sumrinu, en kunni illa við sig; honum var ætlað mikið að vinna, en alt illa þegið er hann vann. Tók hann þá það ráð, að hann strauk úr vistinni nótt eina, með föggur sínar, til nágranna eins ekki alllangt frá, og beiddi hann viðtöku,—hafði kynst honum lítilsháttar. Hjá þeim bónda var Þórður svo því nær 2 ár og féll þar vel. Þar lærði hann enskuna og alla bændavinnu. Þá réðist hann til C.P.R. félagsins og vann á járnbrautum þess félags. Fór hann þá suður til Dakota og hitti þar Svein bróður sinn, er þá var farinn að kenna þar á alþýðuskóla. Fékk Þórður vinnu hjá honum og gott kaup.

Árni Sigurðsson, faðir þeirra bræðra, var lengi vel mótfallinn Ameríkuferðum, en eftir að synir hans fóru vestur, snerist honum smátt og smátt hugur við bréf þau, er þeir skrifuðu honum; lýstu þeir greinilega öllum ástæðum Íslendinga vestan hafs, er hann hafði áður átt kost á að lesa um, svo hann afréð að fara með konu og börnum þeirra tveimur, er hjá þeim voru heima, vorið 1892. Ís hamlaði skipinu fram eftir sumrinu, svo ekki varð komist af stað fyr en fyrstu daga ágústmánaðar.

Gekk ferðin vel alla leið til Winnipeg; þaðan fóru þau tafarlaust til Dakota og settust að nálægt Akra pósthúsi. Þegar fyrsta veturinn tók Árni heimilisrétt á landi einu, seinasta landinu er hægt var að fá með heimilisrétti þar um slóðir. Bjuggu þau hjón 7 ár á landinu. Þórður og Gunnlaugur voru oft heima hjá föður sínum og hjálpuðu honum að brjóta í akur, höggva skóginn og ryðja. Þess á milli unnu þeir hjá öðrum. Á þeim árum lærði Þórður að stjórna gufukatli við þreskingu. Árið 1899 seldi Árni þetta land og flutti búferlum norður til Manitoba. Hann nam þar land og Gunnlaugur annað. Þórður fylgdist með þeim og var hann oftast hjá foreldrum sínum bæði til að byggja, ryðja skóg, er þar var mikill, og brjóta. Árið 1902 keypti Þórður land þar í grend og kvæntist ungfrú Sigurrós Tómasdóttur, bónda þar í bygð. Bjuggu þau þrjú ár á landi þessu. Þeir mágar, Páll Tómasson og Þórður, keyptu um þær mundir þreskivél; þresktu þeir á hverju hausti og gerðu mikla þreskingu. Á þessu tímabili tók að byggjast fyrir alvöru Vantabygðin í Saskatchewan-fylkinu. Streymdi fólk þangað hvaðanæfa. Var látið mikið af landkostum þar og landrými. Þá fluttu þangað og námu þar lönd þeir félagar Jónas Tómasson og Ágústssynir, Jón og Axel. Þórður seldi þá land sitt og flutti vestur í marzmánuði 1906, með alt það hann átti, dautt og lifandi. Hann nam land í Sect. 24, Tsp. 33, Range .. fyrirvestan 2 hádegisbaug; það er skamt fyrir sunnan Litla Quill vatn. Fyrsta sumarið hafði Þórður aðsetur hjá Jónasi mági sínum og leigði af honum akurblett hans og það er til var brotið á Páls landi. Fékk Þórður góða uppskeru um haustið. Eftir sáningu braut hann á sínu landi 10 ekrur, flutti að byggingar-logga og heyjaði.

Fyrir Pál Tómasson braut Þórður 20 ekrur. Um haustið stýrði hann gufukatli við þreskivél, er fjórir menn keyptu í félagi, þrír enskir og einn Íslendingur, Jón Laxdal. Eftir þreskingu bygði Þórður á landi sínu íveruhús, úr loggum tóptina, þakið úr borðvið spónlagt, og fjós fyrir allar skepnur sínar. Svo fluttu þau hjónin með alt sitt á landið í byrjun desembermánaðar. Hafa þau stöðugt búið á því síðan og unað vel hag sínum. — Árið eftir að Þórður flutti burt úr Morden-nýlendunni seldi Árni faðir hans bújörð sína og búslóð. Kristjana kona hans var þá orðin mjög þrotin að heilsu og honum tekið allmikið að hnigna, enda voru þau bæði þá komin fast að sjötugu. Fluttu þau og Rannveig Stefanía dóttir þeirra með þeim norðvestur í land til Þórðar og Sigurrósar og hafa dvalið hjá þeim síðan. Rannveig Stefanía er nú, þegar þetta er ritað, gift Jónasi Tómassyni.

Árið 1909 ákvað fylkisstjórnin í Saskatchewan að koma á reglulegri héraðastjórn um alt fylkið; voru ákveðin héruð (Municipalities) og takmarkalínur þeirra allstaðar, er það ekki var búið áður. Fyrstu kosningar til héraðsstjórnar í Vatnabygð fóru fram í desember sama ár. Þórður Árnason bauð sig fram til oddvita (Reeve) í Elfros Municipality, og annar maður hérlendur, er hafði verið búsettur þar allmörg ár undanfarin; voru kosningar sóttar af allmiklu kappi á báðar hliðar, en svo lauk, að Þórður hrepti embættið með miklum meiri hluta atkvæða. Síðan hefir hann tvisvar verið endurkosinn, svo hann heldur embættinu enn: 1912. Þórður hefir alla jafna haft töluverð afskifti af pólitískum málum; er hann eindreginn liðsmaður frjálslynda flokksins. Á landi sínu hefir Þórður brotið nærfelt 120 ekrur og bygt 2 kornhlöður og

reisulegt fjós með heylofti yfir, en veggir undir loft er úr cementssteypu. Þau hjón hafa eignast 4 börn, 2 drengi og 2 stúlkur.

**Stefán, Sigurður, Jón og Sigbjörn Arngrímssynir.** — Arngrímur faðir þeirra bræðra var sonur Arngríms Jónssonar, er lengi bjó í Tunguseli á Langanesi, og seinni konu hans Guðrúnar Eiríksdóttur. Hann ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hann gat sjálfur unnið fyrir sér. Á efri árum sínum fluttu þau hjón austur í Vopnafjörð að Áslaugarstöðum; voru þar í tvíbýli fá ár, og fóru svo norður á Langanes aftur; Arngrímur yngri fór þá austur í Fljótsdalshérað og var vinnumaður þar í nokkrum stöðum þar til hann kvæntist Þorbjörgu Magnúsdóttur bónda á Kálfhóli í Eiðaþinghá, Jónssonar, Oddssonar. Þorbjörg ólst upp hjá föðursystur sinni Sigríði og manni hennar Hans Jakobssyni bónda á Gunnlaugsstöðum í Skógum í Suður-Múlasýslu. Þau Arngrímur og Þorbjörg byrjuðu búskap í Finnstaðaseli í Eiðaþinghá, 1875, og bjuggu þar sjálfstæðu búi þar til vorið 1882; þá seldu þau bú sitt, dautt og lifandi, og fluttu vestur um haf til Ameríku; lentu í Duluth í Minnesota og dvöldu þar eitt ár; þar fæddist Jón sonur þeirra. Næsta ár fóru þau til Pembina í Norður Dakota; þá tók Arngrímur heimilisréttarland á hálfum sectionar-fjórðungi í Garðar-bygð, og fluttu þau hjón þangað vorið 1885; þar bjuggu þau þar til Arngrímur dó 1896. Ekkjan hélt áfram búskap með börnum sínum 5: Stefáni, Sigurði, Jóni, Sigbirni og Soffíu. Tvö af þeim voru kornung er faðir þeirra féll frá. Árið 1905 og 1906 tóku þau sig upp og futtu búferlum norðvestur í Vatnabygð, en seldu landið suður frá. Sigurður nam land skamt fyrir vestan þar sem Elfros-bær er nú. Rennur Birkilækur gegn um land

hans í alldjúpu gili, og er skógur allmikill fram með læknum; bygði hann íbúðarhús á bakkanum vestan læksins. Var móðir hans þar hjá honum með Soffíu fyrsta árið.—Jón nam land lengra norður og vestur í Sect. 18, Tsp. 33, Range 14, og bygði þar íveruhús.—Stefán og Sigbjörn námu austurhelminginn af Sect. 24, Tsp. 33. Bygðu þeir þar loggakofa með torfþaki til að búa í og fjós allstórt úr torfi eingöngu. Nú, er þetta er skráð, hafa þeir bygt íbúðarhús dágott úr timbri, 2 kornhlöður og fjós. Árið 1908 keyptu þeir bræður þrír (ekki Sigurður) þreskivél. Hafa þeir þreskt á hverju hausti síðan og gert allmikla vinnu, en ekki munu þeir hafa grætt á því svo miklu nemi. Sumarið 1910 fór Sigurður suður til Montana í landskoðunarferð; tók hann þar heimilisrétt á landi einu og annar maður úr Vatnabygð, Áskell Brandsson. Fluttu þeir svo þangað. Sigurður kvæntist um það bil Höllu systurdóttur Bjarna Péturssonar frá Rangárlóni í Norður-Múlasýslu; hann býr vestur við haf, í Blaine. Sigurður leigir út land sitt, er hann á hér. —Jón kvæntist 1910 Sigríði Magnúsdóttur Melstað bónda í Garðar-bygð. Stefán kvæntist 1911 Margréti Þorsteinsdóttur bónda að Brekku í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu á Íslandi og seinni konu hans Þórunnar.

Þorbjörg Magnúsdóttir, móðir þeirra Arngrímssona, andaðist haustið 1912.

**Guðvaldur Jónsson og Eymundur sonur hans.** —Guðvaldur er ættaður úr Axarfirði í Þingeyjarsýslu. Faðir hans var Jón Pétursson, er bjó í Sandfellshaga í Axarfirði, allan sinn búskap, Þorsteinssonar. Þótti hann með gildustu bændum á sínum tíma. Kona hans, móðir Guðvalds, hét Guðrún Einarsdóttir, bónda í Klifshaga í Axarfirði, Hrólfs-

sonar. Kona Guðvaldar Jónssonar er Kristín Þorgrímsdóttir, bónda á Hámundarstöðum í Vopnafirði Péturssonar á Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, Péturssonar, Péturssonar, Sveinssonar, Filippussonar. Þessir Pétrar þrír í röð bjuggu allir hver eftir annan á Hákonarstöðum og Pétur bróðir Þorgríms sá fjórði. Sonur hans var Pétur Jökull, þjóðkunnur hagleiksmaður og vel að sér um margt. Bjó hann nokkur ár einnig á Hákonarstöðum, fór síðan til Ameríku og settist að í Íslendingabygðinni í Minnesota, nú dáinn. Kona Þorgríms bónda á Hámundarstöðum, móðir Kristínar, hét Sigríður Árnadóttir, bónda í Húsey í Hróarstungu, Stefánssonar Schevings prests að Presthólum. Kona Árna bónda hét Kristín Guðmundsdóttir bónda í Húsey, Filippussonar.

Guðvaldur og Kristín giftust á Hámundarstöðum sumarið 1868 og bjuggu þar rausnarbúi í 20 ár. Var alment við brugðið gestrisni þeirra hjóna, höfðingsskap og alúð við alla jafnt, ríka sem snauða. Árið 1888 seldi Guðvaldur jörð sína og bú og réðist til Ameríkuferðar með alla sína fjölskyldu, sjö börn, systur sína og fleira venzlafólk þeirra hjóna. Lánaði hann nokkrum fargjald, en "Hálfdánar-heimtur" urðu á sumu af þeim peningum eftir að vestur kom. Fyrsta árið í Ameríku voru þau til húsa hjá Árna Árnasyni, bróðursyni Kristínar, er nú býr við Hensel, N.-Dak. Næsta vor fluttu þau á land, er Guðvaldur tók með heimilisrétti land það er í Akrabygð á Sandhæðunum svonefndu sunnan Tunguár í N.-Dak. Landið er ákaflega sendið og jarðvegur ófrjór. Auk þess var landið því nær alt viði vaxið og því ákaflega ervitt að vinna það í akur. Á land þetta fluttu þau eftir ársdvöl hjá Árna. Fyrst bygði Guðvaldur torfkofa og refti yfir. Í kofanum

lifðu þau með skyldulið sitt 2 eða 3 ár, þá reisti hann timburhús með lofti, gott og allstórt nokkru seinna bygði hann einnig timburfjós. Á Sandhæðunum bjó Guðvaldur í 10 ár. Græddist honum þar fé nokkurt þó ervitt væri margt. Hann hreinsaði og braut í akur allmikið af landinu og fékk uppskeru nokkra einkum seinustu árin. Hann sjálfur og eldri sonur hans unnu að þreskingu á hverju hausti. Elztu stúlkur þeirra unnu og út, þó ungar væru; voru þær stundum í vistum langtímum saman. Drógust þannig saman nokkrir peningar að heimilinu, er brúkaðir voru til að byggja það upp og auka bústofninn. Héldust þar í hendur ráðdeild og atorka Guðvalds, þrifnaður og reglusemi Kristínar. Gestrisnin var hin sama og áður, enda var þar sjaldan gestalaust. Svo hefir það verið einlægt og verður meðan þau ráða húsum.

Börn þeirra hjóna eru öll fædd á Hámundarstöðum. 1. Sigríður elzt, hún er gift Jóni Hallgrímssyni frá Vakursstöðum í Vopnafirði; búa þau í Roseau-bygð í Minnesota. 2. Guðjón; hann á norska konu; rekur verzlun fyrir eigin reikning suður í Iowa í Bandaríkjunum. 3. Sigurveig, ógift; hefir hún unnið út svo að kalla stöðugt síðan hún var unglingur, dvalið að eins tíma og tíma heima. 4. Stefanía Hallfríður, gift enskum manni, er rekur verzlun í Grandview. 5. Elín, gift Haraldi Björnssyni Einarssonar frá Brú á Jökuldal; búa þau að Kristnes pósthúsi í Vatnabygð. 6. Björg, gift Sveini lögfræðingi Björnssyni frá Selstöðum í Seyðisfirði; búa þau í Seattle-borg. 7. Sigþrúður, ógift heima, og 8. Eymundur.

**Einar Jónsson,** bróðir Guðvalds, bjó 4 ár á Hámundarstöðum eftir burtför bróður síns; árið 1892

seldi hann jörð sína og bú og fór til Ameríku með konu sína Hallfríði, systur Kristínar, og 2 dætrum þeirra hjóna; þau áttu ekki fleiri börn á lífi. Heitir hin eldri Stefanía. Var hún heitbundin ungum manni, Bjarna Guðmundssyni frá Ytra-Núpi í Vopnafirði. Hann fór nokkuru áður vestur um haf og settist að í Íslendingabygðinni í Minnesota. Óskaði hann eftir að hún kæmi og foreldrar hennar, svo þau fóru vestur alla leið til Minnesota. Þau festu þar ekki yndi og dvöldu þar að eins tæpt ár; þau þráðu bæði að komast til bróður og systur, tóku sig upp og fluttu norður til Dakota með yngri dóttur sína, er Guðvaldína heitir, og settust að hjá Guðvaldi; voru þau þar í 2 ár, þá fluttu þau suður í Garðar-bygð. Höfðu þau eignast nokkra nautgripi og hænsni, leigðu þar hús og engi og leið vel. Er þau höfðu verið þar í 2 ár tók Hallfríður þungan sjúkdóm, er leiddi hana til bana. Þá fór Einar aftur til bróður síns með dóttur sína, og þar lézt hann 11. apríl 1914.

Árið 1899 seldi Guðvaldur landið á Sandhæðunum og futti búferlum til Roseau-bygðar í Minnesota; flutti hann búslóð sína alla, lifandi og dautt. Allmargir Íslendingar úr N.-Dakota voru um það skeið að flytja þangað og námu þar lönd; var látið mikið yfir því, hvað þar væri bjargvænlegt. Synir Guðvalds, Guðjón og Eymundur, tóku þar með heimilisrétti sitt landið hvor. Guðvaldur gat ekki fengið land þar með heimilisrétti. Einar tók þar land með tilstyrk þeirra feðga. Þá var hann orðinn blindur fyrir skömmu. Svo nú höfðu þeir feðgar 3 lönd yfir að ráða. Á ein rennur gegn um bygð þessa, er nefnist Roseau-á. Land Eymundar lá að ánni annars vegar og þar á bakkanum bygðu þeir vandað og stórt íbúðarhús; var þar ofurlítil hæð, er

húsið stóð á. Seinna bygðu þeir útihús bæði yfir hesta, nautgripi og sauðfé. Þarna bjuggu þeir í 8 ár. Á öndverðu þessu tímabili réðist Guðjón til verzlunarmanns eins í Badger og vann hjá honum mörg ár. Þar kvæntist hann norskri stúlku, sem fyr er sagt. Og á þessum árum giftist Elín Haraldi Björnssyni, sem áður er ritað. Fljótt kom það í ljós, að ekki mundu Íslendingar, er voru allmargir búnir að nema þar lönd, verða mosavaxnir í Roseau. Kostir eru nokkrir og góðir þar sem víðar, t.d. slæjur svo að segja óþrjótandi, grasið oftast mikið og gott, skamt til skógar og því auðvelt að afla sér byggingarefnis og eldiviðar. Þar er og sögunarmylna, er sagar fyrir þá, er þess beiðast fyrir sanngjarna borgun. Fiskveiði er og nokkur í ánni. En til ókosta má telja: Landið liggur lágt og er illa fallið til akuryrkju. Áin flæðir yfir oft í leysingum á vorin og enda oftar þegar stórregn koma, er þá mjög ilt og stundum ófært yfirferðar; afar langt er til járnbrautar og þvínær ókleift að selja afurðir búanna. Löndin eru í lágu verði, og ekki hægt að fá lán gegn veði í þeim nema lítilsháttar. Að vísu brutu sumir þar spildur nokkrar og sáðu höfrum; sum árin varð uppskera engin sökum vatnsaga, en aftur sum árin fékst þó nokkuð. Landar fóru því smátt og smátt að tínast burtu, fóru flestir norðvestur í Vatnabygðina í Saskatchewan, er þá var sem óðast að byggjast. Fór mikið orð af því hvað hér væri mikið landrými og landkostir stórmiklir. Eymundur Guðvaldsson var einn af þeim, er fýsti burt. Árið 1906 lagði hann af stað norðvestur til Vatnabygðar til að skoða landið. Hitti hann þar Harald mág sinn og föður hans; voru þeir seztir að á heimilisréttarlöndum er þeir höfðu numið. Eymundur fór allvíða um og festi sér land skamt fyrir

austan Birkilæk, eina mílu beint norður af þorpinu Elfros, er þar reis upp um leið og járnbraut var lögð. Í þessari sömu section hafði hann augastað á landi handa Guðvaldi föður sínum, svo þegar hann var kominn heim aftur úr langferð þessari, fór Guðvaldur þegar vestur og festi sér þetta land. Horna þau saman, lönd þeirra feðga; liggja þau bæði nokkuð hátt og hafa gefið góða uppskeru. Vorið eftir, 1907, seldu þeir eða víxluðu löndum sínum í Roseau, tóku sig upp og fluttu nær alla sína búslóð og allmikið af söguðum borðvið, fyrst norður til Winnipeg og þaðan norðvestur til Vatnabygðar. Eymundur bygði þegar um sumarið veglegt og vandað íbúðarhús á sínu landi, og hefir fjölskyldan búið í því síðan. Fjós bygðu þeir sama sumarið með torfveggjum, nægilega stórt fyrir alla þeirra nautgripi og hesta. Á landi Guðvalds bygðu þeir einnig rúmmikið og gott loggahús. Síðan hefir Eymundur bygt mikið: kornhlöðu, tvö fjós með þrumuleiðara, íshús, mjólkurhús og kornhlöðu á landi föður síns.

Þegar þetta er ritað, 1913, er búið að brjóta í akur meginið af báðum löndunum; er öll sú vinna gerð af hinni mestu snild. Vírgirðingu hefir Eymundur einnig sett kring um land sitt alt.

Einar Jónsson, bróðir Guðvalds, sá er fyr er frá sagt, tók land árið 1909 með ráði bróður síns og frænda, þó blindur sé; liggur það landnám nálægt Haraldi Björnssyni. Hjálpuðust þeir Haraldur og Eymundur að því að vinna þar hina lögákveðnu skylduvinnu gegn borgun í uppskerunni. Hús var og bygt á því landi og það inngirt. Hafði Einar aðsetur þar stundum ásamt dóttur sinni. — Eymundur kvæntist haustið 1911 Ingibjörgu Eiríksdóttur frá Winnipeg, Sumarliðasonar. Móðir henn-

ar var Þorbjörg Jónsdóttir. Eymundur er hinn mesti atorkumaður, sem hann á kyn til, og verkhagur mjög. Stendur bú þeirra feðga með blóma.

*Árni Sigurðsson.*

---

**Lars Hogan.**—Hann var fæddur nálægt Stafangri í Noregi 14. des. 1855. Kominn af góðu bændafólki þar. Fluttist til Bandaríkjanna 15 ára gamall. Nam síðar land í grend við Pembina í Norður-Dakota. Bjó þar að eins fá ár, og fór þaðan þangað sem kallast Pembina Mountains, eigi langt frá Milton. Þar stundaði hann búskap um 22 ár. Til Saskatchewan í Canada flutti hann árið 1904, nam land í nánd þar sem nú stendur Kristnes-pósthús, fáar mílur norður frá bænum Leslie. Þar bjó hann til dauðadags, sem bar að 1. des. 1915.

Árið 1880 kvæntist Lars Hogan ungfrú Sigrúnu Björnsdóttur, Pétursonar frá Valþjófstað á Fljótsdalshéraði á Íslandi. Var Björn þjóðkunnur maður beggja megin hafs. Kona Björns en móðir Sigrúnar, var Ólafía, dóttir séra Ólafs Indriðasonar skálds og systir þeirra nafnfrægu Ólafsona, Páls og Jóns.

Þeim hjónum, Hogan og konu hans, var 10 ‿rna auðið. Tvö þeirra dóu í fyrstu æsku. Hinna átta var dóttir þeirra Martha elzt, er giftist Friðrik kaupmanni Vatnsdal í Wadena; hún dó árið 1909, eftir stutt hjónaband. Á lífi nú eru börn þeirra sjö: Paul George, Deputy Sheriff og Deputy Clerk of Court í Wynyard. Ólafur Carl, bústjóri hjá móður sinni. Anna, gift Kristjáni S. Kristjánssyni bónda við Kristnes. Clara, gift Wilhelm H. Nielsen bónda nálægt Wynyard. Jónína Margrét, stundar hjúrunarfræði í Saskatoon. Elizabet, skólakennari og Anna, yngst, heima hjá móður sinni.

Lars Hogan var frá fyrstu landnámstíð Íslendinga í Norður-Dakota ætíð eins og einn af þeim. Þátt í því hefir að sjálfsögðu átt það, að kona hans

stóð í nánu frænda og vina sambandi bið marga þeirra. Líka má fullyrða, að líf hans var sönn mynd af nýbyggjara örðugleikunum á þeirri tíð. Það var saga stríðs og sigurs. Hann var fátækur lengi og átti í vök að verjast efnalega. Það var stríðið, en hver var þá sigurinn? Já, hann var nú margvíslegur. Hogan lét aldrei hugfallast, þó á móti blési, en vann með frábærri atorku og iðni og trúmensku fyrir heimili sínu fram á seinasta daginn. Hann möglaði aldrei, var aldrei óþolinmóður né ergilegur, þótt þungur væri róðurinn. Hann öfundaði ekki þá samferðamennina, sem byrsælli virtust vera, en var ætíð boðinn og búinn að rétta hjálparhönd öðrum til góðs og greiða. Hann var sama, óbrigðula valmennið til enda. Hann bjó ekki ætíð einn að sínu, en þáði aldrei neitt af öðrum. Hann gat sagt með fullri djörfung: "Þessar hendur hafa unnið fyrir mínum nauðþurftum og þeirra, sem með mér voru." Efnahagur hans fór batnandi á síðustu árum og var í góðu lagi, þegar hann skilaði af sér.

Börn Hogans sjö, sem nú lifa, eru öll hin mannvænlegustu. Sýna, að þau hafa fengið gott uppeldi. Eru vel mentuð og hin gjörvulegustu. Og hver sem nú lítur yfir þann fríða hóp, myndi eðlilega hugsa á þá leið, að mikil gæfa hlyti að hafa fylgt þeim foreldrum, sem svo vænan og veglegan skerf hafi lagt til í stofn hinnar nýju þjóðar þessa lands.

**W. H. Paulson.**



# Stóra sleifin.

*Eftir G. Faulkner.*

---

Eitt heitt sumaıkvöld sátu börn og móðir þeirra á hlað-svölunum og voru að horfa á stjörnurnar blikandi á himninum.

"Líttu á stóru sleifina," sagði einn af drengjunum; "hvað hún er fjarska björt í kvöld. Sérðu þessar tvær stjörnur þarna, þær eru leiðarstjörnur og vísa alt af beint á Norðurstjörnuna? Það er stjarnan sem farmennirnir fara eftir, þegar þeir sigla skipum sínum yfir höfin."

"Já", sagði eitt af yngri börnunum, "eg sé Norðurstjörnuna fjarska vel núna. Veiztu, mamma, þeir sögðu okkur í skólanum, að á Englandi sé Sleifin kölluð Karlsreiðin, því reið þýðir vagn; en mér sýnist það ekki vera neitt líkt vagni, sýnist þér?

"Nei", svaraði stóri bróðir; "eg er því sammála, systir, það er ekkert líkt vagni, og ekki er það heldur líkt birni, og þó kalla þeir það stundum Stóra björninn, og smærri stjarnklasann rétt hjá kalla þeir Litla björninn.

"Mér sýnist það hreint ekki líkt neinum birni", sagði minsta stúlkan. "En mér sýnist það vera líkt stórri sleif og smærri stjörnuklasinn er eins og lítil sleif." Æ, mamma, vertu væn og segðu okkur söguna um það?

"Já", sagði móðir þeirra, "eg skal segja ykkur æfa-gamla sögu, sem hún amma mín sæla var vön að segja mér þegar eg var lítil telpa:

"Einu sinni, fyrir langa-löngu, var óttalegt hallæri um alt land. Sólin var svo skelfing heit, að hún þurkaði upp allar ár og læki, og af því sem ekkert regn féll í marga daga, þjáðist fólk ógurlega af þorsta. Lítil stúlka og móðir hennar áttu heima í svolitlu húsi rétt við skógarjaðarinn, og þegar þær gátu ekki lengur fundið neitt vatn að drekka, varð veslings móðir litlu telpunnar veik af sótthita, og hún var altaf að biðja um að dreypa á köldu vatni, þangað til litla stúlkan gat ekki lengur borið það og tók litla tinsleif og hélt af stað alein út í dimma nóttina. Hún hélt áfram og áfram gegnum myrkviðinn og leitaði alstaðar að liltum læk eða uppsprettu, en hvergi gat hún fundið vatn. Þá lagði hún frá sér sleifina og bað til himnaföðurins um að hjálpa sér. Og þegar hún leit á sleifina, hafði bæn hennar verið heyrð, því hún sá hana fylta tæru, köldu vatni.

Þó að hún væri sjálf þyrst, örmagna, bragðaði hún ekki á vatninu, heldur hljóp heimleiðis eins fljótt og fætur toguðu. Mitt á hlaupunum var hún orðin svo máttvana, að hún hnaut um stein og hrasaði. Þá fann hún hlýlega komið við höndina á sér og sá að það var svolítill hvolpur, sem ýlfraði ámátlega eftir dropa af vatni. "Mömmu minni mundi ekki líka að láta lítinn hvolp örmagnast", sagði hún við sjálfa sig og helti fáeinum dropum af blessuðu vatninu í lófa sinn og lét hvolpinn lepja, og samstundis hrestist hann svo við að hann stóð í fætur og gelti fram þakkir sínar af gleði.

Litla stúlkan hafði ekki séð hvað gerst hafði um sleifina hennar, en hún hafði skyndilega breyzt úr tini í silfur og hún tók meira vatn en áður. Hún hljóp nú eins hratt og hún gat, því hún var svo fjarska hugsjúk um aumingja mömmu sína ; en áður langt leið stöðvaði hana hávaxinn ferðamaður, sem brosti inn í augu hennar, benti á skrælnaðar varir

sér og rétti út höndina eftir sleifinni hennar. "Mamma mín mundi vilja láta mig víkja að örmagna ferðamanni," sagði hún, og hélt fram til hans sleifinni. Og alt í einu, meðan ferðamaðurinn var að drekka, breyttist sleifin úr silfri í gull, og gull-sleifin var fylt á barma. En litla stúlkan sá ekki þessi umskifti.

Hún var örmagna og að-framkomin, en ekki tók hún sér vatnsdropa sjálf. Hún flýtti sér heim til að gefa það mömmu sinni. Þegar hún bar það að vörum hennar, lauk hún upp augunum og hrestist og styrktist af nýju. Og þá sá móðirin litlu hugprúðu dóttur sína, og hún bar sleifina að vörum barnsins, og meðan þær skiftu á milli sín hressandi vatninu bar til dásamlegt atvik: gull-sleifin breyttist í demantssleif, alsetta glitrandi steinum. Þá virtist hún hefjast upp, upp, alla leið á himininn. Og fjarlag rödd af himni sagði blíðlega: "Blessaður sé sá, sem gefur bikar af köldu vatni í mínu nafni."

Og nú, þegar við horfum á þessar skínandi stjörnur, sem valda því að "Demants-sleifin" glitrar á festingunni, skulum við hugsa um þessa gömlu sögu um litlu stúlkuna og fallega ástar-viðvikið sem hún afrekaði.

—*Þýðing eftir Kamban.*



# Enn um Brasilíuferðir.

*Eftir Jón Jónsson frá Mýri.*

---

Eftir lestur greinar Þórkalls biskups Bjarnarsonar: "Frá Grænlandi til Brasilíu," sem birtist í þessa árs Almanaki (1916), fann eg fólkið að máli sem nú er flutt frá Brasilíu til Kanada, og fékk dálitlar upplýsingar hjá því, um Brasilíufarana. Og birti hér það af þeim, sem mér finst að helzt mundi svala forvitni þeirra, sem bera enn rækt til þessa fólks, eða eru fróðleiks þyrstir í þessa átt. En býst við þeim fáum meðal lesenda Almanaksins, og verð því fáorður.

Fólkið sem fór frá Íslandi til Brasilíu árið 1863 var: Guðmundur Guðmundsson frá Halldórsstöðum í Reykjadal, og börn hans 4, Magnús, María, Ingibjörg og Jensína. Kristrún Sigurðardóttir Magnússonar, frá Hólum í Laxárdal. Jóel Jónsson frá Sandvík í Bárðardal, kona hans Sesilía Andrésdóttir, og börn þeirra, Andrés, Jónas, Elín og Sigríður. Baldvin Jónatansson, og kona hans Guðný Jónsdóttir, og börn þeirra, Sigríður, Karl og Sigurgeir úr Bárðardal. Hallgrímur Þorkelsson, frá Viðikeri, og kona hans Anna Pálsdóttir, og börn þeirra, Páll, Vernharður, Sigtryggur, Þorkell og Hólmfríður. Sigríður Friðriksdóttir, ekkja Baldvins Jónatanssonar, á Hrappsstöðum í Bárdardal, og sonur þeirra Karl. Svo er Jens Jensson Buck. Sigurbjörn Jóakimsson Björnssonar frá Hrappsstaðaseli við Bárðardal. Árni Kristjánsson Vigfússonar, (Ljósvetningur).— Í Kaup-

mannahöfn slóst í förina: Árni Kristjánsson Vigfússonar, Söndal, frá Sunnudal í Vopnafirði, kona hans Guðrún Halldórsdóttir (systir Ágústs hómópata), og börn þeirra, Halldór og Valgerður. Og Jón Sigurðsson úr Skagafirði?

Jón þessi veiktist af kóleru, í Kútshöfn við Hamborg, og dó þar á sjúkrahúsi. Sömuleiðis Árni Kristjánsson, Hólmfríður Hallgrímsdóttir og barn sem Guðrún Halldórsdóttir fæddi þar. Vatn handa skipinu tekið úr Hamborgarelfunni, og það talið orsök veikinnar. Þetta tafði ferðina mikið, og gerði hana ömurlegri.

Af því fólki sem fór til Brasilíu hefir lifað til skams tíma: Magnús (Guðmundsson) Ísfeld og kona hans Elín Jóelsdóttir. Þau fluttu til Kanada 1905, með 9 börn, og búa suðaustur af Wynyard, Sask. En í Brasilíu eru: Andrés Jóelsson. Hann átti þýzka konu, sem nú er dáin. Átta börn þeirra lifa. Sigríður Jóelsdóttir og Sigríður Baldvinsdóttir, ekkja Sigurbjarnar, þeirra börn 7. Karl Baldvinsson (bróðir Sigr.) og kona hans Valgerður Árnadóttir, þau eiga 5 börn. Sigurgeir Baldvinsson, kona hans þýzk, börn þeirra 7. Anna Pálsdóttir, Þorkell Hallgrímsson, kona hans þýzk-svissnesk, börn 7. Kristrún Sigurðardóttir, maður hennar Svíi, eiga 8 börn. Halldór Árnason Sönndal, kona hans frönsk, eiga 8 börn. Jónas Friðfinnsson (sem fór 1863) átti þýzka konu, lifa 7 drengir þeirra.

Dætur Guðm. frá Halldórsstöðum giftust tvær Dönum en ein Þjóðverja, áttu allar börn. Fyrir nokkru lifðu tvær,

Efnahag Íslendinga í Brasilíu telur Brasilíu-Magnús líkan og hér í nýlendunni. Sumir hafi alt af verið efna litlir og skuldugir, en þó komist neyðarlaust af. Aðrir vel efnaðir, en sumir orðið ríkir, þó

engir af landbúnaði, vegna óhagfeldra landtökulaga, og stjórnarfyrirkomulagins. Telur það fólk mestan ókost Brasilíu.

---

Löngun hefi eg til að leiðrétta það sem mér finst rangt í áminstri grein biskupsins. Sagan um niðurskurðinn á laugardaginn fyrir páska, er frá vorinu 1822, en ekki 1859. En fyrir páskana var þá gefið mikið af við í Bárðardal og víðar, þar sem náðist til hans ; sumstaðar öllum fénaði. Tóskapur og smiðar sett alveg til síðu, og varð þetta mikið til liðs, hjá lægnaðar mönnum. Á sumum bæjum í Lundarbrekkusókn féll nokkuð af sauðfé, og afnot rír af kúm. En sumstaðar voru góð fénaðarhöld. Það man eg vel að allar ær sem afi minn, Ingjaldur Jónsson á Mýri, setti á haustið áður, voru með lömbum um fráfærur. Hann skar aðra kúna sína seint um veturinn af heyjum. Og fyrstu lambám gefið lítið eitt af mat ; og heyið alveg gefið upp. Var það eina skiftið í búskap hans að fyrningalaust yrði. Þetta vor hjálpaði Halldór á Bjarnastöðum helst um hey í Bárðardal. Skömmu síðar dó hann. Man ekki að eg heyrði hann talinn hvatamann Grænlandsfarar. En Friðrik bróðir hans var einn, og Hálfdór Jóakimsson, sem bjó á Brenniási í nágrenni við Friðrik, þegar Grænlandsför var mest rædd, að minni meiningu. Það meina eg að væri nokkru fyrir 1859. Þá hafði verið venju lengur hafislaust við landið og bölið, sem af ísnum leiðir ekki eins minnisstætt. En jarðnæðisleysi, saurugur sveitakrítur o. fl., mörgum óánægju efni. Verið getur að sumir hafi haft í huga Grænlandsför, þegar á Ljósavatnsfundinn kom ; en engin sönnun þess er það, þó þessir áminstu menn, (Hálfdór og Friðrik) væru meðal Brasilíufaranna. Mín meining er að margir fleiri en Einar í Nesi hafi vitað um útflutning frá Norðurálfunni í ýmsar áttir.

En þá var að velja þá leiðina sem hagfeldust væri. Og þá kom Einar í Nesi með sín miklu hyggindi og þekkingu, og hvatti menn til að fá fríann flutning til Brasilíu, sem talið var að stæði þá til boða. Á þann hátt gat landið losast við efnalaust fólk, sem hafði orðið fyrir efnatjóni í harðindunum, af fyrirhyggjuleysi, jarðnæðisskort eða öðru, sem ekki var létt að ráða bót á. Það man eg að snemma var sagt að Einar mundi ekki sjálfur hugsa til Brasilíuferðar, treysti ekki heilsu sinni að þola sjóferðina. Og sennilegt að hann hafi ekki síður hugsað um hag þeirra sem eftir yrðu.

---

Í byrjun ritgerðar þessarar stendur: "Fólkið sem fór frá Íslandi til Brasilíu árið 1863", —á að vera *1873*.

---

## LEIÐRÉTTINGAR.

Í Almanakinu 1914 bls. 72, er í ættfærslu fyrri konu Sigurgeirs Péturssonar, afi hennar nefndur Jón f. *Jónas*. Og Anna síðari kona Sigurgeirs var Jónsdóttir frá Mýri, systir Jóns í Mjóadal, bróðurdóttir Sigurðar á Gautlöndum, föður Jóns þar alþingismans. Börn Ásmundar Davíðssonar og Guðnýjar Jónsdóttir á Stóruvöllum, og börn Jóns og *A*ðalbjargar í Mjóadal voru systkinabörn í báðar ættir. Sjö þau Mjóadals systkinni fluttu vestur um haf.

Á 65. bls. er Páll, langafi Jóns Metusalemssonar, talinn Guðlaugsson, en hann var Ásmundsson, bróðir Gísla, afa Einars í Nesi og Herdísar, konu Davíðs á Stóruvöllum í Barðardal.

*Jón Jónsson frá Mýri.*

---

Í Almanakinu fyrir 1916 segir að Magnús póstur Hallgrímsson, bróðir Helgu, konu Jónasar Jónassonar, prentara við Íslendingafljót hafi "dáið í Pembina fyrir fám árum", en það er rangt, hann dó við Íslendingafljót 1890.

Misprentast hefir og heiti eins af sonum Sigurðar Sigurbjörnssonar í Árnesi, er hann nefndur Friðjón, en heitir *Friðgeir*.

Í byrjun kaflaus um Benedikt Arason hafa línurnar ruglast og er góðfús lesari beðinn að lesa í samhengið.

# Sumarliði Sumarliðason, gullsmiður.

Eftir *Friðrik J. Bergmann.*



Sumarliða gullsmið Sumarliðason má óhætt telja í hópi hinna merkustu Vestur-Íslendinga. Hann er nú orðinn maður há-aldraður, hefir þrjá um áttrætt, á heima vestur á Kyrrahafs-strönd, í dálitlum bæ nálægt Seattle í Washing-

ton-ríki, sem heitir Tumwater, og er nú orðinn blindur. Til Vesturheims mun hann hafa komið árið 1884, og settist að í litla þorpinu í Norður-Dakota, sem kent er við Garðar Svafarsson, þann er forðum fann Ísland. Þegar hann kom vestur, átti hann þegar langa og söguríka æfi að baki. Hann hafði verið víðförulli utan Íslands flestum öðrum, hafði ferðast um Norðurlönd og verið þar á ýmsum stöðum langdvölum. Hann hafði safnað mikilli þekkingu og kunnáttu bæði í smíðum, jarðrækt og fiskiveiðum, og verið sannur frömuður allra framfara, hvar sem hann náði til á ættjörðinni. Um þetta var honum manna bezt sýnt. Hagleiksmaður hefir hann alla æfi verið með afbrigðum, sannur völundur í alls konar smíða greinum, og einn þeirra manna, sem á alt lagði gjörva hönd. Auk þess var jarðrækt og hvers konar nýjar umbætur og tilraunir í þeirri grein, eftirlæti hans. Hann reyndi þar ýmislegt, sem aðrir menn létu sér ekki hugkvæmast, og hepnaðist oft ágætlega. Eftir að hann hafði náð svo háum aldri, að flestir eru seztir í helgan stein og hættir að hugsa og starfa, hafði hann aldintrjáa rækt fyrir stafni, sem þótti svo aðdáanleg, þarna í Eden aldinaræktarinnar á Kyrrahafsströndinni, að Luther Burbank-félagið, sem frægst er í Bandaríkjum, veitti trjáræktarstörfum hans eftirtekt, gerði hann að heiðursfélaga og sæmdi verðlaunum. En þá var sjón hans að bila, svo þessi starfsami hagleiksmaður, sem sí-starfandi hefir verið alla æfi, með hugann fullan af alls konar umbóta hugsjónum á ótal sviðum, varð að leggja verkfærin frá sér og setjast að, eftir sitt langa dagsverk. Hann á ágæta og umhyggjusama konu, Helgu Kristjánsdóttur að nafni, sem hefir verið honum traustasta meðhjálp og borið velferð hans og sæmd fyrir brjósti seint og snemma, með frábærum dugnaði og ástúð. Börn hans eru hin mannvænlegustu, sum heima, yngsti sonurinn með frábærar gáfur við nám og fullorðin dóttir, sem er ágætlega mentuð kenslukona, — sum gift og búandi í nágrenninu, svo það er ekki fáment kring-um þenna prúða öldung. Ber fjölskyldan öll dæmafáa lotningu fyrir honum, eins og hann líka á margfaldlega skilið. Sumarliði hefir ávalt verið maður með höfðingslund, prúðmenni hið mesta í umgengni og á mannamótum, skýrleiksmaður hinn mesti og

svo fjölfróður, að yndi hefir verið við hann að tala.

Að langri æfi liðinni, hefir slíkur maður frá mörgu að segja, þeim til fróðleiks og gagns, sem yngri eru. Þess vegna seildist *Almanakið* til hans og bað hann nú að segja sér í rökkrinu eitthvað af endurminningunum mörgu, sem hann geymir sér í huga. Dóttir hans, Halldóra kenslukona, hefir verið svo góð, bæði föður sínum blindum, og fróðleikseiskum lesendum Almanaksins, að færa frásögu hans í letur, og sá, sem þetta ritar, yfirfarið, afritað og fært í stílinn: En að lang-mestu leyti eru þetta orð öldungsins sjálfs, eins og bezt var hægt, með þeim tækjum, sem fyrir hendi voru, að ná þeim af vörum hans. Þykist eg þess fullvís, að lesið verði og veitt eftirtekt, bæði nær og fjær. Sumarliði gullsmiður Sumarliðason í Æðey mátti heita nafnkunnur maður um alt Ísland, er hann fluttist til Vesturheims. En nú látum við hann sjáfan segja frá.

1.

*Uppvöxtur og æska.*

Eg, Sumarliði Sumarliðason, er fæddur 23. febr. 1833 í Skálholtsvík í Hrútafirði í Strandasýslu. Var mér komið til fósturs í Bakkaseli í sömu sveit með hjónum, er hétu Gísli Jónsson og Sigríður Bjarnadóttir. Rann eg þar upp eins og fífill í túni og dvaldi þar hátt á fjórða ár. Var þá Sigríður fóstra mín orðin ekkja; þeim hjónum hafði ekki orðið barna auðið. Fluttist þá fóstra mín með mig og litla búið sitt vestur á Kollabúðir við Þorskafjörð, til föður míns. Má geta þess, að Kollabúðir eru hinn gamli þingstaður Vestfirðinga-fjórðungs í fornöld. Sjást þar margar búðartóftir, eins og á Þingvelli. Liggja tveir aðal þjóðvegir upp frá bænum, annar, sem nefnist Kollabúða heiðarvegurinn, sem liggur til Strandasýslu, en hinn yfir Þorskafjarðarheiði til Ísafjarðarsýslu. Ólst eg þar upp á vegum fóstru minnar, með líkum hætti og venja var til á fátæku bændabýli.

Átta vetra var eg orðinn fluglæs, gat þulið Hryggjarstykkju—svo kallað safn af Noregskonunga sögum—spjaldanna á milli og hafði mikið gaman. af Var það fyrsta bókin. sem eg eignaðist. Barnalærdóminn var eg allan búinn

að læra níu vetra, svo að eg gat farið með allar innvitnanir laukrétt, og þess utan eitthvað ofurlítið í reikningi. Aftur var minna um það, að mér væri kent að skrifa. Einhvern tíma á sjöunda ári eignaðist eg stafrófið. Var það ferðamaður, sem skrifaði og gaf mér, er hann var veðurteptur á Þorskafirði. En pappír hafði eg ekki annan, en óskrifuð sendibréfa brot. Góða fjaðurpenna lærði eg snemma að skera.

Þegar á þessum barnaárum, á skeiðinu frá sjö til átta ára, held eg, að mér hafi smám saman skilist, að allar leiðir til skólamentunar væri mér lokaðar. En þá kom þeim mun meir í ljós löngunin til að fá einhverja þekkingu á smíðum. Fór eg snemma að bera mig eftir henni og verja öllum tómstundum til að þokast þar eitthvað í áttina.

Vorið 1844 fluttist mislingasótt til Íslands og æddi um land alt, með margs konar meinum og kvillum, sem hún vanalega hefir í eftirdragi. Allir á heimilinu lögðust í eina dyngju og var eg sjálfur einn hinna fyrstu. Eftir fjögurra daga legu, varð eg þó að fara á fætur til að takast á hendur að sitja yfir fé. Sumarið var mjög rigningasamt og átti eg oft slæma daga. Var hvað ofan í annað veikur af kvillum, sem mislingasóttinni fylgja. Var mér þá oft og einatt brugðið um leti, þó eg gæti ekki að gert. Gekk það svo, þar til um haustið, nokkuru eftir réttir, einn kaldan morgun, er fé var tekið frá til slátrunar, að eg féll niður svo máttvana, að mig varð að bera heim. Var eg þá rúmfastur í átta vikur, og af þeim tíma lá eg með óráði í hálfan mánuð, svo eg vissi ekkert til mín. Þegar eg raknaði úr því roti, fór mér smám saman að létta, en mjög illa var eg útleikinn, heyrnarlaus og sjónlítill; misti eg þá alt hár af höfði, en komst nokkurn veginn til heilsu um vorið. Þá var maður þar í sveitinni, að búa út skip, dálítinn sexæring, til fiskiveiða vestur í sveit, veiðistöð fyrir vestan Látrastað, sem Látur kallaðist. Var það afráðið, að láta mig fara með skipi þessu sem hálfdrætting, og var eg allfús til farar. Þegar í veiðistöðina kom og fiski byrjaði á handfæri, reyndist eg svo fisksæll, að eg var tekinn til hlutar. Alt gekk bærilega og kom eg heim heilu og höldnu, dálítið rogginn af sjómenskunni. Það sumar var eg við heyvinnu. Um haust-

ið komu eyjarmenn til fjárkaupa og skuldheimtu upp í sveitirnar. Í þeirra hópi var maður að nafni Jón Eyjólfsson, silfursmiður frá Svefneyjum, alkunnur dánumaður. Á heimför minni úr fiskiverinu hafði eg komið heim til hans um vorið, og keypti eg af honum silfurslaglóð. Kom hann í Kollabúðir í fjárkaupa ferð norður til Strandasýslu. Var hann góður kunningi föður míns. Barst þá eitthvað í tal á milli þeirra hagleiksnáttúra mín. Voru honum sýndir nokkurir smíðisgripir, sem eg hafði gert. Leizt honum þá svo á, að eg myndi vera hæfur til frekara náms. Og er hann kom aftur að norðan úr fjárkaupaför sinni, tókust miklar bollaleggingar um það heima, að hann tæki mig um tíma næsta vetur. Átti eg að gefa með mér níu mörk um vikuna, fyrir fæði og þjónustu. Nú voru góð ráð dýr, því ekki var aleiga mín þá meiri en fimm spesíur (=5 dollarar), er fóstra mín hafði geymt. En samt vildi eg á þetta hætta, í von um að einhver úrræði kynni að verða. Á jólaföstu fór eg út í Svefneyjar, fyrsta sinni úr föðurgarði. Var eg þar í fjórar vikur og fór allvel á öllu.

Hér verð eg að bæta inn í ofurlítilli sögu um ófyrirséð happ. Á þeim tímum var það títt, að halda úti skipum til hákarlaveiða á vetrum. Svefneyingar höfðu eigi mannafla nógan til háseta, en réðu menn úr næstu eyjum. Þegar formönnum sýndist legu-veður, var flagg dregið upp á háa stöng, sem merki þess, að nú skyldu hásetar koma þegar í stað. Þenna vetur bar það við, að hásetar voru kallaðir, en komu ekki einhverra hluta vegna. Var þá afráðið, að taka minna skip, og menn til háseta, sem ekki höfðu áður verið ráðnir. Í þeirra tölu var eg. Í svaðilför þessa var eg búinn út sem bezt mátti verða. Veiðin hepnaðist vel, en var harðsótt, og eftir tvo sólarhringa var alt komið heim, og var aflinn sextán spesíur í hlut, og bið eg menn að muna, að spesían jafngilti einum amerískum dollar. Hlut minn fekk eg að eiga. Greiddi þetta furðanlega úr fjárþröng minni, þó ekki væri um mikla upphæð að ræða.

Fyrir páska fór eg heim aftur og tók við vanalegum heimilisstörfum, skepnuhirðingu og viðarkolagerð. Mikils þurfti við af viðarkolum á þeim árum, til ljáasmíðis, og dengingar m. fl. Næsta ár gerðist sama sagan nærri því

upp aftur. Það vor reri eg á skipi kennara míns vorvertíðina undir Jökli. Eg komst í hákarlalegur af sömu orsökum. En þá vildi kennari minn ekki missa mig frá smíðunum, nema með því móti, að hann fengi hálfan hlut. Varð minn hlutur í það sinn fjórtán spesíur. Var nú smíðakenslunni lokið, því kennari minn fluttist það ár að Veri í Mýrasýslu, og settist þar að. Naumast þarf eg að geta þess, að eg á þessum árum varði öllum stundum, sem eg gat fengið, til smíða. Gerði eg þá mest smíðatól handa sjálfum mér, því efni voru lítil að kaupa.

Nú er stutt yfir sögu að fara. Í þau sjö ár, sem liðu frá því er eg tók að smíða fyrir sjálfan mig á Kollabúðum, unz eg sigldi til Kaupmannahafnar, var staða mín á þessa leið: Eg vann öllum stundum hjá föður mínum og veitti heyverkum forstöðu með honum. Alla aðra tíma stundaði eg smíðar mínar, aflaði mér smám saman góðra smíðatóla og allrar sjálfsmentunar í iðn minni, sem mér var unt að ná í. Hafði eg mest not danskra bóka, sem eg útvegaði mér.

Dönsku-námi mínu var þannig farið, að Jokkum gamli, faðir síra Matthíasar, gaf mér nýja testamenti á dönsku. Á eg það enn sem annan minjagrip. Með því að lesa það og brjótast gegn um það með íslenzka nýja testamentinu annars vegar, komst eg furðu-fljótt niður í málinu, mér til góðra nota, og um leið kyntist eg þeirri bók betur, en eg hefði annars gert.

Aðsókn til mín og pantanir á smíðum mínum fóru árlega vaxandi úr ýmsum áttum. Seinni árin varð eg að taka mann til að vinna hjá föður mínum, til þess að geta stundað smíðar árið í kring. Síðustu árin tók eg efnilegan pilt vestan úr Dýrafirði til að kenna smíðar. Margra smá-atriða gæti eg minst frá þessum tíma æfi minnar, en tíminn og rúmið leyfa ekki ofmikla mælgi.

2.

*Jafnaldrar studdir til náms, er síðar verða frægir menn.*

Árið 1855 ætlaði eg að sigla, en sökum anna og ýmsra málefna, sem eg hafði með höndum, gat ekki af því orðið þá. Næsta ár var eg betur búinn að búa mig undir ferðina.

Var það fyrsta árið, sem gufuskip fluttu póst milli Íslands og Danmerkur. Ásetti eg mér að sigla með því póstskipi um haustið. Vil eg geta þess, að það sumar voru margir erlendir ferðamenn á Íslandi, á meðal þeirra doktor og prófessor Maurer frá Muenchen, Íslandsvinurinn mikli. Ferðaðist hann meðal annars um Reykhólasveit, mest til að skoða sögustaði, sem Gullþórissaga, öðru nafni Þorskfirðingasaga, getur um. Var hann að undirbúa útgáfu hennar á þýzku. Var eg fenginn til að ferðast með honum þrjá daga, til að skoða sögustaði þessa. Hann var hið göfugasta ljúfmenni og talaði íslenzku furðu-vel. Barst þá í tal, að við mundum hittast aftur á ferðinni til Danmerkur um haustið. Íslenzkir mentamenn voru einnig á ferð um sumarið (1856). Var Guðbrandur Vigfússon, sem mér var að góðu kunnur, einn meðal þeirra. Starfsemi minni út á við í félagslífinu og þess mannorðs, sem eg hafði aflað mér, ætla eg ekki að minnast. En hafi eg nokkurs staðar verið vel kyntur, hugsa eg það hafi verið í Reykhólasveit. Vil eg nefna eitt dæmi þess, að ofurlítil afskifti hafði eg á þessum árum af lífinu fyrir utan mig.

Þegar Björn heitinn Jónsson, sem síðar varð ráðherra, byrjaði nám sitt hjá síra Ólafi Jónssyni á Stað á Reykjanesi, varð eg fyrstur til þess að safna dálítilli fjárupphæð hjá ungum mönnum, honum til aðstoðar. Faðir hans, Jón í Djúpadal, var góður vinur minn. Einnig safnaði eg til lítilfjörlegrar gjafar til Jóns Sigurðssonar, sem honum var send. Skrifaði eg grein í Þjóðólf,—hvöt til Íslendinga, að gefa meiri gaum hinu göfuga lífsstarfi hans, sem þá var hafið og eg var svo hrifinn af. Einnig minnist eg með feginleik hinnar hörðu baráttu minnar þá tvö seinustu árin, með að stuðla til þess, að Matthías Jochumsson kæmist til menta.

Þóra, móðir Matthíasar, var systir síra Guðmundar á Kvennabrekku. Með miklum erfiðleikum gat hún fengið bróður sinn til að taka Matthías til undirbúnings kenslu undir skóla. En í stað þess að kenna Matthíasi latínu og annan skólalærdóm, reyndi hann að gera fjósamann úr honum. Svo fór um sjóferð þá. Eftir það komst Matthías út í Flatey, til að læra verzlunarstörf, og komst hann svo langt,

að hann fór í "spekúlantstúr", sem aðstoðarmaður, og gafst býsna vel. En brátt komst það samt í ljós, að ekki átti hann með réttu heima á þeirri hillu. Honum var mentaleiðin lífsskilyrði. En bæði var sú leið févana manni allerfið, og árin of mörg liðin, svo nær því var í ótíma komið. Fór eg þá út í Flatey að kveðja vini mína, en með fram til að ganga úr skugga um, hvort ógjörlegt væri, að hjálpa Matthíasi. Reyndi eg til að leggja fram alt, sem eg átti, til að fá síra Eirík Kuld og Brynjólf Benediktsson til þess að taka Matthías að sér. Eg hafði með mér 50 spesíur, sem lítinn vísi til að byrja með, vitandi vel, að ef göfugmennið Brynjólfur Benediktsson fengist til að veita fé þessu viðtöku, væri spilið unnið. Þetta tókst. Hann tók við peningunum, og innsiglaði pokann og gaf mér "Bevis" fyrir, sem eg á enn. Var það stílað svo, að fé þessu skyldi verja til skólamentunar handa Matthíasi. Næsta haust fekk eg þá fregn til Hafnar, að Matthías væri seztur í 4. bekk í Reykjavíkur latínuskóla.

### 3.

### *Kaupmannahafnardvöl.*

Þegar hljóðbært varð um fyrirætlan mína með að sigla, fór að losna um fleiri unga menn. Á meðal þeirra var Þorlákur Jónsson, sonur síra Ólafs, og Stefán Benediktsson frá Brjánslæk. Peningar þeirra voru sendir mér, forsiglaðir, til umsjónar og flutnings til eftirlitsmanna þeirra í Kaupmannahöfn.

Alt var nú til farar búið. Ferðamennirnir lögðu af stað til Reykjavíkur með góðum fylgdarmanni. Þrettán merkustu menn sveitarinnar fylgdu okkur á enda sveitarinnar, og þrír af þeim alla leið til Kjartanssteins í Svínadal. Í þeim hópi var síra Matthías, sem eg kvaddi þar.

Ferðin til Reykjavíkur gekk slysalaust. Fám dögum eftir að við vorum þangað komnir, kom gufuskipið *Arcturus*. Lagði það af stað með okkur litlu síðar, og nokkura ferðamenn fleiri. Þeir prófessor Maurer og Guðbrandur Vigfússon voru í förinni. Gekk ferðin allvel til fyrsta viðkomustaðar í Færeyjum, og svo þaðan og til Skotlands. En á Leith-firði vildi það slys til, að skrúfan brotnaði, og

komst skipið með naumindum til Leith. Þar varð það að liggja í átta daga til viðgerðar. Var þetta illur grikkur ferðaáætlan okkar, og sumum slæmur kostnaðarauki, því enga aðhlynningu var að fá á skipinu, nema rúm til að sofa í. Þeim prófessor Maurer og Guðbrandi var að þessu enginn ami, því nú gafst tækifæri til að skoða sig um í hinni fögru borg, enda var tíminn notaður. Á hverjum morgni var gengið upp í borgina árdegis, og var alt skoðað, sem nokkurs þótti um vert í Edinborg og umhverfum hennar. Þótti mér þar margt, sem fyrir augun bar, býsna nýstárlegt, því alt af þreytti eg gönguna með foringjunum. Mesta meinið þótti okkur, að suma daga var svört niðaþoka, svo ekkert varð séð frá sér. Var þá mestu af tímanum varið til þess, að skoða forngripasafnið og bókasöfn, og ýmislegt annað þeirrar tegundar.

Þegar er lokið var aðgerð skipsins, var lagt af stað til Kaupmannahafnar. Litlu eftir hádegi lagðist skipið við bryggjuna. Kom þá heill hópur Íslendinga, að fagna komu þess. Þekti eg að eins fáa þeirra. Nokkuru eftir að við vorum allir komnir á land, og um það bil að hóparnir ætluðu að fara að tvístrast, kom boð frá prófessor Maurer, að hann ætlaði að hafa samsæti á gistihúsi einu skamt frá, og bauð hann öllum Íslendingum, er koma vildi. Samsæti þetta fór fram með miklum fagnaði, matur og drykkur ríkulega fram reitt, ræðuhöld og ýmsar skemtanir. Kyntist eg þar mönnum ekki svo fáum.

Við félagar fengum okkur náttstað um kveldið, og geymdum til næsta dags, að heimsækja Jón Sigurðsson og skila honum sendingunum af mér. Daginn eftir fengum við Þorlákur Jónsson fylgdarmann út til hans. Ætla eg ekki að reyna að lýsa þeim viðtökum, sem við fengum hjá honum. Betur gat ekki faðir tekið börnum sínum. Settist Þorlákur þar að hjá föðursystur sinni, frú Ingibjörgu. En eg afréð að leita bráðabyrgðahælis hjá gullsmiðs-meistara íslenzkum, Jóni Arngrímssyni að nafni. Hafði hann í læri íslenzkan pilt frá Reykjavík, Magnús að nafni, sem kominn var að því að taka sveinsbréf, og var kunnugur vel í borginni. Hann var einnig undir umsjón Jóns Sigurðssonar. Eg tók á leigu lítið herbergi þar skamt frá.

Aðal-iðnin, sem stunduð var á verkstæði þessu, var í því fólgin að smíða úrkassa og gera við þá. Þótti mér gott að taka vinnu þar um tíma, því þessari iðn var eg þá ókunnur. En aðal-ætlunarverk mitt var að læra dönsku. Gekk það lakara en eg vildi, því þarna á verkstæðinu var venjulega talað alls konar hrognamál, sem hvorki var íslenzka né danska. Samt leið ekki á mjög löngu, að eg gæti farið að fleyta mér í málinu og rata um borgina fylgdarlaust. Kyntist eg þar mörgum Íslendingum, sem voru þar búsettir, flestum, sem mig á annað borð langaði nokkuð til að kynnast. Var það líka mér til meir en lítillar hjálpar í þessu, að öðlingurinn Jón Sigurðsson bauð mér með áherzlu að heimsækja sig sem oftast, einkum á kveldum, þegar hætt var vinnu. Þá væri hann oftast heima og hefði oft gesti, sem gott væri að kynnast. Eg varð að játa, að eg fyrirvarð mig að þiggja slíka góðvild endurgjaldslaust. En um leið verð eg að játa það nú, að eg minnist kveldstundanna mörgu úti hjá Jóni Sigurðssyni sem hinna sælustu kveldstunda æfi minnar.

4.

*Lífstefna í stórborg og smábæ.*

Nú er að minnast með nokkurum orðum á æfiferil minn og lífsstefnu þau þrjú ár, sem eg dvaldi í þetta sinn í Kaupmannahöfn. Þar sem eg leitaði dvalar á verkstæðum, var eg tekinn sem sveinn utan úr sveitum. Helzt leitaði eg á þau verkstæði, þar sem unnið var að smíðum, sem eg var ókunnugastur. Lagði eg þess vegna enga áherzlu á, að vinna fyrir háu kaupi, heldur að fá sem bezta þekkingu á því, sem hugurinn stóð mest til. Þegar eg hafði nokkurn veginn fullnægt þessari löngun minni, réðst eg til vinnu um lengri tíma, þar sem mér féll bezt í geð. Seinni árin, einkum hið síðasta, hafði eg verkstæði fyrir sjálfan mig, og vann þá, þegar mér sýndist. Úrsmiðs kunnáttu mína öðlaðist eg mest á þann hátt, að eg kyntist högum úrsmiðssveini. Bjuggum við saman nálega heilt ár, höfðum dálítið verkstæði heima hjá okkur og lögðum lag okkar saman. Vann eg á þessu verkstæði okkar í öllum tómstundum mínum frá öðru.

Þá er að minnast skemtistaðanna í Kaupmannahöfn. Þeir eru ávalt ofarlega í huga ungra manna, sem þangað koma til lengri eða skemri dvalar. Enda hefir Kaupmannahöfn lengi verið nefnd: "Parísarborg Norðurlanda." Víst er um það, að úr mörgu er að velja, sem bæði er nytsamt og gott. Þar er meðal annars félag eitt, stórt og umfangsmikið, sem nefnist "Industri-foreningen"; meðlimi hefir félag þetta í þúsundatali, bæði í borginni og út um alt land. Inngangsgjald í félagið var fjórar spesíur um árið, og er það lítið meira en ársrit félagsins kostaði, sem út kom fjórum sinnum á ári. Á félagið stórhýsi eitt mikið og veglegt. Neðst í stórhýsi þessu er salur fyrir fjölda áheyrenda, með sætum bæði niðri og upp undir lofti. Voru þar fyrirlestrar fluttir um alls konar nýjar uppgötvanir samtíðarinnar. Sýningar voru þar einu sinni í viku á alls konar nýjum iðnaði, og skrautmunum, sem vert þótti að sýna.

Á fyrsta og öðru lofti eru bókasöfn og lestrarstofur og mörg smærri herbergi, þar sem menn geta setið og skemt sér við lestur bóka og blaða. Smávegis dægradvöl er þar líka, margvísleg töfl og fleira þess konar, en spil ekki. Þarna geta menn setið sér til fróðleiks og skemtunar í bezta hita, þangað til klukkan tíu á kveldin. Bækur getur maður einnig fengið lánaðar heim til sín, til ákveðins tíma, og fleiri þægindi eru í sambandi við þessa þjóðþrifastofnan. Klukkan sex á hverju kveldi voru salir þessir opnaðir. Í félag þetta lét eg innritast þegar fyrsta árið, sem eg var í Kaupmannahöfn. Á engum stað í borginni eyddi eg eins mörgum kveldum eins og þessum. Kyntist eg þar mörgum góðum mönnum, sem eg hefði farið algerlega á mis við, ef eg hefði eigi komið þarna nema sjaldan. Fátt varð eg var við af Íslendingum í félagi þessu.

Tveim storbændum, sem heima áttu úti í Amager, kyntist eg, og buðu þeir mér stundum heim til sín á sumrin. Hafði eg af því mikla skemtan og aflaði mér um leið fróðleiks um landbúnað í Danmörku. Stöku sinnum fór eg út í Tivoli, hinn fræga skemtigarð Kaupmannahafnar, einkum á kveldum, er eg var í fylgd með góðum samlöndum mínum. Á leikhúsin fór eg einnig stöku sinnum, einkum kon-

unglega leikhúsið, þó aldrei nema einhver góður kunningi minn byði mér eða eg honum.

Fáeinum sinnum heimsótti eg stúdenta á Garði. Þekti eg suma þeirra að heiman, sem alist höfðu upp með mér, til dæmis Gest heitinn Pálsson og fleiri. Var eg ætíð velkominn gestur hjá þeim, en aldrei fengu þeir mig með sér út í bæinn á kveldum. Þorlákur Jónsson, ferðafélagi minn til Kaupmannahafnar, var eini maðurinn, sem eg fór út í bæinn með. Hann kom ávalt til mín, þegar hann fekk bæjarleyfi, til að fá mig með sér, og varð eg þess aldrei var, að Jóni Sigurðssyni mislíkaði. Héldum við þeim sið, þangað til hann fór til Englands.

Það, sem eg helzt get talið að eg eyddi fé til að óþörfu, meðan eg var í Kaupmannahöfn, eða sniði mér ekki stakk eftir vexti, var að mig langaði ávalt til að hafa rúmgóð herbergi, svo eg gæti boðið kunningjum mínum, sem heimsóttu mig, eitthvað, sem stytti þeim stundir, svo við þyrftum eigi að fara út í borgina til þess. Magnúsi Eiríkssyni bauð eg oft á veturna heim til mín, einu sinni í viku, og hafði ætíð mikla skemtan af, þó okkur kæmi ekki saman í trúarefnum. Sökum þess var oftast alt látið liggja í þagnargildi í sambandi við þau, bæði við hann og aðra. Seinasta vorið, sem eg var í Kaupmannahöfn, fór eg að búa mig undir heimferð um sumarið, helzt með þeirri hugsan, að hverfa aftur um haustið. Tók eg þó heim með mér dálítið af smíðatólum og smíðaefnum, helzt til úra. Tók eg mér fari með seglskipi til Stykkishólms, því um gufuskip var ekki að tala, nema til Reykjavíkur, og engar ferðir kring um landið.

Ferðin gekk seint, en sæmilega vel. Var eg í Stykkishólmi nokkura daga hjá kunningjum mínum. Þaðan fór eg til Flateyjar og Svefneyjar og upp að Stað á Reykjanesi í gömlu sveitinni minni, til að finna þar vini og vandamenn, föður og systkini, og til að líta eftir munum, sem eg skildi þar eftir, smíðatólum og fleiru. Fór eg þaðan eftir nokkura dvöl norður á Ísafjörð. Eg þarf naumast að geta þess, að alls staðar var mér vel tekið. Meðal annara erinda á þessu freðalagi, var að finna smáskulda-heimtumenn, sem

tekist höfðu á hendur það starf fyrir mig, þegar eg fór af Íslandi, og hafði það yfirleitt ekki gengið sem greiðast.

Fyrir bænastað margra vina minna og tilboð um nægilega vinnu, hvarf eg frá því að fara utan um haustið, eftir að hafa rækilega íhugað allar ástæður, en settist að í stað þess og tók til starfa. Mest var það úrsmíði og aðgerðir, sem eg lagði stund á, það sem eftir var sumars og næsta vetur, því smíðatól mín, hvorki þau, sem eg skildi eftir á Kollabúðum né í Stykkishólmi, gat eg fengið fyrr en seint um haustið og sum ekki fyr en næsta vor.

Snemma næsta vor leigði eg í félagi við annan mann rúmgott hús, sem autt stóð á Ísafirði. Setti eg þar upp rúmgott og bjart verkstæði niðri, en bjó uppi á lofti, og tók til að smíða þar. Tveim piltum var búið að koma niður hjá mér til smíðanáms og áttu þeir að koma seinna um sumarið. En þá kom ofurlítil lykkja á leiðina.

Þorlákur, gamli félagi minn, kom frá Englandi með fimtíu lesta skip, fermt alls konar varningi, nema áfengi, er honum var trúað fyrir að selja á Íslandi. Ferðinni var aðallega heitið til Borðeyrar á Hrútafirði. En erindið til Ísafjarðar var að fá mig að fara með sér og vera sér til aðstoðar. Um þetta fanst mér eg ekki geta neitað honum, þó mér kæmi þetta næsta illa. Við seldum dálítið á Ísafirði. Hann fór með skipinu til Borðeyrar, en eg fór hraðfari landveg þangað. Verzlanin á Borðeyri gekk heldur vel. Alt uppselt og borgað. Bæði fastaverzlaninni og lausakaupmönnum, sem þangað komu, var illa við okkur. En flestum viðskiftamönnum okkar þótti vænt um okkur. Eg hafði skemtan af verzlunarför þessari. Fekk eg að sjá marga gamla kunningja og eignaðist marga nýja. Að lokinni verzlunarförinni fór Þorlákur vestur á Stað á Reykjanesi, að finna föður sinn, síra Ólaf. En eg varð eftir á skipinu og fór með því til Ísafjarðar. Það mótlæti hreptum við, að skipið, þegar það var nýkomið af stað, rendi upp í norðangarð, sem stóð yfir í þrjár vikur, og vorum við allan þann tíma veðurteptir. Loks kom hagstætt veður, svo ferðin var farin á minna en sólarhring. Var eg þá nokkura daga á Ísafirði að innheimta borgan fyrir vörur þær, er við seldum þar. Sigldi skipið síðan til Englands.

Tók eg nú aftur til smíða minna. Hélt þeim þar áfram meira en hálft annað ár, og hafði meira en nóg að gera með drengjum mínum. Að áliðnu næsta sumri fluttist eg inn í Vigur, reisti þar hús og settist þar að. Hélt eg smíðum mínum þar áfram, með fleiri útvegum, sem tíðkuðust við Ísafjarðardjúp. Á þriðja ári, sem eg var þar, bárust þau tíðindi til Íslands, að stofna ætti í Björgvin í Noregi til milliþjóða fiskiveiðasýningar. Kom þá til umtals og ráðagerða með heldri mönnum í Norður Ísafjarðarsýslu, að senda þangað einn eða tvo menn frá vestur-sýslum Íslands, til að kynnast þar hinum stórfeldu atvinnuvegum Norðmanna og annarra þjóða, og senda þangað sýningarmuni, ef unt væri að koma því við. Var þá stofnað til almenns fundar á Ísafirði, til að ræða þetta mál. Við umræðurnar komu í ljós margar torfærur, sem voru í vegi, bæði þess, að koma þangað sýningarmunum, og hins, að fá hæfan mann til fararinnar. Var þá eftir nokkurar umræður stungið upp á mér, ef eg væri á annað borð til þess fáanlegur. Eftir langar umræður gaf eg loks kost á mér, ef farareyrir væri fyrir hendi. Var þá bollalagt að safna þegar í stað nægilegu fé, til ferðakostnaðar til Reykjavíkur og þaðan með póstskipi til Kaupmannahafnar. Átti að semja gott meðmælisbréf frá sýslumanni, er ganga skyldi gegn um Vesturamtið, til þess meðmæli þess fengist til íslenzku stjórnardeildarinnar í Höfn, með bæn um styrk til fararinnar. En fénu, sem greiða varð þegar í stað, átti að fela sýslumanni að mæla fram með og safna saman á þingferðum sínum, en senda mér afganginn af hinu framlagða til Björgvinjar, eins fljótt og unt væri. Tók sýslumaður, að því, er séð varð, þetta fúslega að sér, og fundarmenn, sem komnir voru víðs vegar að, lofuðu sem bezt að greiða fyrir þessu. Allir urðu ásáttir um, að þessi litla fjársöfnun mundi ekki ofþyngja neinum, með þessu fyrirkomulagi. "Sem sagt, svo gjört." En hraða varð að hafa á öllu.

Eg ráðstafaði heimili mínu sem bezt eg gat. Sýslumaðurinn skrifaði 'vegabréf' á dönsku, heilmikla rollu. Tíminn var orðinn naumur, en mörg lykkja á leið minni til Reykjavíkur. Eyjólfur Jónsson, sem þá var kandídat frá prestaskólanum, ætlaði að fylgjast með mér til Reykjavíkur, til að

taka vígslu, og mæltum við okkur mót í Hjarðarholti í Laxárdal, því þangað varð eg að fara aðra leið. Eg lagði af stað árdegis úr Vigur sjóleiðis inn að Langabóli. Fekk þar hest og dreng til fylgdar um nóttina yfir Kollafjarðarheiði og alla leið ofan í Gufudala-sveit að Hálfsteinsnesi. Þaðan fekk eg þegar flutning að Stað á Reykjanesi og kom þangað litlu fyrir klukkan níu um morguninn. Var þá síra Ólafur nýriðinn af stað á annexíu sína að Reykhólum. Vandaðist nú málið, því eg ætlaði tafarlaust að fá flutning suður að Skarði á Skarðströnd. En frú Sigríður var ekki ráðalaus. Sendi hún tafarlaust á næsta bæ eftir tveim mönnum, og léði mér þann þriðja á ferða*skektu* síra Ólafs. Ýtt var undan landi um klukkan hálf ellefu. Mótvindi fengum við mikið suður með Reykjanesi. Var þá dregið upp segl og settist eg undir stýri; flaug þá í hug mér:

Veitir yndi ennþá mér
óverðugum drottinn;
þessi vindur þar um ber
þegjandi bezt vottinn.

Hraðbyri var yfir Breiðafjörðinn. Var eg kominn heim að Skarði snemma um kveldið og tók eg mér þar hvíld um nóttina. Var mér þar vel fagnað. Næsta dag fekk eg þar hesta og fylgd að Staðarfelli, sem þá var aðsetur Boga amtmanns. Átti hann, eins og fyr var sagt, að skrifa upp á vegabréf mitt til stjórnarinnar dönsku um fjárstyrk. Til hans átti eg einnig auka-erindi með silfursmíðar, sem hann átti hjá mér. Hitti eg heldur illa á, því Bakkus hafði verið þar á ferðinni. Samt greiddist fljótt úr öllu, og gat eg haldið ferð minni áfram að Hjarðarholti og þaðan alla leið til Reykjavíkur. Alþingi var saman komið í Reykjavík. Fann eg þar Jón Sigurðsson að máli, og leiðbeindi hann mér að vanda, alt sem hann mátti. Hann gaf mér leiðbeiningu til að finna Sigfús Eymundsson, sem þá var staddur í Björgvin.

## 5.

## *Sýningarför til Noregs.*

Eftir tveggja daga bið lagði póstskipið af stað til Dan-

merkur. Kom það að vanda við í Færeyjum. Tók Finsen amtmaður sér fari með því til Hafnar. Þekti eg hann dálítið frá fyrri tíð og var sérlega ánægður yfir að fá að njóta samfylgdar hans. Við póstskipsbryggjuna mætti eg að vanda fjölda Íslendinga, þar á meðal mörgum kunningjum mínum, sem fögnuðu mér vel. Daginn eftir fór eg upp í íslenzku stjórnardeildina að finna Oddgeir Stephensen, sem þá var formaður hennar, og tjáði eg honum erindi mín. Tók hann heldur líklega á öllu. Sagði, eg yrði að koma næsta dag með sér upp í danska ráðaneytið, sem hefði slík mál til meðferðar. Að því búnu fór hann með mig á eigin skrifstofu sína og spjölluðum við saman lengi dags. Spurði hann margra tíðinda heiman af Íslandi, þó mest um Stefán sýslumann, hvernig hann kynti sig. Var eg um þá hluti sem orðvarastur. Hann sagði mér, að fiskiveiða formaður Danmerkur ætlaði á sýninguna í Björgvin og fimm aðrir erindrekar með honum á lystiskipi, og taldi hann líklegt, að eg gæti fengið far með því ókeypis. Eg tók ekki líklega undir það, því eg vildi vera kominn til Björgvinjar um það bil, að sýningin yrði opnuð. En tvísýnt mjög, að seglskip gæti komist þangað, eins og seinna varð raun á. Skúta þessi komst ekki til Björgvinjar fyr en þrem vikum eftir að sýningin var opnuð, og varð gufubátur loks að draga hana frá Stafangri og þangað inn á höfn. Næstu þrjá daga gekk eg upp í danska ráðaneytið til að vita um erindislok. Urðu þau að síðustu 250 spesíur í ávísan upp á danska konsúlatið í Björgvin. Hér verð eg að geta dálítils viðburðar, áður lengra er farið.

Daginn, sem íslenzka póstskipið átti að leggja af stað, gekk eg ásamt tveim kunningjum mínum ofan á bryggju og út á skip. Hitti eg þar Hilmar Finsen, sem var að leggja af stað frá Danmörku til að taka við landshöfðingja embættinu á Íslandi. Fór hann með mig niður í káetu. Barst þar í tal um, hve örlagaþrungin væntanleg störf hans í þarfir Íslands yrði. Aldrei hefi eg fyr eða síðar orðið var einlægara vilja, né heitara ásetning um að leysa störf sín vel af hendi. Man eg, að honum hrutu tár af auga, er hann talaði um það. Ekkert sagðist hann geta gert fyrir mig, en þó ef til vill nokkuð. Tók hann þá pappírsblað

með nafnstimpli sínum, og skrifaði á það þessi orð á norsku. "Til Björnstjerne Björnson og allra Íslands vinanna í Noregi:—Sýnið þessum manni, sem blað þetta hefir í hendi, bróðurhuga og velvild, og leiðbeining í því, sem hann kann að þurfa.—Hilmar Finsen."

Blað þetta varð mér meira virði en margir peningar. Litlu síðar lagði eg af stað með gufuskipi til *Frederiksværn* og þaðan norður með landi. Þrisvar varð eg að skifta um skip, til að komast til Björgvinjar, og á einum staðnum, þar sem um var skift, nam eg staðar einn eða tvo daga. Alls staðar mætti eg velvild og nýjum, skemtilegum samferðamönnum. Komst eg til Björgvinjar þrem dögum áður sýningin var opnuð. Leitaði eg þá Sigfús Eymundsson þegar uppi. Hafði honum ekki liðið vel um langan tíma. Fekk eg mér bústað í sama húsi, og bjó eg þar meðan eg dvaldi í bænum. Eg leitaði á fund forstöðunefndar sýningarinnar og tók hún mér mæta vel.

## 6.

### *Sýningin.*

Viðhöfn mikil var höfð við opnan sýningarinnar, fjölmenn skrúðganga, hljóðfærasláttur, ræðuhöld og fallbyssuskot. Fólkið ruddist inn, en eftir nokkurn tíma ruddist það heim aftur. Eg lagði mig fram um, að taka sem bezt eftir öllum nýjungum, er sýndar voru. Eg var þar uppi nálega á hverjum degi nokkura stund. Margt var þar sýnt, sem tíma tók að átta sig á og hélt huga mínum föstum. Þar var sýndur heill floti alls konar smærri og stærri skipa, er stunda fiskiveiðar, kappsiglingar og kappróður af alls konar tegundum, notkun alls konar veiðarfæra, einkum til síldarveiða, svo sem dragnótum, kastnótum, hringnótum og margt fleira. Nálega þrem vikum eftir að sýningin var opnuð komu þrír menn frá Íslandi styztu leið frá Skotlandi, tveir af Suðurlandi og einn úr Svefneyjum á Breiðafirði, Hafliði, gamall vinur minn.

Fremur var þátttaka Dana í sýningunni lítilfjörleg. Sendimenn þeirra hitti eg tvisvar í sýningarhöllinni og reyndi að kynnast þeim, en fremur lítið vildu þeir sinna því,

og virtist mér þeir líta fremur hornauga til mín, eins og síðar kom fram.

Heimboð og alls konar skemtanir voru býsna tíðar. Eftir að fleiri Íslendingar voru komnir til sýningarinnar, voru heimboðin til mín stíluð svo, að eg mætti taka með mér eins marga og eg vildi. Í stuttu máli: Okkur Íslendingum var tekið og með okkur farið eins og bræður og vini, meðan við dvöldum í Björgvin. Mörgum ágætismönnum kyntist eg og mörg voru heimsóknar tilboðin, er eg fekk, þegar sýningunni var lokið, en fæst af þeim gat eg notað eða þegið.

Brátt sannfærðist eg um, að það voru ekki svo fá sýnishorn, sem mig langaði til að kaupa, til þess að hafa heim með mér af ýmsu, sem þar var óþekt og eg hélt að koma mætti að notum. En það kostaði fé; það fé hafði verið lofað að senda, en kom ekki.

Eg afréð því að skrifa stórkaupmanni Clausen í Kaupmannahöfn. Vissi hann alt um ferð mína og tildrög til hennar, og þekti mig vel. Fekk eg tafarlaust bréf frá honum aftur með góðum undirtektum, ef á þyrfti að halda.

Tíminn leið fljótt til sýningarlokanna. Verðlaunanefndin vann af miklu kappi. Voru munirnir, sem við keyptum, settir í góðar umbúðir og sendir til tollbúðarinnar í Kaupmannahöfn. Vinir og kunningjar smátíndust heim. Eg var búinn að fá að vita, að stórt skilnaðarsamsæti ætti að halda mér og þeim Íslendingum, sem enn voru eftir. Kveldið kom. Okkur var vísað inn í samkomusal fullan fólki, ekki færra en 70 manns. Flest var það af heldri borgurum Björgvinjar. Fáeinir voru þar utan bæjar, þar á meðal Ole Bull, fiðluleikarinn heimsfrægi, sem komið hafði ótilkvaddur, sex mílur sjávar, til að skemta ókeypis þetta kveld, og þótti það nýmæli.

Nokkurir vinir mínir voru búnir að stinga því að mér, að naumast myndi eg sleppa, án þess að segja eitthvað áður öllu lyki. Óskaði eg þá að séð yrði um, að ekki yrði illa upp tekið, þó eg talaði fám orðum fyrir minni Kristjáns ix. Danakonungs. Klukkan átta um kveldið hófst samkoman og var haldið áfram þangað til kl. 4 um morguninn. Veitingar voru af óskornum skamti og glaðværð á háu stigi.

Hver þjóðræknisræðan var flutt á fætur annari. Loks kom röðin til mín og bar eg þá fram tilmæli um, að mega segja nokkur orð um afstöðu konungs vors til Íslands.

Efnið var eitthvað á þessa leið:

Með framkomu sinni hefir Kristján ix. sýnt, að hann er Íslandi innilega hlyntur og velviljaður. Yfirleitt vildi því allir Íslendingar vera trúir og tryggir þegnar síns ástkæra konungs, Kristjáns ix. En þeir vildi ekki vera þegnar þegnanna. Einmitt í þessu væri mesti misskilningurinn fólginn. En trú vor væri sú, að hann myndi leiðréttast á sínum tíma, þegar nýjar kynslóðir færi að fjalla um þau mál. Endaði eg svo með að hrópa: Lengi lifi, o.s.frv. Var því vel tekið.

En svo hélt eg máli mínu áfram. Inti eg til þess, er mér fanst þá stærsta velferðarmálið á dagskrá Norðmanna víðs vegar um Noreg allan: Viðreisn hinnar gömlu tungu þjóðarinnar. Benti eg á, að viðreisn forntungunnar yrði að miklu leyti viðreisn þjóðarinnar. Þá fyrst, þegar það ætlunarverk væri af hendi leyst og tunga feðranna leidd til öndvegis í landinu, myndi norska þjóðin þekkja sjálfa sig og hlutverk sitt. Mintist eg í þessu sambandi hinnar miklu starfsemi Ivar Aasens og þeirrar snildar tilraunar, sem hann gerði til að safna saman hinum dreifðu perlum forntungunnar, fága þær og fella saman í samstæða heild, er fullkomið jafnrétti fengi með þjóðinni sem skólamál, skáldamál og bókmál. Hinni göfugu höfðingslund, bróðurþeli, vinar-atlotum og þeirri afbragðs gestrisni, sem íbúar Björgvinjar hefði sýnt okkur Íslendingum, frændunum frá söguеyjunni, væri mér ofvaxið að lýsa. En slíka hluti kynni engir eins vel að meta og útlendingar, er þeir væri staddir í framandi landi. Fyrir alt þetta vildi eg þakka, ekki einungis í nafni þeirra, sem þarna væri staddir, heldur í nafni allrar íslenzku þjóðarinnar.

Að lokinni þessari ræðu glumdi salurinn allur af lófaklappi; það var Íslendingur, sem talað hafði. Eg vissi ekki fyrri af, en eg var settur á stól, sem svo var hrifinn á loft upp af fjórum mönnum, og hélt um sína löppina hver, og borinn jafnhátt höfðum manna um allan salinn. Og Ole Bull hélt um einn stólfótinn. Lýsing samkomunnar og ræð-

urnar, sem fluttar voru, komu út í öllum blöðum borgarinnar og flugu út um allar áttir; einnig til Kaupmannahafnar; voru þau þangað komin löngu á undan mér.

Klukkan sex sama morgun vorum við komnir á fleyingsferð suður með ströndum Noregs. Við Hafliði stigum af í Fredriksværn. Hann og Sigfús Eymundsson, sem var með í förinni, gerðu skyndiför til Kristjaníu. En eg fór til lítils bæjar, sem liggur út með Kristjaníu firði, að finna hvalfangara einn, sem síðan hefir kunnugur orðið á Íslandi, *Sven Foyn,* til að þiggja heimboð hans, og var eg hjá honum tvo daga í góðu yfirlæti.

6.

*Í Kaupmannahöfn.*

Frá Fredriksværn fórum við Hafliði til Gautaborgar. Og þágum þar heimboð Uggla baróns, sem eg kyntist á sýningunni. Hjá honum vorum við í þrjá daga og skemtum okkur mæta vel. — Héldum við nú til Kaupmannahafnar. Voru þá koffort okkar komin frá Björgvin á tollbúðina. Hittum við nokkura landa um kveldið og tóku þeir okkur forkunnar vel.

Það er skemst frá að segja, að hjólið hafði snúist, og annað hljóð komið í strokkinn um leið og Björgvinjarblöðin komu til Hafnar. Tóku þá dönsk blöð að birta ritgerðir hverja á fætur annari um óhróður þann, er sendimaður Dana hafði borið út í Danmörku um sýninguna. Var beinst að honum og hann víttur all-harðlega fyrir lélega aflokið erindi og annað fleira, svo hann hafði hina mestu hneisu af. Ýmsir, sem aldrei höfðu sýnt mér nein veruleg vinahót, vildu nú hefja mig til skýjanna; var Grímur Thomsen einn þeirra.

Við vorum í Kaupmannahöfn í bezta yfirlæti. Fjórða daginn, sem við dvöldum þar, var *audiens*-dagur hjá kóngi. Við fengum bendingu um, að hann vildi sjá okkur sýningarmennina. Gengum við þá upp á Kristjánsborgarslot. Var fjöldi fólks í forsalnum og beið þar í þeim erindum að fá að ganga fyrir konung. Eftir litla stund kom einn þjónninn, er stóð á verði við dyrnar inn til konungs, og sagði okkur, að við værum næstir í röðinni til að ganga fyrir

konung. Við fylgdum þjóninum inn í salinn og lokaði hann dyrum á eftir sér í sama bili. Stóð konungur þar inni beinn og keipréttur, og var þá enginn inni í riddarasalnum. Kom hann til móts við okkur með lítillæti og kurteisi og rétti okkur hönd sína. Engar beygingar eða óvenju lotningaratlot voru viðhöfð. Viðtalið hófst tafarlaust. Spurði konungur um ýmislegt frá sýningunni. Varð eg fyrir svörum, líklega sökum þess, að eg talaði bezt dönsku, þeirra, sem þarna voru; leysti eg úr spurningum, sem bezt eg mátti. Samtalið stóð rúmlega hálfa klukkustund. Síðasta orð konungs var, að hann beiddi mig að bera beztu kveðjur sínar til Íslands og það um leið, að hann hefði ásett sér, að heimsækja Ísland á þjóðhátíðinni, sem var í ráði að halda 1874, og gæti hann ekki komið sjálfur, sendi hann son sinn. Skilaboð þessi setti eg orðrétt í *Þjóðólf,* sem þá var helzta blað, er gefið var út í Reykjavík.

Tveim dögum síðar sendi konungur mynd af sér (¼ líkamsstærðar) og Friðriki VII. fyrirrennara sínum (nokkuð minni) með áskrift: "Frá Christian IX." Þessar myndir voru ekki seldar neins staðar. Þjóðhátíðarárið fann eg Kristján konung aftur á Þingvelli. Sýndi hann mér þar sömu ljúfmensku og kurteisi, að tala við mig þar dálitla stund.

Dvalartíminn í Kaupmannahöfn leið fljótt í þetta sinn, enda hafði eg meira að gera en tími vanst til. Eitt af því var, að láta smíða áhöld í smáum stíl til að gufubræða þorskalýsi, eða lýsi til lækninga. Vildi eg fá þau áhöld heim með mér með hinum öðrum sýningarmunum, er geymdir voru í tollbúðinni til heimflutnings næsta ár. Í sambandi við þetta sýningarerindi mitt vil eg geta þess, að eg stóð í bréfaskriftum við vin minn í Stokkhólmi um að reyna að ná í eða útvega mér teikning af amerískri uppfundning. Það var hvalveiðaskutull, með sprengikúlu, sem farið var að nota í Svíþjóð og víðar.

Bæði í varúðarskyni, til þess upplýsingin kæmist ekki í annara hendur, og af ótta fyrir að bréfið næði mér ekki í Björgvin, hafði hann sent bréfið til Magnúsar Eiríkssonar, sem hann vissi að þegar myndi finna mig, er eg kæmi til Hafnar. Ætlan mín var sú, að hagnýta mér þetta í Nor-

egi, en nú var enginn tími til að hverfa þangað aftur. Eitthvert kvis um þetta hafði komist til Gríms Thomsens, og lagði hann mjög ríkt á við mig, að það kæmist í hendur Hammer kapteins. Hafði hann í ráði með fleiri Dönum að stofna stórt fiskiveiðafélag, til að reka fiskiveiðar við Ísland. Þetta vann hann mig til að gera, gegn ríflegum hagsmuna loforðum frá Hammer kapteini. Ábyrgðist Grímur mér, að loforðin yrði efnd. Meðal annars varð þetta til þess, að snúa við öllum bollaleggingunum í höfði Hammers um veiðarnar við Ísland. Fór hann nú til Englands, lét smíða þar skotfæri þessi og stórt gufuskip, sem hann kom heim með sumarið eftir. Sökum kunnáttuleysis hepnaðist honum heldur illa, fekk eina tvo hvali að eins. Fiskiveiða félagið danska fór í hundana, og loforðin við mig sömu leiðina.

Annars heimboðs verð eg einnig að geta hjá Árna Sandholt, ráðanauts og umsjónarmanns Klausens verzlunar á Íslandi, og einn af eigendum hennar. Hafði hann verið á Ísafirði um sumarið. Óspurður sagði hann mér þaðan margar fréttir. Var ein þeirra um orsökina til þess, að mér hefði engir peningar verið sendir að heiman. Var hún sú, að sýslumaður, sem á fundinum, er kaus mig til ferðarinnar, hafði lofað mér meðmælum sínum, og að heimta saman fé það, er til þurfti, og bjó út vegabréf mitt o. s. frv., hefði, í stað þess að halda þessi loforð sín, skýrt öllum frá, og sagst hafa góðar heimildir fyrir, að eg myndi aldrei aftur til Íslands koma. Væri það því alls ekki þess virði, að senda mér nokkura peninga, og afsagði með öllu að veita þeim viðtöku. Allan fjöldann af fólkinu hafði hann látið sér takast að sannfæra um þetta, jafnvel eigið heimilisfólk mitt. En ekki lagði Sandholt meiri trú á lygasögu þessa frá sýslumanni en svo, að það var einmitt hann og félag hans, sem hjálpuðu mér með fé til Noregs, sá um geymslu sýningarmunanna og flutti þá ókeypis til Ísafjarðar sumarið eftir.

Tíminn var kominn til að kveðja vini og kunningja í Kaupmannahöfn og leggja af stað með póstskipinu til Íslands. Ferðin gekk vel og eftir þriggja daga dvöl í Reykjavík lögðum við Hafliði vinur minn og félagi af stað til

Vesturlandsins með flutning upp á Akranes, þaðan á hestum að Vogi, og eftir litla dvöl þar hjá bróður sínum og kennara mínum, sem þá var orðinn blindur, vestur í Stykkishólm. Þar skildu leiðir okkar. Eftir tveggja daga bið vegna óveðra og storma fekk eg flutning inn á Skarðströnd og þar þegar í stað fylgd og hesta inn að Skarði til Christiansen kammeráðs. Einhver flugufregn var þangað komin um, að eg myndi ekki til Íslands koma framar, og hló Christiansen gamli mikið að henni. Alt var búið til farar og flutnings sonar hans, Skúla, sem var hjá mér í læri á veturna. Einungis var beðið gufuskipsins og fregna af mér. Skildi eg þar eftir það lítið, sem eg hafði meðferðis, lagði þegar af stað næsta dag og hraðaði ferð minni alt sem eg mátti inn að Fagradal, fekk jafnharðan flutning þaðan og til Akureyjar, þaðan upp að Reykhólum og vestur í Stað á Reykjanesi til vinar míns, síra Ólafs; fekk flutning þaðan vestur að Grænnesi í Gufudalssveit. Lagði eg þar ofurlitla lykkju á leið mína til að hitta vini mína. Foreldrar síra Matthíasar höfðu þar húsaskjól. Kvaddi eg þar síðasta sinni konuna, göfugu og góðu, Þóru móður Matthíasar, konu, sem mér fanst vel hafa getað skipað drotningarsess, en varð að lifa við fátækt, er fylgdi henni alla daga. En þó gat hún enn hlegið hljómþýða hlátrinum sínum, eins og hún átti vanda til, um leið og perlur táranna hrundu henni af augum niður kinnar.

Áfram hélt eg þaðan alt hvað aftók, yfir hálsa og heiðar og norður að Laugarbóli í Ísafjarðarsýslu.

7.

*Hvernig launað var.*

Rosar og stormar voru nú miklir, og var ekki fært veður að komast út Djúpið og naumast flutningsfært þverfirðis. Með herkjum komst eg yfir Ísafjörð, gekk þaðan út í Vatnsfjörð, til vinar míns síra Þórarins Böðvarssonar, sem tók mér að vanda eins og vinur. Þaðan yfir Háls að Skálavík til Gunnars hreppstjóra, sem einnig var í hópi vina minna. Flutti hann mig yfir Mjóafjörð. Þaðan fór eg fótgangandi. Var þá veður orðið vægara, svo eg gat tafarlaust fengið flutning ofan í Vigur heim til mín. Þar

leið öllu vel og fekk eg beztu viðtökur. Margir, sem eg hitti á þessari leið og trúaðir voru orðnir á sögu Stefáns sýslumanns, ráku upp stór augu, nema síra Þórarinn og Gunnar, sem alls engan trúnað höfðu lagt á sögu hans. Skömmu síðar lagði eg út á Ísafjörð, til að sýna mig og sjá aðra, og til að sækja skip, sem eg átti þar í geymslu, ásamt öðru fleira. Þangað hafði ekkert frézt um heimkomu mína, og urðu margir steinhissa af að sjá mig horfinn heim aftur. Margir vildu spyrja mig frétta úr ferðum mínum, en eg var spar á þeim. Sagði þeim, að þeir yrði að bíða, þar til er eg legði fram ferðaskýrslu mína; myndi eg gera það, ef eg lifði til vorsins. Er nú stutt yfir sögu að fara. Eftir rúman hálfan mánuð, sem mest gekk í ferðalög og ýmsa aðdrætti, var eg aftur seztur á laggirnar og farinn að smíða. Eg samdi ferðaskýrslu mína eins greinilega og vel og mér var unt.

Sýningarmunirnir komu með beztu skilum með vorinu. Var eg svo heppinn, að fá gott húsrúm á Ísafirði til að sýna þá og raða þeim niður; kom eg þeim svo fyrir, að þeir mynduðu eins konar sýningu í smáum stíl. Síðan boðaði eg til almenns fundar með löngum fyrirvara, til hagræðis fyrir þá, sem þangað vildu koma. Fundurinn var heldur vel sóttur, jafnvel af mönnum, sem heima áttu utan kaupstaðar. Eg las upp skýrslu mína, sem var býsna löng, svo skýrt og áheyrilega, sem eg hafði lag á. Lagði eg þar einnig fram blöð, bæði norsk og dönsk, er skýrðu frá einhverju í sambandi við mig og ferð mína. Eg lýsti hinu góða hugarfari Norðmanna í garð Íslands og löngun þeirra til að komast í nánari kynni og viðskiftasamband við Ísland. Benti eg á, að til þess þetta mætti takast með góðum árangri, riði mest á áreiðileik og skilsemi af hálfu Íslendinga. Eg mintist að verðugu góðvildar etazráðs Árna Sandholts og þeirra félaga, og lét í ljós von um, að viðskiftamenn þeirrar verzlunar á Ísafirði létu þá heldur njóta þess en gjalda. Síðast mintist eg vonbrigða minna hinna miklu og þess drengskaparbragðs Ísfirðinga, að senda mig í ókunnugt land og láta mig standa þar uppi félausan og ráðalausan. Þessu ódrengskapar-bragði væri þeir bezt kunnugir, sem heima hefði setið og falið hefði verið á hendur að fjalla um

þau mál og sjá um framkvæmdir. Hér stæði eg nú frammi fyrir þeim með uppréttu höfði og góðri samvizku, og óflekkuðu mannorði, fyrir guðs hjálp, og skilaði þeim nú sjálfum mér, mununum, sem eg hefði komið með, og meðferð þeirra í ókominni tíð, er eg vonaði yrði með þeim hætti, að þeir yrði til eins mikilla nota eins og frekast væri unt.

Sýslumaður stóð kafrjóður undir lestri síðasta skýrslu-kaflans. Margir hinna eldri manna, einkum skipasmiðir og formenn, nöldruðu eitthvað sín á milli, og sýndist mér fremur ólundar-svipur á þeim. Loks var nefnd kosin til að íhuga málið og kveða upp úrslitadóm um, hvað gera skyldi. Var þá gengið af fundi, til þess að matast. Sýslumaður fremur heimtaði, en beiddi mig, að fá sér skýrsluna til yfirlesturs. Fekk eg honum hana fúslega og leyfði honum að hafa til næsta dags. Hann blaðaði lítið eitt í henni, sýndist lesa á einum stað dálítið, síðan fleygði hann henni frá sér á borð, sem þar var, og labbaði heim til sín. Nokkuru eftir hádegi fór nefndin, sem kosin var til að hugleiða málið, að vinna ætlunarverk sitt. Þegar flestir höfðu fengið sér einhverja hressingu, komu menn saman aftur til að heyra úrskurð nefndarinnar. Hafði hún þá komist að þeirri niðurstöðu, að eg skyldi sitja með alt saman, eins og komið var: ferðakostnað og sýningarmuni.

Heyrðust þá nokkurar raddir: Skammarleg meðferð! og fleira þess konar. Var svo fundi slitið.

## 8.

### *Menning og siðferði.*

Fundarúrslitin, sem eg nú hefi skýrt frá, er naumast unt að skilja, nema með því móti, að eg reyni með fáeinum orðum að lýsa nokkurum atriðum í sambandi við sögu Ísafjarðarsýslu að fornu og nýju.

Eg mintist á heilmargt í skýrslu minni, sem ábótavant væri og nauðsynlega þyrfti umbóta við. Til dæmis báta og skipasmíð og allan útbúnað til fiskiveiða. Lagði eg það til, að sendur væri efnilegur maður til Noregs, til að læra skipasmíð og margt fleira í sambandi við fiskiveiðar. Sagði, að mér væri óhætt að ábyrgjast, að honum yrði vel tekið.

Benti eg á ýmislegt, sem læra þyrfti af Norðmönnum í þessu sambandi, eins og verkan á fiski og breytilegan útbúnað hans, eftir því á hvaða markað honum væri ætlað, bræðslu á lýsi til lækninga, íshús í smáum stíl, til að geyma beitu, plóg eða áhöld með tilfærum til að plægja upp skelfisk til beitu, á dýpi, þar sem honum er ekki unt að ná á annan hátt, smokkfiski- (kolkrabba) -veiðar á sjó úti, þó ekki ræki hann að landi, og ýmislegt fleira smávegis, er eg hafði smá-mót af eða teikningu frá sýningunni. Smíðaði eg margt af því síðar, er varð að góðum notum, áður en eg fór frá Íslandi, en sumt ekki fyr en eg var farinn. Þetta, sem eg hefi vikið á af efni skýrslunnar, hafði þau áhrif á skipasmiðina gömlu og margæfðu, að þeir urðu fokvondir, skoðuðu þetta lítilsvirðingu á list sinni o.s.frv. Formennirnir gömlu og sjóæfðu sömuleiðis. Fiskiverkunarmenn og fiskifærasmiðir,— allir þessir hópar manna þóttust finna einhverja móðgun í sinn garð. Þar sem eg drap á, að mikilla umbóta væri vant á verzlunarviðskiftum og verzlunaraðferðum, brostu verzlunarþjónarnir í kamp sér og hugsuðu mér þegjandi þörfina. Hygg eg, að með þessu sé leyst gátan um fundar-úrslitin.

Ísafjarðarsýsla hefir um langan tíma verið óheppin mjög með löggæzlumenn sína. Flestir hafa þeir verið sérplægnir menn, ónýt yfirvöld og þar að auki óreglumenn, að einum undanteknum, Eggerti Briem. Hann var þar skamma stund, að eins þrjú ár. Þaðan fluttist hann til Norðurlandsins og var þar talinn, eins og alkunna er, einn af merkustu mönnum samtíðarinnar. Af hinum vil eg nefna nokkura. Fyrstan Ebenezer sýslumann. Bjó hann lengst í Önundarfirði og var þar eigandi stórmikils jarðagóz. Minnist Espólín hans í Árbókum sínum og lýkur á hann litlu lofsorði. Var hann faðir þeirra systra, frú Ingibjargar á Skarði og Madömu Önnu í Vigur, sem síðar verður ef til vill ofurlítið frekar minst. Eftir hann var settur skattheimtumaður eitt eða tvö ár Þá kom Briem, eins og áður var sagt. Þá Gunnlaugsen, sem bjó í Reykjafirði, og var mesti drykkjumaður og óreglu. Komust fimm börn þeirra hjóna af barnsaldri, tveir synir og þrjár dætur, alt mestu aumingjar. Eftir hann kom með veitingu sýslunnar ungur og efnilegur maður, Erlendur að nafni. Druknaði hann á

fyrsta ári sínu þar og tveir efnismenn með honum, á ferð úr Vigur út á Ísafjörð. Var sagt, að hann hefði verið trúlofaður einkadóttur Önnu í Vigur, Mörtu að nafni. Eftir þetta slys voru tveir eða þrír settir sýslumenn, allir börn sinnar tíðar, þar til er Stefán sýslumaður kom með veitingu sýslunnar frá Kaupmannahöfn, einu ári áður en eg kom á Ísafjörð. Sat hann þar að völdum mér samtíða, þar til árið 1880. Hafði hann að mörgu leyti fremur óheilnæm áhrif á siðmenningarlíf Ísafjarðarsýslu. Saga mín af baráttunni fyrir tilverunni þar yrði einnig sýnishorn af embættisfærslu Stefáns.

Í sæti hans settist danskur maður, Fensmark að nafni. Stórfurðaði flesta á, að hann skyldi hafa náð í það embætti, jafnmikið bjálfamenni, af mentuðum manni að vera, sem hann var. Var hann giftur konu af stór-Dana ættum. Var það haft fyrir satt, að ættingjar hennar myndi hafa haft áhrif á danska veitngarvaldið í þessu efni. Á þriðja ári hans þar, stóðst kona þessi ekki mátið lengur, en hypjaði sig á brott með börn þeirra, sópaði vandlega innan hjá Fensmark og tók sér fari með seglskipi til Kaupmannahafnar. Næsta ár var Fensmark vikið frá embætti með 30,000 króna skuld, er hann átti ekki einn eyri til lúkningar. Fluttist hann þá í moldarkofa einn á Ísafirði og dró fram lífið við að prjóna sjóvetlinga og róa til handfæra.

Þá er með fám orðum að minnast á aðra embættismenn, einkum prestastétt samtíðar minnar í Ísafjarðarsýslu. Eg hlífist ekki við að fullyrða, að hver einasti prestur í Norður-Ísafjarðarsýslu, að undanskildum síra Þórarni Böðvarssyni frá Vatnsfirði, og að nokkuru leyti síra Stefáni Stefánssyni í Holti, hafi verið drykkjumaður og sumir þeirra til mikillar vanvirðu fyrir þá göfugu stétt Afleiðingarnar, beinar og óbeinar, þarf ekki að fjölyrða um. Þær segja sig sjálfar. Síra Þórarinn var hinn nýtasti maður og prýði stéttar sinnar í hvívetna. Hann lagði meðal annars stund á lækningar og hjálpaði mörgum, er til hans leituðu. Bezta lag, sem eg hefi þekt, hafði hann á að sætta og slétta úr misklíð, sem upp kom meðal manna. Og margt fleira var honum vel gefið. Mér var hann ávalt hlyntur og bar einatt meira traust til mín, en eg átti skilið. Var hans mikið

saknað, þegar hann fluttist brott að Görðum á Álftanesi. Síra Stefán sómdi sér vel í stöðu sinni, einkum í höfðingjahóp. En fremur þótti hann stórbokki, eins og hann átti ætt til, og afturhaldssamur í meira lagi.

Þá er eftir að minnast á stærsta mein samtíðarinnar, ríki Bakkusar. Hvergi á Íslandi mun hann hafa náð öðru eins hámarki og heljartökum og við Ísafjarðardjúp um þessar mundir. Til þess lágu margar orsakir, og afleiðingarnar sjálfsagðar. Má fyrst til nefna þá staðhöfn, að um það leyti, sem eg var í Kaupmannahöfn, höfðu Danir gefið eins konar verðlaun til að auka sölu á dönsku brennivíni, — voru það 5 aurar á hvern pott brennivíns, sem út fluttist frá Dönum til annara landa. Þessi hlunnindi kunnu íslenzkir kaupmenn vel að hagnýta sér. Við þetta bættist, að meginið af því áfengi, sem til Íslands fluttist, var ekki meira en hálf hreinsað, var ilt mjög á lykt og smekk, og mátti heita alls ódrekkandi. En kaupmenn fengu þessa tegund áfengis við miklu lægra verði, en brennivín, sem drekkandi þótti í Danmörku.

Svo mikið var flutt af þessu góðgæti til Ísafjarðar, að sjaldan var skortur á því, þó aðrar nauðsynjar vantaði. Kaupmenn gátu með þessu móti selt áfengi mjög ódýrt og þó með stór ábata. Staupadrykkja við búðarborðin átti sér hvarvetna stað, er menn komu þangað til einhverra viðskifta. Mesti urmull smábáta gekk þá til fiskiveiða um Djúpið, auk stærri skipa í útverum. Þurfti þá oft að sækja salt, einkum þegar vel fiskaðist; fylgdu þeim erindum ávalt að sjálfsögðu ókeypis saltflöskur, auk kúta af ýmsum stærðum, sem tekið var á út í reikning.

Naumast þótti nokkurt verk vinnandi, nema áfengi væri öðrum þræði. Mörg heimili voru þá við Ísafjarðardjúp, sem tóku á sumrin út í reikning sinn tvær til fimm tunnur brennivíns, auk annars áfengis. Mörg þessara heimila voru siðprýðis og regluheimili, en svona var tízkan orðin harður húsbóndi.

Gestrisni á mjög háu stigi var þar alsiða, en naumast þótti kaffibolli bjóðandi, nema brennivínsflaska væri sett fram um leið, sem gesturinn átti að skamta sér úr sjálfur. Þeir, sem skerast vildu úr leik með að fylgja þessum sið-

um, þóttu naumast menn með mönnum. Nýta vinnumenn var torvelt að fá í vist eða kaupavinnu, um anna tímann á sumrin, nema brennivín væri daglega á borðum, og eins til nestis, ef legið var við tjöld. Vitaskuld áttu einstöku undantekningar sér stað frá því, að þessum siðum væri fylgt.

Smám saman tók hreyfing að vakna með mönnum að þrengja að völdum Bakkusar. Alþingi samdi lög um, að leggja toll á áfengi. Ákveðinn tollur var lagður á brennivín og *spiritus* o. fl., en sá galli var á lögum þessum, að sama upphæð var lögð á 8 stiga brennivín og 16 stiga vínanda. Kaupmenn sáu þar þegar feitan slag á borði. Í stað 8 stiga brennivíns, fluttu þeir svonefnt *spritt,* eða lélegan, hálfhreinsaðan vínanda með 16 stiga styrkleik, í stórum ámum og tunnum, og bjuggu úr sjálfir til brennivín eftir eigin höfði; þó blandan væri tveim til fjórum stigum lægri að stigatali, en hún átti að vera, gjörði það ekki mikið til. Það fylti pyngjuna að eins enn betur. Var þessi drykkur verzlunarvara unz toll-lögunum var breytt.

Á þessum árum náðu skuldir almennings við verzlanir einnig hámarki sínu. Allur fjöldi sjávarbænda og útgerðarmanna gat ekki greitt skuldir sínar í kauptíðinni, hvað þá meira. Kaupmenn reyndu með öllu móti að ná sem mestu inn til sín upp í skuldirnar og fá vöruna með sem lægstu verði. Prísar voru ósjaldan ekki upp kveðnir fyr en seint á sumrum, og gerði það mönnum oft óumræðilegt óhagræði. Oft voru heldri menn, sem minni skuldum voru háðir, að reyna að koma lagi á þetta Má telja síra Þórarin einn helztan þeirra, meðan hans naut við; tókst honum oft furðanlega, að koma á samningum. Stundum var reynt að fá lausakaupmenn frá öðrum höfnum, til dæmis Reykjavík. Biðu þá kaupmenn eftir því, til að kveða upp prísana.

Þá er að minnast á Ísafjarðar-kaupstað. Kaupmannastéttin á Ísafirði var sumpart danskir menn, sumpart dansklundaðir Íslendingar. Nokkurir kaupmenn voru þar einungis um tíma á sumrin, en áttu heima í Kaupmannahöfn og drógu þangað allan arð verzlunarinnar. Auk þess voru nokkurir smá-kaupmenn, sem kaupsýslu höfðu með höndum til að nurla fé saman, og nokurir stórefnaðir *jakt*-eigendur og útgerðarmenn. Nálega mynduðu allir þessir kaupmenn

og efnamenn eina samfelda *klíku*. Stórlaxarnir gleyptu þá smáu, eða neyddu þá til að fylgja boði þeirra og banni. Stefnan var, að hafa ófrelsi sem allra mest í viðskiftum. Einstöku undantekning mætti nefna, til dæmis Þorvald lækni, sem bjó þar allan aldur sinn.

Enn vil eg stuttlega minnast á flokk manna, fremur lítinn þó, sem bæta reyndi fjárhag sinn með því, að lána mönnum, er með einhverju móti komust í fjárþröng. Einkum vildu þeir lána þeim, er fasteign áttu, ekki peninga, heldur ýmsa muni, sem þeir áttu aflögu, og innskriftir í reikninga, án þess að krefjast nokkurrar borgunar. Tóku þeir jarðarskika þeirra í veð fyrir. Þetta gat gengið svo árum saman, en þegar er skuldin var nógu há orðin af viðlögðum rentum, þá fengu þeir einn góðan veðurdag aðvörun um, að á tilteknum tíma yrði þeir að greiða alla skuldina. En ef þeir gátu það ekki, sem sjaldnast var, var jarðarparturinn tekinn fyrir það verð, er þeim þóknaðist að gefa. Sýslumaður var fyrirmynd þessara manna, og fleira fylgdi á eftir. Út úr þessu gat oft spunnist illkynjuð misklíð milli manna. Einkum lagði hann sig eftir, að ná eignarhaldi á stærri eða minni pörtum úr eyjunum, Vigur og Æðey. Var það líkast því, að það ætti að verða örlög mín, án þess nokkur drög væri til þess af minni hálfu, að vera þar á verði fyrir aðra, en ekkert fyrir sjálfan mig. Spunnust oft víðtæk æfintýr út af þessu. Svo lauk þeim viðskiftum samt, að aldrei náði hann eignarhaldi á einu álnarvirði í eyjum þessum.

## 9.
## *Niðurlag.*

Eg hefi nú lokið við, að gefa fáeina drætti af mannfélagsástandinu, eins og það kom mér fyrir sjónir. Það eru að eins slitróttir smádrættir að landabréfi samtíðar minnar í Ísafjarðarsýslu. En öll örnefnin vantar og drætti til þeirra; en einmitt um þau snerist öll barátta mín í Ísafjarðarsýslu. En eg held, vinur minn, að þetta sé nægilegt fyrir þig til að ráða gátuna.

Og enn fáein orð um sjálfan mig. Eins og áður er á minst, átti eg heimili í Vigur, áður en eg fór til Noregs.

Þaðan fluttist eg til Æðeyjar, sem liggur rúma viku sjávar frá Vigur, við norður-strönd Djúpsins. Þar var eg í sextán ár og fór þaðan til Ameríku. Alt af stundaði eg smíðar, kendi piltum, með fram öðrum atvinnuvegum, sem tíðkuðust við Djúpið. Fjórtán ár sat eg í sýslunefnd. Hreppstjórn og sveitarstjórn afsagði eg ætíð að hafa nokkur afskifti af. Var eg í mörgu mjög mótfallinn samtíðartízkunni í þeim efnum.

Á þessum árum fór eg enn einu sinni til Noregs og þaðan til Kaupmannahafnar og var þar veturinn allan, fram á vor. Aðal-erindi mitt þá var að bæta dálitlu við þau síldarveiða áhöld og útbúnað, sem enn voru fyrir hendi. Gekk þá etazráð Klausen í félag við mig. Fór eg með skipi hans til Ísafjarðar um sumarið. Átti eg dálítið hægra aðstöðu með tilraunir mínar við þær veiðar eftir það. En síldin var oft æði prettótt í þá daga og svo var þetta sumar. Ævintýra feril minn um þetta tímabil er mér eigi unt að rekja lengra út í æsar. Hann væri efni í dálítla bók. Sum þeirra voru þess eðlis, að torvelt væri að skilja þau, nema rakin væri öll tildrög til þeirra. Verður því að nema hér staðar að sinni.

Eg vil helzt ganga fram hjá að minnast mikið blettanna svörtu, sem Bakkus skildi eftir á ferðum sínum við Ísafjarðardjúp á þessum tímum. Eg ætla að eins að setja hér fáeinar vísur, sem einhver hagyrðinganna á hinum óæðra bekk mælti fram undir nafni eyjarinnar Vigur.

*Vigur.*

Eg má muna æfir tvær,
eitt sinn mælti Vigur;
hér var áður höfðingsbær,
heiður, vald og sigur.

Nú er alt á annan veg,
orðinn svipur dapur.
Hrösun, þræta hversdagsleg,
harmur, drykkjuskapur.

Far þú Bakkus feigðar til,
frið og sætt er kefur;
á þér kann eg engin skil,
upp þú syndir grefur.

Börn mín ung þín heljarhönd
hefir niður slegið,
og þau í vanans voðabönd
og vondra siða dregið.

Guðs blessan er flúin frá
frægu höfuðbóli.
En Bakkus, Simbi, og synd-
in grá
sitja á tignarstóli.

Hvað blind ofdrykkja bakar
þjóð,
bezt mín vitnar saga.
Þrungin hörmum því, mín
jóð,
um þetta eg yður klaga.

Lengi saga, eg leiði í grun,
letrar harma tárum
þennan baga og mikla mun
minn á fáum árum.

Margar fleiri bögur voru á lofti um nokkura aðra staði við Ísafjarðardjúp á þeim árum. En þetta er nóg sýnishorn. Eg vil einnig bæta því við, að eg held mér sé óhætt að segja, að allir betri menn og allur þorri fólks við Ísafjarðardjúp bar til mín hlýjan hug og sýndi mér jafnan alla velvild. Var yfirleitt fallist á skoðanir mínar að flestu leyti. En þegar til þeirra kasta kom, að leggja hönd á verkið, vildi tízkan og vaninn oftast nær hindra það. Sama get eg sagt um kaupmenn og fólk yfirleitt á Ísafirði.

Kvæði voru mér flutt, bæði saknaðarljóð og hamingjuóskir, er eg fór þaðan. Á öllum færslum og flutningum mínum frá fyrst til síðast hafði eg ávalt töluvert fjárhagslegt tjón. Hefir greinilega sannast á mér spakmæli Franklins: "Tvær færslur eru á við einn eldsbruna."

Aðal orsakirnar til þess hafa ávalt verið tröllatrú mín á loforð og ráðvendni annara. Varð engin undantekning frá þessu, síðast þegar eg fór frá Íslandi. Því peningar, sem mér var lofað að senda skyldi þaðan, námu þúsund krónum. Af þeim hefi eg aldrei einn eyri fengið. Sumra skuldheimtumanna minna frétti eg fyrst til í Kanada, og er víst einn þeirra enn á lífi.

Hér í Ameríku hefir sama fárið viljað loða við mig. Má nefna, meðal annars, innbrotsþjófnað, sem eg varð að þola í Seattle. Var stolið frá mér úr gullsmíðabúð minni 270 dollara virði af skrautmunum. Þúsund dollara lífsábyrgð átti eg í "Mutual Life Insurance" félaginu, sem eg var búinn að fullborga, þegar það félag fór um koll. Fleira þess konar í smærri stíl gæti eg talið.

Í sambandi við þetta vil eg geta þess, að þegar við hjónin urðum að hrekjast frá Seattle sakir veikinda, héldu Íslendingar þar okkur skilnaðar samsæti og afhentu okkur með velferðaróskum sínum fjörutíu dollara í gulli.

Með hjartanlegum hamingjuóskum,

Þinn einlægur vinur,

*Sumarliði.*

---

Handritið hefi eg afskrifað frá upphafi til enda, lagfært orðfæri og setningaskipan að því leyti, sem mér þótti betur fara, skift frásögn þessari í kafla með fyrirsögnum, er eg hefi sjálfur sett. Efni hefi eg hvergi haggað hið allra minsta og tilgangur minn verið sá, að ganga frá þessu, sem líkast því, er hann sjálfur vildi gert hafa, hefði sjónleysið ekki bagað hann. Óska eg, að lesendum Almanaksins þyki eins mikið varið í æfisögubrot þetta og mér. Vitaskuld get eg ekki tekið neina ábyrgð á frásögninni. En það veit eg, að vinur minn hefir viljað segja sem sannast og réttast frá öllu, og talað beint út úr hjarta sínu eins og líka orð hans og frásögn bera ljósastan vott um.

*F. J. B.*



# Um eldingar og þrumuleiðara.

---

Margt fólk er mjög hrætt við eldingar, og það ekki að ástæðulausu.

En það má komast hjá því að verða fyrir eldingum, eins og það má komast hjá flestum öðrum meinum mannlegs lífs. Eldingar koma ávalt niður á vissum stöðum, og það eru aðrir staðir til, þar sem eldingar koma aldrei niður. Eðlilegar ástæður liggja að þessu. Náttúran gjörir ekkert að ástæðulausu.

Gufukatlar og járnbrautarvagnar eru örggustu staðir heimi fyrir eldingum. Enginn maður hefir nokkurn tíma orðið fyrir eldingu í járnbrautarlest.

Í borgum slær eldingum aldrei niður í miðhlutanum, innan um verzlunarhúsin; hið sama á sér stað með geisiháar byggingar. Það hefir verið sannað með skýrslum, að eldsábyrgðarfélög tapa aldrei neinu vegna tjóns af eldingum í stórhýsum, sem hafa málmklædda veggi eða grind úr járni eða stáli.

Herskip úr stáli eru óhult fyrir eldingum og sömuleiðis vindmylnurnar úr stáli. Það stafar af því, að þessir hlutir leiða eldingarnar sjálfir og þurfa þess vegna enga aðra vernd en þá, sem í því liggur.

Aftur á móti eru margir hlutir, sem eldingar eru vissar með að hitta, eins og komist er að orði: Íbúðarhús í sveitum og í útjöðrum borga, hlöður, kirkjur, skólahús, tré, heystakkar og skepnur, einkum ef þær eru nálægt vírgirðingum.

Í húsum inni er enginn staður óhultari fyrir eldingum en rúm úr járni eða messing. Það er mjög hættulegt, að standa nálægt rúminu, þar sem maður er hærri en rúmið. Ástæðan fyrir því að manni er óhætt, ef hann liggur í rúminu, er sú, að þá er bæði höfða- og fótagafl rúmsins hærri en maður sjálfur. Rafmagnsstraumurinn fer ekki úr rúminu í þann, sem liggur í því. Þó að veggir og gólf sundrist í smáagnir er honum áhætt meðan hann liggur kyr í rúminu.

Fiðurdýnur eru engin vörn gegn eldingum, nema þær liggi á rúmbotni, sem er úr málmi. Ef rúmgrindin er úr tré, en botninn úr stálvír, þá getur rumið farið í smáagnir, án þess að þeim, sem í því liggur, verði nokkuð meint af.

Á daginn er óhultast að standa í miðju herbergi, ef ofn eða eldavél er þar ekki nærri. Það er alveg gagnslaust, að

loka hurðum og gluggum, þó að margir haldi, að það sé öryggisráð; eldingin kemst jafnt inn fyrir því, ef hún á annað borð leitar inn.

Í skýrslum, sem ná yfir nítján ára tímabil fyrir árið 1903 og sem hafa verið prentaðar í bók um eldingar og varnir gegn þeim, sem Bandaríkjastjórnin hefir látið gefa út, er sýnt, að af 146,618 fjósum, hlöðum og kornhlöðum, sem kviknað hafði í, orsakaðist eldurinn í 14,968 af eldingum. Þessi skýrsla var yfir alla húsbruna, hvort sem orsök eldsins hefir fundist eða ekki. Eldar, sem stöfuðu af eldingum, hafa þá verið, samkvæmt þessari skýrslu, 10.2 af hundraði; en séu þeir einir taldir, sem menn vissu um orsakir að, þá verður hlutfallið 21.5 af hundraði. Skýrslur margra eldsábyrgðarfélaga sýna, að þar sem akuryrkja er stunduð í stórum mæli og margar hlöður, íbúðarhús og önnur hús standa ein sér, er mikil hætta á sumrin af eldingum, bæði á húsum og skepnum. Skepnurnar drepast oft með þeim hætti, að þær koma við vírgirðingar, sem eru þrungnar af rafurmagni. Í austurhluta Bandaríkjanna er fremur lítið um það hirt, að verja eignir fyrir eldingum, því þar eru margar borgir og stórhýsi með stálgrindum algeng. Þar sem hús standa þétt saman og þar sem enn fremur málmþök, sem oft eru tengd við jörðina með vatnsrennum úr bl i, eru algeng, þar gera eldingar sjaldan mikinn usla. Rafmagnið dreifist þar og hverfur niður í jörðina, án þess að nokkuð beri á, í gegn um hina mörgu leiðara, sem það finnur.

Íbúðarhús úr timbri og önnur hús, sem standa ein sér og sem engin stálgrind er í, er unt að verja að eins með þrumuleiðurum. Öll íbúðarhús, hlöður og önnur útihús, sem eru verðmæt, ættu að vera varin þannig fyrir þessu eyðileggjandi afli náttúrunnar, sem aldrei má treysta.

Óruggasti vegurinn er beztur. Og í því að verja hús fyrir eldingum, eins og svo mörgu öðru, hafa menn algerlega breytt um aðferð. Gömlu einangrunarstengurnar úr gleri eru lagðar niður, enda voru þær of litlar og ófullkomnar; þær voru jafnvel fremur til ills en góðs.

Í reglum viðvíkjandi þrumuleiðurum, sem kendar eru við "The Phoenix Fire Office," er nákvæmlega tekið fram, hvernig verja megi hús fyrir eldingum, með vírleiðurum og málmstöngum, sem komið er fyrir á réttum stöðum á þakinu, einkanlega á strompum og burstum.

Hinn nafnkendi enski vísindamaður, Sir Oliver Lodge, hefir gert mjög nákvæmar rannsóknir á áhrifum eldinga á hús, með hliðsjón af því, hvort unt sé að gera þau alveg óhult með málmþráðum, er séu þandir utan um húsin. Niðurstaðan, sem hann hefir komist að, er sú, að til þess að húsin séu alveg óhult, þurfi þau helzt að vera þakin með vírneti, sem næst líkist fuglabúri. En bæði er það sýnilega ó-

gerningur að leggja í þann kostnað, sem því fylgir, og svo mundu hús verða mjög ósmekkleg útlits með því.

En með því að nota allan málm, sem er utan á húsinu, og bæta við nokkrum leiðurum, svo að húsið sé innilokað í einskonar málmneti, má nokkurn veginn ná tilganginum. Þakrennur má nota, en þá verða þær að vera vel skeyttar saman, svo að rafmagnsstraumurinn geti runnið óhindrað eftir þeim. Venjulega þrumuleiðara verður að nota þar að auki, og verða þeir að vera tengdir við renurnar með sérstökum þráðum. Er gott að hafa láréttan leiðara hringinn í kring um húsið, tvö eða þrjú fet frá jörðu eða niðri í jörðinni. Þræðir ættu síðan að liggja á nokkrum stöðum úr þessu málmneti niður í jörðina.

Hús, sem standa nálægt háum trjám eða í grend við háa turna, eru engan veginn óhult. Þegar eldingu slær niður, lendir hún sjaldnast öll á einum stað, heldur er oft eins og margar komi niður í einu og hitti marga staði. Þess eru jafnvel dæmi, að eldingar hafa komið niður í kjöllurum, sem eru allir neðanjarðar.



# Sólargeislarnir sem læknismeðal.

Sólin er mesti óvinur bakteríanna; þær þola ekki hin lífgandi áhrif sólargeislanna, heldur eyðast og deyja í þeim. Enn þá hefir vísindamönnunum ekki hepnast, að finna alla heilsubætandi eiginleika sólarljóssins, en margir nafnfrægir vísindamenn hafa gert áhrif sólarljóssins á heilsuna að rannsóknarefni.

Vér vitum, að vér höfum ávalt þörf fyrir sólarljósið. Sólskinið er líkama mannsins jafn nauðsynlegt og loftið, sem hann andar að sér. Líkamleg heilbrigði er eflaust að miklu leyti undir því komin, hversu mikils sólskins við njótum, og ef það skyldi koma fyrir, að sólarhitinn yrði einhvern tíma í framtíðinni notaður til iðnaðarframleiðslu í heitu löndunum, þá mundu áhrif sólarljóssins á heilsufar mannkynsins verða langt um meiri, en þau eru enn sem komið er; að vísu hefir sólarljósið haft áhrif á heilsu manna á öllum tímum.

Heródótus lofaði lækniskraft sólarinnar og Hippókrates ráðlagði mönnum, að láta sólarljósið leika um sig. Á öllum húsum í Pompeii voru svalir til að taka á sólböð. Fornlatnesk yfirskrift, sem fundist hefir í Korhusi í Túnis, skýrir frá, að rómverska stjórnin hafi látið reisa þar byggingu fyrir sólböð og stroklækningar. Staðurinn var vel þektur í Rómaborg vegna heilsubrunnanna, sem þar voru.

Nú á dögum eru sólböð nefnd "heliotheraphy" (samsett úr tveimur grískum orðum: helias=sól, og þerapeia=hjúkrun eða lækning). Þótt lækningaraðferð þessi þektist til forna, þá er það fyrst nú á síðustu tímum, að möguleikarnir til að lækna með sólskini hafa verið rannsakaðir, eða réttara sagt, að menn hafa fengið vitneskju um þá, því þetta er hvergi nærri því fullrannsakað enn þá.

Frakkneskur vísindamaður, dr. F. Helme að nafni, hefir skýrt frá sólskinslækningum í blaðinu Le Temps, og er það sem hér fylgir að mestu leyti tekið úr því.

En fyrst verður að skýra nokkuð frá eðli sólarljóssins.

Þegar sólarljósið er látið skína gegn um þrístrending úr gleri, skiftist það, sem öllum ætti að vera kunnugt, í mislita geisla, sem eru nefndir litgeislabönd, og er röð litanna í því á þessa leið: rautt, rauðgult, gult, grænt, blátt, dökkblátt og fjólublátt. Þetta eru litirnir, sem verða greindir með berum augum, en litaskiftingin heldur á fram til beggja hliða við sjálft litgeislabandið.

Sálarljósið, eins og það sést í litgeislabandinu, hefir þrennskonar áhrif. Sumir litirnir, einkanlega sá rauði, hafa mest hitamagn; aðrir, einkanlega sá græni, hafa mest ljósmagn, og að lokum hafa bláu og fjólubláu geislarnir áhrif, sem valda efnabreytingum.

Skoðanir manna eru skiftar um það, hvort það séu hitageislarnir, ljósgeislarnir eða geislar þeir, sem efnabreytingunum valda, sem eru þýðingarmestir frá sjónarmiði læknisfræðinnar.

Tilraunir Pasteurs og annara hafa sannað, að sólarljósið eyðileggur bakteríur. Samkvæmt ágizkunum bakteríufræðingsins Remling, er húðin á heilbrigðum manni svo þakin með bakteríum, að ekki færri en 40,000 finnast á hverjum ferhyrnings sentímetra. Maður getur ímyndað sér, að hér sé ærið verkefni fyrir sólargeislana. Í vatninu, sem fullhraustur maður hefir baðað sig í, eiga að vera þetta frá áttatíu til tvö hundruð miljónir bakteríur og þar yfir. Eitt sólbað kvað vera nóg til þess að drepa mest af þessum feykilega fjölda.

Frakkneskur læknir, Malgat að nafni, hefir bent á það skaðræði, að tízkan gefi alls engan gaum að þessum sannindum læknisfræðinnar. Vetrarföt karla og kvenna hylja líkamann svo algerlega, að enginn sólargeisli kemst að húðinni. Úr þessu mætti bæta með því, að nota meira af hvítri ull í fataefnin. Hvíti liturinn og sá blái leyfa hinum hollu sólargeislum að komast að líkamanum.

Þegar sólargeislarnir falla á bert hörundið, finnur maður til hita. Við það víkka hárfínu smáæðarnar, sem liggja út í hörundið; og rauðu blóðkornin streyma út í þær, til þess að fá hita í sólarljósinu og sjúga í sig súrefni. Þetta eykur aftur bruna efnanna í líkamanum.

Um leið og þetta skeður, verður starf hjartans léttara, því eftir því sem smáæðarnar víkka, verður þrýstingur blóðsins í æðunum minni.

Einnig eiga taugarnar að hafa gott af því að verða fyrir áhrifum frá sólarljósinu. Í húðinni eru ótal taugaendar, því í gegn um húðina kemur öll tilfinning. Sveifluhreyfingar frá endastöðvum taugakerfisins inn á við hafa líklega á einn eða annan hátt heilsusamleg áhrif og auka vellíðun líkamans. Í fyrsta lagi verður efnabreytingin örari, og í annan stað eykst starf gerðarefnanna í frumlunum, en aðalstarf þeirra er í því falið, að sundurleysa efnin.

Hinn nafnkendi vísindamaður, Daniel Berthelot, hefir sannað með tilraunum sínum, að gerðarefnin í magakyrtlinum hafa sundurleysandi áhrif á eggjahvítuefni í vissum hlutföllum við áhrif fjólubláu geislanna. Það virðist því ekki vera of langt gengið þótt gert sé ráð fyrir, að sólin geti beinlínis haft samskonar áhrif.

Eins og allir vita döknar húðin undan sólskini; en af hverju stafar það? Það stafar af því, að líkaminn sendir frumlum þeim, sem verða fyrir áhrifum ljóssins, litarefni, til að varna því, að áhrifin verði of sterk; fyrst gulleit efni, sem fituefnin í líkamanum leggja til, og síðan dökkleit litarefni, sem blóðið leggur til að mestu.

Af þessu er augljóst, hversu mikilvæg áhrif sólarljósið hefir á allan líkama mannsins, og hversu mikla andspyrnu líkaminn veitir því. Veiklaður og viðkvæmur líkami má því ekki alt í einu verða fyrir miklum áhrifum sólarinnar. Við ljóslækningar í suðrænum löndum er þeirri reglu fylgt að láta sólina fyrst skína á fæturnar fimm mínútur í einu, síðan á fótleggina o.s.frv.

Ófullkomin efnabreyting í líkamanum, blóðþynka, taugaveiklun og ýmsir aðrir sjúkdómar, eru nú læknaðir með sólarljóss áhrifum; enn fremur hafa þau verið notuð við útvortis berklaveiki og reynst afbragðs vel.

Sólin er látin skína á hinn sjúka líkamshluta. Einfaldari lækningaraðferð en þá, er naumast hægt að hugsa sér. Læknir nokkur, dr. A. Delille, skýrir frá því í læknisfræðisritinu "Presse Medicale", að lækningin reynist vel í sjúkdómstilfellum, þar sem engin von var um bata með venjulegum ráðum. Lítil stúlka, sem var hálf krept og með bakbeygju, fékk fullkominn bata og varð ótrúlega hraustleg í útliti.

Sólin er þannig uppspretta líkamlegrar heilbrigði. Menn eru alt af að komast betur og betur að raun um, að mannslíkaminn þarf sólarljóssins með. Á Þýzkalandi eru til þrjú hundruð félög, sem leggja stund á sóllækningar og almennur áhugi fyrir þeim hefir vaknað. Í raun réttri hafa menn á öllum tímum þekt lækningarkraft sólarinnar. Á Grikklandi til forna t.d. æfðu íþróttamenn sig í sólskini.

## HELZTU VIÐBURÐIR OG MANNALÁT MEÐAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

Vorið 1916, tók burtfararpróf við lút.prestaskólann í Chicago, Steingr. Octavius, sonur séra N. Steingríms Thorlákssonar í Selkirk.— 25. júní var hann prestvígður af séra Birni B. Jónssyni, forseta kirkjufélagsins og 30. s. m. var hann settur af forsetanum inn í heiðingjatrúboðsembættið sem hann var ákvarðaður til. Lagði trúboðinn að því búnu til Asíu í þeim erindum fyrir General Council.

---

Við vorpróf háskóla Manitoba-fylkis tóku burtfararpróf:

Sveinn Björnsson í læknisfræði. Fæddur á Lýtingsstöðum í Vopnafirði 1885, sonur Eiriks Björnssonar og konu hans Aðalbjargar Jónsdóttur er þar bjuggu, en nú hafa flutt hingað vestur.

Í verkfræði (Engineering):

Stefán Guttormsson.

Studentspróf tók:

Jórunn Hinriksson, dóttir Magnúsar bónda Hinrikssonar í Þingvallanýlendu.

---

Við kosningar til bæjarstjórnar í Winnipeg, náði kosningu sem fulltrúi fyrir 4. kjördeild borgarinnar, John J. Vopni, ráðsmaður Lögbergs. Er hann ættaður úr Vopnafirði ; fluttist frá Íslandi 1887.

---

Við lögfræðisprófin haustið 1916, útskrifaðist Guðmundur A. Axford, og var veitt inntaka í lögfræðingafélag Manitoba-fylkis (admitted to the Bar.) Guðm. er sonur Árna Árnasonar Axford (úr Axarfirðinum) og Guðbjargar Jónsdóttur, var hún systir öldurmanns J. J. Vopna og þeirra systkina.

# Mannalát.

---

7. Jan. 1915: Jórunn Pálsdóttir, kona Jakobs Einarssonar bónda við Hekkla-pósthús í Ontario. Var faðir hennar Snæbjarnarsonar, Snæbjarnarsonar prests í Grímstungu í Húnavatnssýslu, en móðir var Ingiríður Ólafsdóttir, Jónssonar frá Eiðsstöðum í sömu sýslu; 53 ára gömul.

5. Agúst 1915: Jóhanna Björg Jónasdóttir Bergssonar, ekkja, til heimilis hjá Lúðvík Laxdal við Kanadahar, Sask. Páll Jónsson hét maður hennar og bjuggu þau síðast á Íslandi á Máná á Tjörnesi í Þingeyjars.; 74 ára.

8. Ágúst 1915: Sigríður Þórðardóttir, kona Björns Guðnasonar bónda við Kandahar, Sask. Voru foreldrar hennar Þórður Pálsson og Guðrún Magnúsdóttir í Brattholti við Eyrarbakka; 57 ára.

DESEMBER 1915

7. Des. 1915: Guðný Árnadóttir, að heimili tengdasonar síns í Spanish Fork, Utah, ættuð úr Vestmanneyjum; ekkja Guðmundar Árnasonar (úr Mýrdal); 81 árs að aldri.

11. Des.: Sigfinnur Pétursson, í bænum Minneota í Minnesota (frá Hákonarstöðum í Norðurmúlasýslu). Fluttist frá Íslandi til Ameríku 1878. 79 ára. Ekkja hans heitir Sigurbjörg Sigurðardóttir.

14. Des.: Björg Guðmundsdóttir, til heimilis hjá syni sínum Jóni, skósmið á Baldur, Man.; ekkja Jóhanns Björnssonar trésmiðs; áttu þau eitt sinn bústað á Stóra-Eyrarlandi við Akureyri (ættuð af Tjörnesi); 85 ára.

14. Des.: Ásbjörn Jósefsson, til heimilis í Minneota, Minn. Voru foreldrar hans Jósef Jónsson og kona hans Sigríður Vigfúsdóttir á Haukstöðum í Vopanfirði; 73 ára.

19. Des.. Pétur Vigfússon Peterson, í Blaine, til heimilis hjá bróður sínum Matúsalem þar. Aldraður ekkjumaður.

20. Des.: Siggeir Ólafsson, í Duluth, Minn., sonur Ólafs Jónssonar og Guðrúnar Þórðardóttur, sem lengi bjuggu á Krossum í Staðarsveit á Snæfellsnesi; 62 ára.

20. Des.: Ágústa Einarsdóttir, ekkja Jóns Gíslasonar, kaupmanns á Washington eynni í Wisconsin. Voru foreldrar

hennar Einar Bjarnason, fyrrum kaupm. í Reykjavík (d. fyrir rúmum 20 árum) og kona hans Helga Guðbrandsdóttir, sem enn er á lífi. Fluttist hún með foreldrum sínum hingað frá Íslandi 1873; fædd í Reykjavík 1855.

24. Des.: Jóhannes Sigurðsson, bóndi á Miklabæ norðan við Gimli. Foreldrar hans, Sigurður Þorsteinsson og Kristín Árnadóttir í Skógargerði í Þingeyjars'slu. Sigríður Hannesdóttir heitir ekkja hans (ættuð úr Skagafirði); fluttist hingað 1876; 63 ára.

## JANÚAR 1916

5. Jan. 1916: Sólveig Sigurðardóttir, kona Eyðs J. Johnson, bónda við Hallson, N.-Dak. Var hún dóttir Sigurðar Pálssonar og konu hans Sesselju Magnúsdóttur, sem búa þar í bygð; 24 ára.

6. Jan.: Sigríður Pétursdóttir, við Mary Hill pósthús., í Man.; tvgift; hét fyrri maður hennar Þorfinnur Jónsson, seinni maður Gísli Johnson; ættuð úr N.-Múlas.; 75 ára.

7. Jan.: Erlendur Erlendsson, að heimili sonar síns Björns bónda við Víðir-pósthús í Nýja Íslandi; ættaður úr Húnavatnssýslu.

8. Jan.: Sæmundur Björnsson Illugasonar (frá Dalgeirsstöðum í Húnavatnssýslu). Fluttist til Nýja Ísl. 1876; bjó um mörg ár við Mountain, N.-Ð., og síðast við Mozart í Sask. Lézt hjá börnum sínum vestur á Kyrrahafsströnd; 65 ára. Heitir ekkja hans Magðalena Lilja Halldórsdóttir frá Svertingsstöðum í Húnaþingi.

9. Jan.. Jón J. Eiríksson, bóndi í Álftavatnsnýlendu (ættaður úr Hjaltastaðaþingha í N.-Múlas.) 53 ára.

10. Jan.: Rannveig Árnadóttir, hjá syni sínum Jóni S. Gillis, bónda við Brown-pósthús í Man., ekkja Sigfúsar Gíslasonar, eins af frumbyggjum Nýja Íslands. Voru foreldrar hennar Árni Gíslason og Guðbjörg Gísladóttir á Bakka í Hólminum í Skagafirði. Í móðurætt komin af Jóni biskup Teitssyni á Hólum; 83 ára.

13. Jan.: Guðrún Ólafsdóttir, ekkja, að heimili sonar síns Ásgeirs Sveinssonar í Winnipeg (ættuð frá Álftartungu í Mýrasýslu); 73 ára.

17. Jan.: María Elín Jósafatsdóttir, kona Þorsteins bónda Sigurðssonar frá Refstað í Vopnafirði; við Hazelcliffe-pósthús í Sask. Fædd á Ási í Kelduhverfi; foreldrar hennar Jósafat Gestsson og Helga Hallgrímsdóttir; 53 ára.

20. Jan.: Gísli Benjamínsson, til heimilis hjá Gunnari bónda Kristjánssyni í ísl. bygðinni á Pembina-fjöllum. Heitir ekkja hans Guðbjörg Daníelsdóttir. Fluttust frá Mel í Vopnafirði 1876; höfðu búið saman í hjónabandi 65 ár

og eignast 12 börn, sem öll eru dáin; fóru fyrst til Nýja Íslands og þaðan til Dakota. Var hann 88 ára.

21. Jan.: Magnús Jónsson Freeman, að heimili sonar síns Árna M. Freeman, bónda í Grunnavatnsbygð í Man. (ættaður úr Þingeyjarsýslu; fluttist frá Íslandi 1884); 82 ára.

21. Jan.. Þorlákur Jónsson, frá Stóru-Tjörnum í Ljósavatnsskarði, faðir séra N. Stgr. Thorlakssonar í Selkirk og þeirra systkina. Yfir áttrætt.

23. Jan.: Sveinn Sölvason á gamalmennaheimilinu á Gimli (frá Skarði við Sauðárkrók) heitir ekkja hans Monika Jónsdóttir. 82 ára gamall.

24. Jan.: Ólöf Kjærnested, ekkja Elíasar Kjærnested, er búsettur var í Víðinesbygðinni í Nýja Íslandi. Voru foreldrar hennar Þorsteinn Helgason og Dagbjört Sveinsdóttir á Kjalveg í Snæfellsnessýslu. Elías og Ólöf fluttust hingað frá Borg í Hnappadalssýslu 1881. Fædd í Maí 1830.

28. Jan.: Konan Nanna Sigurðsson í Glenboro, Man.; til heimilis hjá foreldrum sínum, Halldóri Árnasyni og konu hans; 47 ára.

29. Jan.: Þorleifur Jónsson, til heimilis hjá tengdasyni sínum, Friðrik Friðrikssyni bónda í Lögbergsnýlendu. Foreldrar hans voru Jón Jónsson frá Arnarnesi við Eyjafjörð og Kristín Þorleifsdóttir Þorleifssonar Jónssonar á Siglunesi. Sigríður Þorbergsdóttir var kona hans (d. 1905). Bjuggu þau í 26 ár á Reykjum á Reykjaströnd í Skagafirði; 83 ára.

31. Jan.: Eyhildur Guðrún Einarsdóttir, kona Stefáns Guðmundssonar við Belmont-pósthús í Man.; ættuð úr Steingrímsfirði; 54 ára.

## FEBRÚAR 1916

2. Febr.: Guðlaug Hallgrímsdóttir hjá syni sínnum Þorláki Guðnasyni á Baldur; 88 ára.

8. Febr.: Þorsteinn, sonur þeirra hjóna Sigfúsar Anderson og konu hans Vilborgar í Winnipeg; 18 ára.

9. Febr.: Matúsalem Johnson, í bænum Royal í Minnesota, bóndi þar í nýlendunni; fluttist hingað vestur 1878.

12. Febr.: Sigríður Sveinsdóttir, systir Friðriks Sveinssonar list-málara í Winnipeg; lézt í Bellingham, Wash.

14. Febr.: Albert Þiðriksson, bóndi á Steinsstöðum í Nýja Íslandi. Voru foreldrar hans Þiðrik Ingimundarson og Helga Bjarnadóttir á Sviðningi í Kolbeinsdal í Skagafirði. Heitir ekkja hans Elín Petrína Pétursdóttir Guðlaugssonar frá Miklaholti í Viðvíkursveit í Skagafirði. Fluttust þau til Nýja Íslands 1876; 70 ára.

26. Febr. Jósef Sigurðsson, bóndi á Melstað í Nýja Íslandi. Foreldrar hans voru Sigurður Sigurðsson og Guðrún Guðmundsdóttir á Dergstöðum í Eyjafirði fram. Arnbjörg Jónsdóttir heitir ekkja hans; fluttust þau frá Íslandi 1876; 74 ára.

25. Febr.: Þorkell Magnússon, bóndi við Hallson-pósthús í N.-Dak.; ættaður úr Gullbringusýslu; 80 ára.

22. Febr.: Metta Pálsdóttir Gunnlögssonar; ekkja var hún Hjálmars Reykjalín, Friðrikssonar prófasts Jónssonar (d. 1896). Bjuggu við Svoldar-pósthús í N.-Dak.

27. Febr.: Guðjón Jónsson (Finnsson) bóndi í Þingvallanýlendu. Fæddur á Laugabóli á Langanesströnd, Ísafj.-s. Voru foreldrar hans Jón Árnason og Ingibjörg Finnsdóttir. 62 ára.

29. Febr.: Þórður Þórðarson, að heimili sínu við Charleston, Wash. Fæddur 1849 að Sigríðarstöðum í Vesturhópi, sonur Þórðar Eivindarsonar og Guðbjargar konu hans. Ekkja hans hetir Kristín Sveinsdóttir frá Steinaborg í Hjaltastaðaþinghá.

MARZ 1916

1. Marz: Jón J. Austmann, bóndi á Skálholti við Íslendingafljót, ættaður úr Hróarstungum í N.-Múlas.: giftur var hann Guðlaugu Halldórsdóttur frá Egilsstöðum í S.-Múlasýslu, er enn lifir; fluttist hingað 1883; 76 ára.

14. Marz: Eggert Magnússon Vatnsdal, hjá syni sínum Friðrik kaupm. í Wadena Sask.; voru foreldrar hans Magnús Einarsson og Sigríður Einarsdóttir, er bjuggu í Skáleyjum á Breiðafirði; tók kafteinspróf í Danmörku 1862 og sigldi eigin skipum til kaupferða milli landa; kvæntur var hann Soffíu Friðriksdóttur prófasts Jónssonar (dáin 1907); fluttust frá Íslandi 1886 til N.-Dak; fæddur 1831.

16. Marz: Jóhanna Jónsdóttir, kona Péturs Valgarðssoonar bónda við Taber í Alberta (ættuð úr Vestmanneyjum); 68 ára.

17. Marz: Jónína Jónsdóttir, kona J. C. Hansen í Spanish Fork; ættuð úr Vestmanneyjum.

18. Marz: Gísli Gíslason Böðvarssonar í Utah, rúmlega fertugur; ættaður úr Vestmanneyjum.

21. Marz: María Jóhannsson, ekkja Sigurbjörns heit. Jóhannssonar skálds; 54 ára; hjá tengdasyni sínum J. A. Sveinssyni bónda í Argyle-bygð.

21. Marz: Halldór Auðunsson, bóndi við Mozart, Sask.; ættaður úr Hafnarfirði; 55 ára.

23. Marz: Pétur Jónsson, sonur Jóns Jónssonar Péturssonar frá Kolgröf í Skagafirði, til heimilis í Edmonton, Alta.; 30 ára.

26. Marz: Guðbjörg Jónasdóttir, kona Oddbjörns Magnússonar í Winnipeg; voru foreldrar hennar Jónas Erlendsson

og Helga Jónsdóttir, er lengi bjuggu á Tindum í Húnavatnssýslu; 62. ára.

27. Marz: Jón Jónsson Westman, bóndi í Álftavatnsbygð, sonur Jóns Sigurðssonar, sem um langt skeið bjó á Þverá og Hjarðarfelli í Snæfellsnessýslu; 63 ára.

28. Marz: Guðrún Salína, gift hérlendum manni, A. Cox; lézt nálægt Edinburg á Skotlandi. Foreldrar hennar Sigfús Pétursson og Guðrún Þóra Sveinsdóttir, er lengi bjuggu við Íslendingafljót (úr Vopnafirði); 46 ára.

30. Marz: Albert Guðmundsson Eyjólfssonar, í Spanish Fork; ættaður úr Húnaþingi; 27 ára.

Í Marz: Kristján Kristjánsson, við Hnausa-pósthús í Nýja Íslandi; Herborg Jónsdóttir heitir ekkja hans, bjuggú síðast á Syðri-Bakka í Kelduhverfi; kom til þessa lands 1903.

## APRÍL 1916

3. Apríl: Sveinn Sveinsson, bóndi í Argyle-bygð. fæddur á Daðastöðum í Núpasveit í N.-Þingeyjars. 1856; kom til þessa lands rúmt tvítugur; kvæntur Kristjönu Jóhannesdóttur.

5. Apríl: Jón Nikulásson, til heimilis við Víði-pósthús í N. Íslandi (ættaður úr Reyðarfirði); 58 ára.

6. Apríl: Guðrún, kona F. W. S. Finnssonar bónda við Wynyard, Sask.; 35 ára.

9. Apríl: Þorbjörg Ósk Gunnarsdóttir, kona Guðjóns Goodman í Winnipegosis, Man.; 20 ára.

19. Apríl: Jónas Jónsson, bóndi á Völlum við Hnausa-pósthús, ættaður úr Húnavatnssýslu; fluttist frá Ísl. 1876; 85 ára.

20. Apríl: Ingibjörg Kristjánsdóttir, kona Matúsalems Einarssonar bónda við Mountain, N. Dak.; ættuð úr Skagafirði; 61 árs.

26. Apríl. Stefán Guðnason, í Portage la Prairie, Man.; bjó áður á Borg í Nýja Íslandi; 68 ára.

27. Apríl: Helgi Stefánsson, bóndi við Wynyard, Sask.; var fæddur á Arnarvatni við Mývatn 1865; voru foreldrar hans Stefán og Sigurbjörg Jónsdóttir, er þar bjuggu; ekkja hans Þuríður Jónsdóttir Sigurðssonar frá Gautlöndum.

Apríl: Albert Jameson, hjá foreldrum sínum Guðm. Eyjólfssyni og konu hans Ingibjörgu Margr. Jónatansdóttur, í Spanish Fork, Utah; 26 ára.

## MAÍ 1916

2. Maí: Gróa Daðadóttir, til heimilis hjá syni sínum Gísla Jónssyni bónda í Mouse River bygð í Norður Dakota; Jón Gíslason hét maður hennar (d. 1869) og bjuggu þau á

Kjörsey í Hrútafirði; þaðan fluttist hún með börnum sinum vestur um haf 1875; 94 ára gömul.

6. Mai: Guðrún Ólafsdóttir, kona Jóns Þórðarsonar á Mountain; fædd 27. Nóv. 1842 að Reykholti í Reykholtsdal; foreldrar hennar, Ólafur Jónasson prests í Reykholti og kona hans; 1882 fluttust þau vestur um haf og voru fyrstu landnemarnir sem reistu bú á svonefndum Pembinafjöllum, norðaustur af Milton.

8. Maí: Olga María Vilhjálmsdóttir Olgeirssonar, kona Hreiðars Hreiðarssonar Skaftfeld í Winnipeg (ættuð úr S.-Þingeyjarsýslu); 38 ára.

16. Maí: Kristján Konráð Davíðsson, frá Dog Creek, lézt í Winnipeg; voru foreldrar hans Magnús Davíðsson og Ingibjörg Gísladóttir, bæði ættuð úr Skagafirði; 16 ára.

21. Maí: Jón Þórðarson á Mountain, N. Dak. Fæddur 16. Ágúst 1829 og var því nær 87 ára; kona hans Guðrún Ólafsdóttir, lézt 6. Maí og er hennar minst hér á undan.

22. Maí. Helga Þorsteindóttir Ísberg, kona S. Friðbjörnssonar í Winnipeg; ættuð af Jökuldal; 38 ára.

25. Maí: Bergþór Jónsson, á Point Roberts, Wash., bróðir séra Jónasar Jónssonar prófasts í Holti í Vestur-Ísafjarðarsýslu; var kona hans Jónína Halldórsdóttir frá Gili í Bolungarvík; 73 ára.

## JÚNÍ 1916

9. Júní: Halldór Gíslason, bóndi við Ross-pósthús, Minn.; voru foreldrar hans Gísli Jónsson og Jarðþrúður Jónsdóttir; ættuð úr Múlasýslum; 44 ára.

10. Júní: Þorsteinn Jóhannesson, bóndi við Árborg í Nýja Íslandi; ættaður úr Miðfirði í Húnavatnssýslu; 47 ára.

11. Júní: Lukka, ekkja Gunnlögs Bjarnarsonar fyrrum bónda í Argylebygð; lézt í Winnipeg; 66 ára.

13. Júní: Aurora, dóttir Andrésar Árnasonar og Jónínu konu hans, er búa við Asham Point við Manitobavatn; 18 ára.

17. Júní: Jón Thordarson, til heimilis í Glenboro, Man.; 73 ára. Fæddur á Vatni í Haukadal í Dalasýslu; Þórður Jónsson og Guðbjörg Sveinsdóttir voru foreldrar hans; fluttist frá Íslandi 1876; var einn af frumbyggjum Argyle-bygðar.

17. Júní: Þórunn Stefánsdóttir, til heimilis hjá Guðm. Camoens Helgasyni og systurdóttur sinni Ólöfu Björnsdóttur, konu hans í Þingvallanýl.; voru forleldrar hennar Stefán Ólafsson og Anna Stefánsdóttir á Esjubergi í Gullbringusýslu; ekkja Bergþórs Jónssonar (d. 1909); 69 ára.

19. Júní: Ingibjörg Þorkelsdóttir, ekkja Þorsteins Austmanns í Minnesota-nýl. Var hún systir Jóhanns Þorkelssonar dómkirkjuprests í Rvík; háöldruð kona.

23. Júní: Sigurjón sonur Ísleiks Ólafsonar og Elísabetar Eiríksdóttur í Spanish Fork, Utah; 32 ára.
24. Júní: Ása Tómasdóttir, kona Jóns Veum, kaupm. í Foam Lake, Sask.
26. Júní: Einar Sigurðsson, að Butze í Alberta, ættaður af Suðurlandi; 48 ára.

JÚLÍ 1916

2. Júlí: Jóhannes Stefánsson Thorlákssonar, frá Churchbridge, Sask., féll á vígvellinum á Frakklandi; móðir hans heitir Jóhanna Magnúsdóttir; foreldrar hans ættuð úr Vestmanneyjum; 28 ára.
4. Júlí: Björg Ögmundsdóttir, ekkja eftir Magnús Sæbjörnsson; bjuggu að Hólshúsum í N.-Múlasýslu; lézt hjá dóttur sinni, Sigurbjörgu og manni hennar J. J. Vopni, í Winnipeg.
5. Júlí: Sigurlaug Guðmundsdóttir, hjá dóttur sinni Lilju og manni hennar Albert Oliver, bónda í Argyle-bygð; kona Rögnvaldar Jónssonar; bjuggu þau mörg ár á Mæri fyrir norðan Gimli; 74 ára gömul.
10. Júlí: María Gísladóttir, hjá dóttur sinni Ingibjörgu og manni hennar, Guðbjarti Kárasyni, í Blaine, Washington, (ættuð úr Skaftafellssýslu); var ekkja eftir Stefán Þorkelsson frá Grímsstöðum í Meðallandi; 83 ára.
13. Júlí: Jón, sonur Bjarna bónda Jónssonar í Álftavatnsbygð, og konu hans Nikólínu Nixdóttur, frá Njálsstöðum á Skagaströnd; ungur maður.
13. Júl: Þorvarður Ólafsson, bóndi í Mikley í Winnipegvatni; ættaður af Síðu í Skaftafellss.; er ekkja hans Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Mýrdal.
17. Júlí: Elísabet Jónsdóttir, á gamalmennaheimilinu á Gimli; átti um langt skeið heimili í Winnipeg; ættuð af Austurlandi; 84 ára.
25. Júlí: Jónína Ingibjörg, dóttir Alberts Jónssonar, bónda í Árnesbygð í Nýja Íslandi; 16 ára.
28. Júlí: Kristján Pálsson, að heimili séra Sigurðar Ólafssonar í Blaine, Wash.; fæddur á Rafnkelsstöðum í Hrunamannahreppi í Árnessýslu 6. Febr. 1876.

ÁGÚST 1916

7. Rannveig Ólafsdóttir Briem, kona Sigtryggs Jónassonar, fyrrum þingmanns í Manitoba; 63 ára.
10. Ágúst: Jósef Pétursson, sonur Péturs Guðlaugssonar og konu hans Sigurbjargar Bjarnadóttur á Gimli; 27 ára.
10. Ágúst: Guðný Margrét Guðmundsdóttir, kona Jósefs þess, er á undan er hér talinn; 18 ára.
10. Ágúst: Sigríður Octavía, systir Jósefs Péturssonar, kona Jóns Einarssonar á Gimli; 23 ára.

—Þau þrjú, er hér eru talin, druknuðu í Winnipegvatni, ásamt tveim ungum mönnum, Bristow, hverra móðir er íslenzk.

11. Ágúst: Sigurður E. Freeman frá Selkirk; lézt á vígvellinum á Frakklandi; 19 ára.

13. Ágúst: Jóhanna Jónsdóttir, kona Halldórs bónda Magnússonar í Argyle-bygð; 79 ára.

14. Ágúst: Jón Hrafndal, til heimilis í Victoria, B.C.; faðir hans var Jón Jónsson, sonur Jóns Bjarnasonar í Hrafnadal í Strandasýslu; 67 ára.

18. Ágúst: Guðrún Ásgrímsdóttir, kona Einars Guðmundssonar bónda við Hensel, N. Dak; 81 árs.

20. Ágúst: Jón Guðmundsson, bóndi við Gainsboro, Sask. (ættaður úr Mýrasýslu; bróðir Ólafs bónda í Hjörsey); 36 ára;

26. Ágúst: Hjörleifur Stefánsson, í Seattle. Wash. (ættaður úr N.-Múlasýslu); heitir ekkja hans Guðrún Tómasdóttir frá Reykjavík; 65 ára.

27. Ágúst: Egill Guðbrandsson, á heimili dóttur sinnar í Selkirk; á 84. aldursári.

30. Ágúst: Hólmfríður Sigurðardóttir, kona Þorláks Björnssonar (bróður Símonar Dalaskálds), bónda við Hensel, N.-Dak.; var hún fædd á Þúfnavöllum í Eyjafjarðars. 1853; Sigurður Kristjánsson og Þóra Þorkelsdóttir hétu foreldrar hennar; fluttist hún með móður sinni snemma á tímum til þessa lands.

30. Ágúst Guðbjörg Guðmundsdóttir, hjá dóttur sinni og tengdasyni. Stefáni Baldvinssyni í Winnipeg; ættuð úr Reykjadal í Þingeyjarsýslu; 71 árs.

30. Ágúst: Ásgeir Fjeldsted, kafteinn í 223. herdeildinni; sonur Þorbergs Fjeldsted, vitavarðar í Mikley.

31. Ágúst: Halldóra Sigríður Eggertsdóttir, kona Björns Jónssonar Austfjörð í Hensel N. Dak., frá Ekkjufellsseli í Fellum í N.-Múlas.; var hún dóttir Eggerts Magnússonar skipstjóra Vatnsdal og Soffíu Friðriksdóttur prófasts Jónssonar á Stað á Reykjanesi; 50 ára.

## SEPTEMBER 1916

4. Sept.: Bjarni, sonur Bjarna Bjarnasonar og konu hans Margrétar sál. Ólafsdóttur, er um langt skeið bjuggu á Arnarstapa í Mýras.; á faðir hans nú heima við Íslendingafljót; féll á vígvelli á Frakklandi; 36 ára.

5. Sept.: Brynjólflína, var gift hérlendum manni, er Cooney hét; var dóttir Einars Guðmundsonar, ættaðs úr Þingeyjarsýslu; 63 ára.

5. Sept.: Árni Helgason, bóndi í Spanish Fork, Utah; ættaður úr Vestmanneyjum; 68 ára.

9. Sept.: Guðni, sonur Þorsteins bónda Jónssonar að Hólmi í Argyle-bygð; 29 ára.
14. Sept.: Kristján, sonur Gísla Torfasonar og konu hans Sigríðar Sigurðardóttur, til heimilis við Belmont, Man. (frá Kirkjuskógi í Dalasýslu); 29 ára.
16. Sept.. Stefán Helgi, yngsti sonur Stefáns Thorsons, lögregludómara á Gimli; féll á vígvellinum á Frakklandi; 24 ára.
18. Sept.: Sigurveig Einarsdóttir, hjá syni sínum Kristjáni Ásg. Benediktssyni í Winnipeg; hét maður hennar Benedikt Andrésson Eiríkssonar frá Vogum við Mývatn; lézt hann á Ási í Kelduhverfi þar sem þau bjuggu síðast; 86 ára.
19. Sept.: Sigurlaug Jónsdóttir, við Íslnedingafljót í Nýja Íslandi, á heimili Páls Vídalíns, sonar síns (frá Hvarfi í Víðidal í Húnavatnssýslu; 79 ára.
28. Sept.: Guðrún Jónsdóttir, til heimilis hjá Gísla E. Bjarnasyni í Utah; ættuð úr Vestmanneyjum; kom til Utah 1859; 90 ára.
28. Sept.: Helga Jónsdóttir; til heimilis hjá syni sínum Páli Reykdal að Lundar, Man.; kona Árna Jónssonar Reykdal, sama staðar; ættuð úr Reykholtsdal í Borgarfirði; 82 ára.
29. Sept.: Steinunn Jónsdóttir; á Gardar N. Dak.; 80 ára.
30. Sept.: Kristinn skáld Stefánsson í Winnipeg; fæddur á Egilsá í Skagafirði; foreldrar hans Stefán læknir Tómasson og Vigdís Magnúsdóttir; flutitst vestur um haf 1873.

OKTÓBER 1916

7. Okt.: Þorbjörg Jónsdóttir Brynjólfssonar, að heimili Bergs Magnússonar bónda í Mouse River bygð í N. Dak., ættuð úr Skagafirði; tvígift, hét fyrri maður hennar Ólafur Davíðsson úr Fljótum, og seinni maður Magnús Magnússon, úr Ólafsfirði; með honum flutitst hún til Ameríku 1883; 93 ára.
8. Okt.. Sigríður Gísladóttir, kona Guðmundar Vigfússonar í Blaine, Wash.; foreldrar hennar voru Gísli Bjarnason og Sigurbjörg Sigvaldadóttir á Stóru-Ásgeirsá í Víðidal í Húnavatnssýslu; 59 ára.
9. Okt.: Vigfús Einarsson, til heimilis í Spanish Fork, Utah; ættaður úr Mýrdal; 78 ára.
16. Okt.: Magnús Kristján, sonur Gísla E. Bjarnasonar bónda í Spanish Fork, og konu hans Marínar Halldórsdóttur; 31 árs.
16. Okt.: Karl Guðmundsson, bóndi við Winnipegosis í Man.; ættaður úr Árnessýslu; 52 ára. Ekkja hans heitir Kristbjörg Ögmundsdóttir.
17. Okt.: Jakob Lindal, sonur Jakobs H. Lindal í Wynyard,

Sask.; féll á vígvellinum á Frakklandi; 21 árs.

19. Okt.: Ragnhildur Eyjólfsdóttir Oddssonar gullsmiðs í Reykjavík og Ragnheiðar Guðmundsdóttur prests að Borg á Mýrum; ekkja Þorvaldar Þorsteinssonar frá Berunesi í Fáskrúðsfirði; til heimilis í Keewatin, Ont.; 43 ára.

19. Okt.: Rannveig, kona Carls Thorsonar, dóttir Friðriks Sveinssonar og konu hans Sigríðar Jónsdóttur Laxdal í Winnipeg.

20. Okt.: Hannes Sigurðsson, bóndi í Argyle-bygð; 61 árs.

21. Okt.: Laufey, kona J. M. Ólafssonár bóndo í Argyle-bygð.

25. Okt.: Benedikt Jóhannesson til heimilis á Gardar, N.-Dak; fæddur á Torfunesi í S.-Þingeyjarsýslu 10. Sept. 1847; foreldar hans voru Jóhannes Jónsson og Ingibjörg Sigurðardóttir; til Ameríku fór hann 1873; var sex ár í Milwaukee, en fluttist 1879 þangað, sem nú heitir Gardar-bygð og nam þar land fyrstur Íslendinga; var tvígiftur; hét fyrri kona hans Ásta, dóttir Sæmundar Eiríkssonar frá Fellsseli í Þingeyjarsýslu; og seinni kona Bóthildur Eyjólfsdóttir úr Eyjafirði.

26. Okt.: Ragnhildur Þorsteinsson í Keewatin, Ont.; ættuð frá Borg á Mýrum.

27. Okt.: Óskar G., sonur Guðmundar Steinssonar og Gróu Jónsdóttur, úr Langadal í Húnavatnssýslu; féll á Frakklands vígvöllum.

27. Okt.: Jóhann Ísleifsson, hjá tengdasyni sínum Birni Péturssyni, kaupm. í Winnipeg; ættaður úr Reykjadal í S.-Þingeyjarsýslu; 83 ára.

27. Okt. Jóna Sigurlaug, dóttir Snæbjarnar S. Grímssonar og konu hans Önnu, er búa á Pembina-fjöllum; 21 árs.

29. Okt.: Jónatan Halldórsson, hjá syni sínum Halldóri kaupm. í Wynyard, Sask.; 86 ára.

Í Okt., 1916: Guðmundur Ásgeirsson, Þórðarsonar á Fossi á Snæfellsnesi, og konu hans Ólínu Guðmundsdóttur Ólafssonar prests á Hjaltabakka; féll á vígvöllunum á Frakklandi; 24 ára.

Í Okt., 1916: Hjálmar S. Sigvaldason Sigurðssonar og konu hans Margrtéar Árnadóttur; féll á vígvellinum á Frakklandi; um tvítugt.

Í Okt., 1916: Árni Valdimarsson Davíðssonar og konu hans Margrétar Árnadóttur (hálfbróðir Hjálmars þess er næst á undan er getið); véll á vígvellinum á Frakklandi; 28 ára.

## NÓVEMBER 1916

13. Nóv.. Guðbjörg Magnúsdóttir, að heimili sonar síns Elíasar Guðbrandssonar við Dog Creek pósthús, Man; 79 ára.

hét maður hennar Guðbrandur Guðbrandsson, lézt á Fróðá í Snæfellsnessýslu; bjugu þau þar síðast á Íslandi.
22. Nóv.: Guðrún Jónsdóttir, kona Marteins gullsm. Jónssonar, Marteinssonar frá Kaldh.ólum á Völlum í S.-Múlasýslu; var hún dóttir séra Jóns Bergssonar á Hofi í Álftafirði og konu hans Rósu Brynjólfsdóttur, prests frá Eydölum í Breiðdal; Guðrún lézt á heimili sonar síns Bjarna Marteinssonar bónda á Kaldhólum í Breiðuvík í Nýja Íslandi; 88 ára gömul.
26. Nóv.: Jón Jósefsson, í Ballard, Wash; fluttist vestur um haf af Vopnafirði 1875; voru foreldrar hans Jósef Jónsson og Ingunn Sigurðardóttir; ekkja hans heitir Ingijörg Arngrímsdóttir frá Búastöðum í Vopnafirði; 66 ára gamall.

## DESEMBER 1916

5. Des.: Margrét Jónsdóttir, hjá tengdasyni sínum Alex E Johnson í Glenboro, Man.; 77 ára.
26. Des.: Guðný Vigfúsdóttir Einarssonar, til heimilis hjá dóttur sinni Guðrúnu og manni hennar Bjarna Ingimundarsyni bónda við Wild Oak, Man.; ekkja Þorsteins Þorsteinssonar (d. 1882); bjuggu allan sinn búskap á Nýlendu á Seltjarnarnesi; 86 ára.
Í Des. 1916: Guðbjörg Magnúsdóttir, til heimilis hjá syni sínum Magnúsi bónda í Siglunes-bygð við Manitobavatn; ekkja Guðbrandar Guðbrandsonar, er bjó á Ingjaldshóli í Snæfellsness.; gömul kona.
Á árinu 1916: Helgi Einarsson, bóndi við Grass River í Manitoba; hétu foreldrar hans Einar Nikulásson og Oddný Ásmundsdóttir á Gíslastöðum í S.-Múlassýslu; Helgi var tvígiftur, hét fyrri kona hans Kristjana Olgeirsdóttir frá Garði í Fnjóskadal (d. 1889 í Wpg.). Síðari kona hans heitir Pálína Einarsdóttir; 77 ára.
Á árinu 1916 Jóhann Árnason, til heimilis í Blaine, Wash.; ættaður úr Húnavatnssýslu; hétu foreldrar hans Árni Sigurðsson og Sólveig Jóhannsdóttir; 71 árs.

---

# VIÐBÆTIR VIÐ LANDNAMSSÖGUÞÁTT ÍSLENDINGA Í UTAH.



Jakob Baldvin Jónsson, frá Reykjavík, sonur Jóns bónda á Njálsstöðum, og síðar á Bergstöðum á Vatnsnesi í Húnaþingi, Benediktssonar á Skúfi í Norðurárdal. Móðir Jabobs hét Sigríður Skúladóttir frá Þverá í Vesturhópi, Jónssonar. Var Sigríður þessi alsystir síra Sveins sem fyrir eina tíð var prestur á Staðarbakka, og Björns Skúlasonar, umboðsmanns á Eyjólfsstöðum á Völlum í Norðurmúlasýslu.

Jakob var fæddur á Bergstöðum, 21. maí 1843. Var ungur að aldri þá er hann fluttist suður á land, eða til Reykjavíkur. Þar bjó hann á bæ þeim sem heitir Steinsholt, í 6—8 ár, og átti það pláss sjálfur. Fyrst var hann í Engey fjögur ár, og lærði þar skipasmíði, og sjófræði, hjá Kristinn bónda Magnússyni, sem þar bjó lengi, og víða er getið, sem dugnaðar og framkvæmdar manns.

Árið 1876 flutti Jakob til Ameríku, og voru þá í ferð með honum 750 landar; hélt flest í þeim hóp til Manitoba, og kom til Winnipeg 8. ágúst. Þaðan fór Jakob suður til Utah, og lenti í Spanish Fork, 8. ágúst, rétt ári síðar en í Winnipeg.

Jakob bjó síðan í Spanish Fork, þar til 1885, að hann flutti til Castle Valley, og festi sér þar land; 160 ekrur. Var Jakob hinn fyrsti maður sem tók sér bólfestu þar, í grend við þorpið Cleveland, sem nú er orðin dálítill, og snotur bær. Þar bjó hann í 15 ár, og farnaðist fremur vel. En þá kom það fyrir að landið þar um pláss, hálf eyðilagðist af ofmiklu saltefni sem þar er í jörðu, svo hann varð að yfirgefa bústað sinn, og flytja sig 5 mílur sunnar. Þar keypti hann 190 ekrur af landi, og bjó þar í 9 ár, mikið laglegu búi.

Eitthvað nálægt, eða í kringum 1909, brá Jakob búi þar í Castle Valley, og fluttist aftur til Spanish Fork, og hefir búið þar síðan.

Jakob er maður talsvert hníginn að aldri, rúml. 72 ára, þegar þetta er ritað, en samt er hann ern, og ber aldurinn vel. Hann hefir kvænst fjórum sinnum. Hét fyrsta konan hans Ingibjörg, dóttir Jóns bónda Jónssonar á Grjóteyri í Kjós í Gullbringusýslu; önnur kona hans hét Sigríður Bjarnadóttir frá Götuhúsum í Reykjavík. Sú þriðja heitir Petría, fædd Knúdsen, dönsk að ætt og uppruna, og skildust þau að lögum. Fjórða konan, sem hann býr með núna, heitir Kristín, dóttir Jóns bónda á Eiði í Eyrarsveit, Jónssonar frá Þórólfsstöðum í Breiðufjarðardölum; Andréssonar sama staðar Jónssonar.

Jakob hefir ávalt verið starfs og búsýslumaður í betra lagi, og því ætíð liðið fremur vel. Trúmaður er hann mikill, og máttarstólpi í kirkju Mormóna. Hann hefir farið fjórar trúboðsferðir fyrir kirkju sína, síðan hann kom til Utah, tvær til Canada, og tvær til Íslands. Var hann þar í seinustu trúboðs ferð sinni 1911, þegar eg ritaði landnámssöguþáttinn, um Íslendinga í Utah, og var það orsökin, til þess að hans var ekki getið, utan lauslega.

Kristín kona Jakobs er þrifnaðar og myndar kona, og bæði eru þau samanvalin, að glaðværð iðjusemi og gestrisni.

E. H. Johnson

# INNIHALD: